# Kristinndóms Bók

handa

## Börnum,

útgéfin og útløgð

af

S. B. Sivertsen

Presti til Utskála og Hvalsness = safnaða.

Selst óinnbundin á prentpappír 60 ß S. M.

Videyar Klaustri.

1842.

# Formáli.

Undir eins og eg dyrfist, ad láta þessa Bók koma fyrir almennings augu og álit, finnst mér eg eigi ad lýsa hennar uppruna og tilgáagi, og hvad mig-dreigid hafi til ad leida hana í ljós; jafnframt verd eg lítid eitt ad mæla med henni, þó hún í raun-inni, ætti ad géta mælt med sér sjálf.

Bókin er þá í fyrstu samantekin og ritud, árid 1772, af þeim nafnfræga **Dr.** Seiler, Lærifødur í Gudfrædinni vid Fridriks Alexanders Háskóla, í Erlangen á **Þýdskalandi**; og má af þvi ráda, hvad hann hefir álitid úngdóms uppfrædínguna árídandi, og látid sér vera hugarhaldid um hana, ad hann þrátt fyrir sínar miklu embættisannir, skyldi taka fyrir sig ad semja þessa Bók handa børnum, sem hann seigist ætla þeim, undir eins og þau væru ordin læs. Fékk strax þessi hans Bók, svo mikid álit og afhald í **Þýdskalandi**, ad hún var innleidd, í flesta barna skóla þar, og løgd til grundvallar eda reglu, fyrir barna uppfrædínguuni, og má best sjá, hvørja vidtøku hún feingid hefir, ad á 3ur árum, var hún 5 sinnum geingin út á prent, og strax á eptir, tók fyrir sig, í sama augnamidi, danskur prestur, ad snúa henni á dønsku, úngdóminum til uppfrædíngar, og þeim til léttirs og leidarvísirs, sem tilsøgn barna

hefdu á hendi; Bókin er svo skiljanlega og einfaldlega stílud, ad audsjed er ad höfundurinn hefir leitast vid, ad laga hana eptir barnanna hæfi, og þeim aldri, sem hún er gjörd fyrir, og valid þann audveldasta máta, til ad géta vakid barnanna skilníng og eptirtekt, med því ad framsetja kristindómsins sannindi í skiljanlegum Samtölum, í hvörjum Fadir er ad greida skilníng barns síns, vekja þess eptirtekt, og hræra þess hjarta, til adgjætslu lífsins skyldna; og hefir hann í þessu fylgt þess heidna spekíngs Sokratesar kénslu-máta, sem þeim er kunnugt um, er hafa ritgjördir Platonis og Xenophons, Lærisveina hans.

Í Formálanum fyrir þeirri 1tu útgáfu Overs ins, gétur hann um, ad hann hafi komist ad raun um, ad ekkért sé börnunum skapfeldara ad lesa, enn skémtileg samtöl, og þad sem svo sé framsett, sé líka best lagad til ad skíra barnanna hugmyndir, vekja þeirra eptirtekt og laungun til ad lesa, edur læra þad sem nytsamt er, og betri undir eins þeirra hjarta, þegar þau heimfæra þad til sín, sem þau lesa; og á ödrum stad, seigir hann, ad tilgángur þessa Overs sé ad vekja barnanna athygli á kristindómsins sannindum, og venja þau til ad vyrda sjálf fyrir sér, og skoda sída og trúar lærdómsins ástædur, til þess þeim veiti hægra ad nema, og þau eins og ósjálfrádt leidist edur venjist til, ad bidja af hjarta, og yfir höfud til þess ad kristindómsins skyldur verdi þeim inndælar og elskuverdar, en hann seigist ekki eininigis hafa samid

þeſsa Bók fyrir børn, heldur þeim til leidarvíſirs og reglu, ſem þeim ætti ad ſeigja til; og vil eg ætla, ad fleiri enn børn, kunni ad hafa gagn af, því ekki mun á móti verda haft, ad þeir ſem ødrum kénni, læri undir eins ſjálfir. Í nidurlagi Formálans, fyrir þeirri 2ari útgáfu Qverſins, lætur hann í ljóſi, gledi ſína yfir því, hvad vidleitni ſín, ad innlífa hjá úngdóminum kriſtindómſins auda, hafi verid ſigurſæl, því hann kémſt ſvo ad ordi: „Eg vegſama Gud, hvørs gjæðſka hefir látid þeſsu Qveri fylgja þvilíka bleſsun, fram yfir mína eptirvæntíng".

Aungvann veit eg fyrr hafa ſnúid þeſsari Bók á íslendſku, enn Preſtinn Síra Stephán Høgnaſon á Breidabólſtad, og hefi eg ſjed af útleggíngu hans fáein blød; er af bréfi því ſem Biſkup Dr. Hannes ſkrifadi honum 1795 ljóſt, ad Preſturinn hefur ætlaſt til, ad þeſsi ſín útleggíng yrdi prentud, og hafdi þeſs vegna ſendt hana Biſkupinum til yfirſkodunar og lagfæríngar, en þeſsi ſeigiſt aptur ſenda honum hana med leidréttíngum ſínum, á þétt ſkrifudum 6 ørkum, ſem — því midur — eg komiſt hefi eptir, ad tíndar væru. Er af Biſkupſins bréfi ad ráda, ad honum hafi þókt ad preſturinn í útleggíngu ſinni hafi haldid ſig offaſt vid frumritid og bundid ſig vid ordin, ſem ekki hefdi átt vid, í voru máli.

Fyrſti hvatamadur minn, til ad takaſt á hendur útleggíngu þeſsa Qvers, var Fadir minn ſálugi, hvørjum allir er tilviſsu og þekktu, hafa géfid þann vitn-

ísburd, ad hann med mestu alúd og samvitskusemi hefdi látid sér vera umhugad um barna uppfrædíngr una. Hann var sjálfur byrjadur á ad útleggja þeunrán Bæklíng, sem honum féll svo vel í géd, en fól mér sídan á hendur, og lagdi ríkt á vid mig, ef eg einhvorntíma yrdi þess umkominn, ad koma honum út á prent, því hann var sannfærdur um, ad bókin, ef hún lögud væri og lagfærd einsog hún þyrfti og vid ætti, yrdi hún handhæg og hentug fyrir börn.

Þó eg aungvanveiginn sæi mig færann til þessa vandaverks, fann eg skyldu mína ad sýna viljann, og uppfyllá Födur míns ósk, og lauk eg vid útleggínguna medan hann enn var á lífi. Sá eg á eptir, ad mér hafdi ordid það á, sem eg átti ad varast, ad binda mig ofmjög vid frumritid, sendi því útleggíngu mína til Aggja þeirra manna, sem eg hafdi besta traust til ad gjætu vegna lærdóms og gáfna, lagfært hana, og lagad eptir því sem vid sýndist eiga, en annríki þeirra olli því, ad útleggíngin gat ekki feingid þá umbót, sem hún vidþurfti, samt sem ádur hafa athugasemdir þeirra gefid mér gódann leidarvísir, þegar eg hreinskrifadi útleggínguna ad nýu, og má eg inna þeim skyldugu þakklæti fyrir, en aungvanveiginn kenna um, þó ekki hafi til hlýtar ad því gjört, sem enn er ábfátt og umbótavant, því játa má eg, ad frammyfir mitt hæfi, hafi verid ad skilja svo vid þetta verk, ad ekki meigi í mörgu útá setja, fáir eru líka smidir í fyrsta sinni, enda mun eg ekki verda af þessu

verki kalladur gódur smidur. Ekki má eg hrósa mér af því, ad ordfærid sé svo vandad sem vera ætti, þó eg hafi haft allann vilja til ad hafa þad ekki mjøg óhreint eda afbakad, einkanlega hefi eg leitast vid, ad hafa þad sem skiljanlegast fyrir børn, og eptir því, sem vant er ad koma fyrir í daglegu máli.

Þeir sem eiga Frumritid géta sjed, ad eg héfi vída leyft mér, ad víkja frá því, sumu hleipt úr sem óvidfeldt þókti, líka sumstadar lagad eptir því sem eg sá, ad betur mundi hér vid eiga, og vidbætt ødru sem árídandi sýndist.

Ritníngargreinirnar eru flestar ordréttar eptir enni nýu útleggíngu Biblíunnar, nema þær sem standa í Barna-lærdóms bókinni, hefi eg látid óumbreittar, bædi vegna þess, þær sýndust mér ekki umbótar þurfa, og líka svo, ad þær af lestrinum væru ordnar børnunum ljósar, þegar þau ættu ad læra Barna-lærdóminn.

Geing eg vakandi ad því, ad mørg kunni ad hafa ordid yfirsjón mín vid þetta verk, en vona þó ad mér verdi til vorkunar virdt, og viljinn tekinn fyrir verkid, þegar tilgángur minn med þessari tilraun er einginn annar enn sá, ad efla annara heillir, en sídur enn ekki, mér til nokkurrar fordildar eda ábata ad ødruleiti, þykist eg hafa feingid ómak mitt og fyrirhøfn endurgoldnar, ef qverid gjæti haft tilætlada nytsemi og verkun, á skilníng og hjørtu þeirra úngu, þeim til uppfrædíngar í sínum kristinndómi, áminníngar og uppvakníngar.

Máské eg, med þessari minni tilraun, gjæti líka orðið orsök til, að einhvörjir minna lærðu landa og gáfumanna, létu tilleidast, að láta eptir sig sjá, þessu áþekka Barna-bók, en sem betur væri lögud eptir aldariinnar anda og upplýsíngu, bættu það svó upp, sem þetta qver ábrestur, en á medan, af því ekki yrdi, væri mér sönn ánægja og gledi, að Bæklíngurinn væri sér í nyt færdur, af sem flestum, eptir minni velmeintu tilætlun, til að kénna snemma þeim úngu veiginn til dygda og rádvendnis, til hvörrar þekkíngar, grundvöllurinn á í æskunni að leggjast.

Í stadin fyrir þær Bænir sem í frumritinu standa aptan vid Samtölin, hefi eg leyft mér að setja alkunnugar Bænir, sem bædi á fyrri og seinni tímum hafa verid ætladar börnum að læra, hvörjar hvör gétur þá valið eptir sinni vild, og líka nokkra fáeina Sálma og Sálmvers, sem eg veit til að börnum hafa verid kénnd á fyrstu árum aldurs þeirra, og vil eg vona, að aungvum þyki að því, þó þessu hafi vidaukid verid.

Eg vonast til að gódir menn virdi á hægri veg, en Gud minn vil eg bidja að léggja sína blessun til, að bókin mætti bera tilætladann ávöxt í hjörtum bædi ýngri og eldri, til eblíngar Guds ótta og dygd.

Utskálum þann 13da Febr. 1842.

S. B. Sivertsen.

# Inntakid
## í
# Samtølunum.

17. Auk mannanna eru til andar bædi gódir og vondir.
18. Syndafallid.
19. Syndarinnar verdlaün er daudinn.
20. Eilift líf eptir daudann, líkamans upprisa, sælufullt ástand enna gudhræddu, fyrirdæmíng.
21. Upphvatníng ad hlýda, Gudi af yfirvegun hans gjædsku og réttlætis.
22. Skylda vid foreldra.
23. Hlýdni og þakklátsemi vid foreldra.
24. Skyldur vid yfirvøld og ádra yfirbodna.
25. Hvad þér viljid mennirnir gjøri ydur, eigid þér þeim ad gjøra.
26. Elska skaltu náúnga þinn einsog sjálfann þig.
27. Øfund.
28. Sjálfshefnd, umburdarlyndi.
29. Idjusemi.
30. Leyfileg skémtun og gledi.
31. Hófsemi.
32. Audmýkt.
33. Agyrnd og okur.
34. Sparsemi.
35. Gódgjørdasemi.
36. Svik og órádvendni í lífsins athøfnum.
37. Þjófnadur og ótrúmennska.
38. Lýgin, skammarleg, straffsverd.
39. Bakmælgi, varkárni í ordum.
40. Vondar gyrndir, synd.

# 1. Samtal.

Það var einusinni góður faðir, sem héldt það vera skyldu sína, að leggja sjálfur hjá barni sínu, fyrsta grundvøll til sannrar guðhræðslu, og varði til þess hvørri stund sem hann hafði afgángs frá støfum sínum, til að gjøra barnsins skilníng ljósari, og laga það svo, að það gjæti orðið svo vel siðað og dygðugt, eins og kristnum manni ber að vera.

Ekkért er mér meir umgéfið, sagði hann einusinni við barnið, enn að þú mættir verða lukkumaður, en án trúarbragða gétur einginn orðið lukkulegur; hvørsu ríkur, og í hvað hárri stétt sem hann væri, gjæti hann þó samt ekki verið allskostar rólegur, og enn síður hughraustur í dauðaunum, ef hann hefði eingin trúarbrøgð.

Barnið: hvað eru trúarbrøgð? Faðirinn: það eru køllud trúarbrøgð (eins og stendur í

Lærdómsbókinni þinni) ad þekkja Gud og hans vilja, og med hværju móti vér eigum ad heidra hann og hlýda honum. Þú veitst ad Gud er til? B. Já, þad hefur mér opt verid sagt, en hvar er þessi Gud, sem vér eigum ad heidra og hlýda? F. Ad sönnu géturdu enn þá ekki lært og skilid allt, sem oss mönnunum ríður á ad vita um hann, en þó svo mikid, ad þú gétur ordid gudhræddur og dygdugur madur; hvad heldur þú um hús þetta, hefur þad ordid til af sjálfu sér? B. Nei, einhvör hefur ordid ad búa þad til; F. Hvadan koma trén, ávextirnir, grasid og kornid? B. Af jördunni. F. Er þá jördin sjálf lifandi? B. Ekki held eg þad; F. Rétt er þad barnid mitt, hún er ekki lifandi, og ekki veit hún, né verdur vör vid neitt, sem á henni vidber, þess vegna hlýtur hún ad vera gjörd af einhvörjum; B. Þad held eg víst. F. Þú hefur rétt fyrir þér, barnid mitt, því hvörnin gétur sá hlutur, sem ekkért líf hefur, gjört eda skapad sig sjálfur? en þann sem hefur gjört eda skapad jördina, og allt sem þú sjerd á himninum, köllum vér Gud vorn elskuríka Skapara og forsorgara. Hefir þú ekki þegar notid margs góds á jördunni? B. Jú vissulega, bædi í mat og drykk. F. Af hvörjum hefir þú þegid þetta? B. Af Gudi sem skapad hefur jördina, med öllu íþví sem á henni er; F. Er þér ekki vel

vid foreldra þína, eda þá sem gjøra þér gott? B. Jú, mér er vel vid þá; F. Hvursu innilega ættir þú þá ekki ad elska Gud, sem hefur gjørt þér svo margt og mikid gott, géfid þér margann gladann dag, og á hvørjum degi mat og drykk; komdu til mín, barnid mitt! vid skulum nú þakka Gudi fyrir þettad: gódi Gud eg þakka þér, ad þú svo ørlátlega hefur veitt mér mat og drykk, og géfid mér margan gledidag, gjarnan vil eg gjøra þad sem þér þóknast, gjørdu mig sjálfur gudhræddann, og hæfilegann til ad þakka þér, eins og vera ber.

Post. g. b. 14, 17. Gud hefur ekki látid sjálfann sig vera án vitnisburdar, þar hann veitti oss mikid gott, og gaf oss døgg af himni og frjóssamar árstídir, og mettadi oss og gladdi med fædu og føgnudi.

## 2.

F. Hefur þú nokkurntíma, gád ad sólunni, túnglinu og stjørnunum? B. Já, en hvad er þad? F. Allt þad sem vér sjáum á himninum, eru næstum því eins stórir hnettir, eins og vor jørd, og hafa ekki líf heldur enn hún; þessa hnetti hefur Gud líka skapad, eins og hann hefir skapad jørdina; B. Hvørnig hefur hann þá farid ad skapa þá? F. Hann vildi ad þeir yrdu til, og þá urdu þeir til; B. Var þá

ekkért til ádur enn himin og jørd? F. Ekkért nema Gud; B. Mig lángar til ad vita, hvørnin himin og jørd hafa ordid til. F. Sjerdu ekki smáa duptid á jørdunni? veitstu hvad er lopt, vatn og eldur? B. Ojá; F. Þegar Gud vildi skapa alla veröldina, lét hann fyrst verda til mikinn fjølda af þessum hlútum, jørdu, lopti, vatni, og eldi, sem ad eru frumefnin, og þessir hlutir voru allir blandadir saman hvør vid annan, þá baud hann á þeim 1ta degi, ad eldurinn og ljósid skyldi adgreinast, frá þessu samblandi allra hluta, svo ad bjart yrdi.

Á 2rum deginum adgreindi hann þau vøtn sem eru hid efra í skýunum, frá því vatni, sem umkríngdi jørdina, þá vard til loptid sem vér lifum í, og himininn hid efra; en jørdin var enn þá øll vatni hulin, til ad minda, eins og þad hvíta í egginu liggur utanum þad rauda; þess vegna lét Gud á þeim 3ja degi, vatnid á jørdunni, koma saman í stór og djúp vatnsstædi, sem kallast høf, stødurvøtn og ár, og á þurrlendinu lét hann vaxa grasid og trén. Á 4da deginum, lét hann hátt upp í loptinu verda til stóra fagurt skínandi hnetti, nefnilega: Sólina, Túnglid og óteljandi fjølda af stjørnum. Á 5ta degi urdu til fiskarnir í vøtnunum og fuglarnir í loptinu, af því Gud vildi svo vera láta. Á 6ta degi lét Gud hin dýrin koma fram af jørdunni, og seinast skóp

hann Adam hinn fyrsta mann af jørdu, og konu hans Evu, af mannsins sídu. Þannin var heimurinn skapadur á 6 døgum. B. Hvør hefir nú hjálpad Gudi til ad gjøra allt þetta? F. Einginn, hann einn hefir þad alltsaman skapad. B. Mikid hafa verkfærin verid stór, sem hann hefir brúkad! F. Lángt frá, barnid mitt! Gud þarf aungra verkfæra vid, þegar hann vill gjøra eitthvad; B. Hvørnin fer hann þá ad því? F. Hann vill og bidur ad hlutirnir skuli verda og þá verda þeir til; ef Gud vildi enn þá, ad af jørdu skyldi madur verda til, yrdi þad ad ské; ad hans vilja einúngis eru allir hlutir tilordnir. B. Þetta er þó næsta undarlegt. F. Rétt segir þú, barnid mitt, vid skulum því opt og sameginlega tilbidja hann! Mikil og uddáanleg eru þín verk, Almáttugi Skapari! ad þínu bodi er himin og jørd ordin til, — allt skédur, Gud! sem einn þú vilt, allt verdur þér ad hlýda — æ hvørnin get eg vegsamad þig, þú mikli Gud! og lofad þig í mínu hjarta, eins og vera ber; géf mér skilníng til ad læra rétt ad þekkja þig, og þann vísdóm ad géta vegsamad þig eins og verdugt er.

Sálm. 19, 2—3. Himnarnir seigja frá Guds dýrd og festíngin kunngjørir verkin hans handa, hvør dagurinn seigir þad ødrum, og hvør nóttin annari.

Sálm. 102, 26. Jördina festir þú fordum, og himnarnir eru þín handaverk.
Ebr. 11, 3. Fyrir trúna fullvissumst vér um, að heimurinn sé skapaður fyrir Guðs orð, á þann hátt, að það sýnilega sé til orðið af því ósýnilega.

3.

F. Ef einhvør gjæti einsamall byggt á nokkrum døgum stórt hús, hlyti hann þá ekki að vera mikið sterkur og máttugur? B. Víst yrði hann að vera mikið sterkur. F. Hvað heldur þú þá, um Guðs mátt, sem á fáum døgum hefir skapað himin og jørð, með øllu því, sem í þeim er? B. Víst hlýtur hans máttur að vera mikill. F. Ætli nokkur gjæti lypt upp eins stóru húsi og kirkjunni, eða einhvørju háu fjalli, hátt upp í lopt, og haldið í hendi sér? væri það ekki undra afl? B. Það getur víst enginn maður; F. Taktu nú eptir, barnið gott! jørðin er mørgum þúsundsinnum stærri enn það stærsta fjall, já, mørgum þúsundsinnum stærri enn allt landið, sem þú sjerð með augunum, og Guð viðheldur henni með sínum mikla krapti, að hún ekki dettur; sólin sem þér sýnist svo lítil, er jafnvel milliónsinnum (1,000,000) stærri enn øll jørðin, og stjørnurnar eru næstum því allar eins stórar og jørðin, og sumar jafnvel stærri, og allar hefir Guð gjørt þær, og sett upp í það auða lopt, og viðheldur

þeim með sínum krapti, svo þær hvorki farast né falla; hvílíkann undra mátt þarf ekki hér til? skyldi ekki svo máttugur Guð géta gjört allt sem hann vill? B. Það gétur hann víst; F. Gjætum við þá ekki óhullt reidt oss uppá hjálp og verndan þess almáttuga Guðs, ef við vissum honum líkaði við okkur?. B. Jú. F. Skyldum við þá ekki vera hrædd við það, að styggja svo voldugann Guð? skyldi hann ekki géta beitt þessum sínum mikla mætti á móti oss? B. Jú! eg vil taka mér vara fyrir að styggja Guð, en gjöra það sem honum þóknast. F. Þartil gefi Guð almáttugur þér sína náð, en geymdu þá þessi hans orð í þínu hjarta: **Eg er Drottinn sá almáttugi Guð, gakk fyrir mér og vertu algjör.** Gen. 17, 1.

Sálm, 33, 8—9. *Öll veröldin óttist Guð og allir jarðarinnar innbyggendur, því hann talaði, svo skéði það, hann bauð svo stéð það þar.*

Sálm. 90, 1—2. *Drottinn Guð! þú varst vort athvarf frá kyni til kyns, áðurenn fjöllin voru til og þú tilbjóst jörðina, ert þú Guð, og það frá eilífð til eilífðar.*

Lúk. 1, 37. *Fyrir Guði er ekkért ómögulegt.*

Sálm. 115, 3. *Vor Guð er í himninum, hann gjörir allt hvað honum gott þykir.*

4.

Guð Drottinn myndaði manninn af jarðarleiri og blés

lifandi anda í hans nasir, og madurinn vard svo að lifandi sálu. Gen, 2, 7,

F. Hvadan er þá líkami hins fyrsta manns kominn? B. Af jørdunni; en hvørnin vard hann til af jørdunni? F. Eins og hvad annad, ad Guds bodi og fyrir hans mátt; Gud vildi ad af jørdu skyldi verda líkami mannsins, og þad skédi; en þekkir þú þá vel líkama þinn? góda barn! — heldurdu ekki ad þeir menn séu illa farnir sem ekki géta sjed med augunum? B. Jú! þad eru vesælíngar; F. Og ef þad bættist ofaná sjónleisid, ad madurinn gjæti ei heldur heyrt? B. Þad væri eymda ástand, og hriggilegt til ad vita; F. Hvad hefir Gud þá veitt þér gott med líkama þínum? B. Ad eg gét bædi heyrt og sjed; F. Smakkast þér ekki vel gódur matur? B. Jú! F. Er ekki af blómstrunum gódur ylmur? B. Ojú! F. Er þad ekki mikill velgjørníngur Guds ad þú gétur fundid smekkinn af matnum og lyktina af blómstrunum? B. Víst er þad líka mikill velgjørníngur míns góda Guds; F. Þú gétur þá séd, heyrt, ylmad og smakkad; en ef ad þú hefdir aungar hendur, gjætir þú þá unnid nokkud, matad þig, eda ad ødru leiti komid nokkru gódu í verk? B. Nei! þá gjæti eg ekki mikid gjørt; F. Eru þá ekki hendurnar, med hvørjum þú finnur til hlutanna og þreifar á þeim, einn af Guds mikilvægustu vel-

gjørníngum? sjádu til ad þú brúkir þær til þess sem gott er og nytsamlegt, en sá kraptur ad finna til, sem kallast Tilfinníng, nær um allann líkamann, þú gétur ekki med ødru sjed enn augunum, ekki heyrt med ødru enn eyrunum, en med høfdinu, fótunum og øllum líkamanum gétur þú fundid til. Hvad' heldurdu nú, barnid witt! um þad hvørt eitthvad hljóti ekki ad vera til í þér sem sér, heyrir, ylmar, smakkar og finnur' til? B. Þad held eg víst meigi vera; F. Og tekur þú ekki eptir því, ad sá sami hlutur í þér, sem sjer mig, er líka sá sem heyrir mig tala, og sá sami sem hjálpar þér ad læra, skilja og huxa eptir. B. Ojú! F. Þad heitir nú Sál, hún er þad sem sér í gegnum augun, heyrir í gégnum eyrun, lærir og tekur eptir. Skilurdu mig þegar eg er ad tala? B. Ojú! F. Þú hefir þá Skilníng. Þegar þér er lofad einhvørju gódu, viltu þá ekki ad þér sé géfid þad? B. Þad vil eg; F. Taktu nú eptir! þessi kraptur ad girnast eda vilja þad sem gott er, ad útvelja eitthvad og hafa laungun eptir því, heitir nú Vilji; þú gétur líka munad þad sem þú hefir lært eda heyrt og þad heitir minni; hvørja krapta hefir nú sálin þín til ad bera? B. Skilníng, Vilja og Minni; F. Þegar vid foreldrar þínir géfum þér falleg føt, eda eitthvad annad gott, finnur þú þá ekki til gledi yfir því? B.

Hjú! F. Og þykir þér ekki vænt um, þegar við foreldrar þínir elskum þig og þú elskar okkur aptur? B. Jú, mér þykir mikið vænt um það; F. Svo géta þá verið í sálu þinni allsháttar inndælar og þægilegar tilfinníngar eins og þú sagðir, bæði fögnuður, elska og þvíumlíkt; athugaðu því opt hvörsu Guð hefur géfið þér marga nytsama krapta til lífs og sálar; þú sjerð með augunum þau margföldu gjæði, sem Guð daglega tilreiðir þér og öðrum mönnum á jörðunni; þú heyrir með eyrunum mál manna og viðrædur, hvaraf þú gétur fræðst og orðið að gagnsmanni; þú hefir ilman og smekk, svo að matur og drykkur og margt annað verði þér til ánægju; með höndunum gétur þú unnið fyrir lífi þínu, klædt og matað þig, starfað eitthvað og varast það sem meiðir þig eða skaðar; og ennfremur, barnið mitt! Guð hefir géfið þér málfærið svo þú gétur talað, beðið um að borða og drekka, skrafað við aðra menn og af málinu haft óseigjanleg not og yndi. Æ, hvörsu marga velgjörnínga hefir þú þá ekki þeigið af Guði hvað líkamann snertir, og hve óseigjanlega dýrmæt er sálin! virðtu bara fyrir þér sképnurnar, þar sem þær annaðhvört standa við jötuna, eða útí haganum, þær hafa aungva skynsemi og ráfa því um kríng í ráðleysu og athugalaust, og meiga þjóna og þrælka undir menninа; þér hefir Guð þarámóti géfið skynsemi, svo þú gétur sjeð fyrir

ráði þínu, brúkað þá skøpuðu hluti eptir þinni hugarlund, og eins og þér sýnist best tilfallið, þekkt Guð, elskað og þjónað honum. Ó, góði Guð! eg þakka þér, að þú svo dásamlega hefir skapað mig, gèfið mér augu, eyru, þarmeð skyn og skilníngarvit, og að þú øllu þessu enn nú við makt heldur, eg vil þjóna þér með mínum líkama og með minni sál, gleðjast af þínum velgjørníngum, sem þú lætur mér daglega í té, og elska þig af øllu mínu hjarta.

Job. 10, 8—11. *Þínar hendur hafa myndað mig, og búið mig allann til á alla vegu, þú klæddir mig með holdi og hørundi, og samfestir mig með beinum og sinum.*

Sálm. 139, 14. *Eg prísa þig fyrir það, að eg er gjørður svo dásamlega, undrunarverð eru þín verk, mín sál viðurkénnir það fullkomlega.*

3.

F. Þú hefir enn ekki lifað mørg ár í heiminum, barnið mitt! hvørsvegna varstú ekki fyrr til? B. Það veit eg ekki; F. Var það þá komið undir sjálfum þér, hvønær og hvar þú skyldir fæðast? B. Nei; F. En hvað leingi átt þú að lifa? B. Það veit eg ekki heldur; F. Þú hefur rétt fyrir þér, barnið mitt! því margir deya strax á únga aldri, og margir fullorðnir vilja opt fegnir fá að lifa leingur, en hljóta þó að deya. Fyrst nú þessu er

þannig varið, þá munu mennirnir ekki géta viðhaldið sér sjálfir? B. Nei, því þá gjætu þeir lifað svo leingi sem þeir vildu; F. Viðhalda þá sképnurnar sér sjálfar af egin ramleik og fyrirhyggju? B. Því gét eg varla trúað; F. Rétt seigir þú, því sképnurnar hafa aunga skinsemi, og þær hljóta að deya, þó þær vilji það ekki; F. Hefir þá jørðin skinsemi? B. Nei; F. Jørðin gétur þá heldur ekki viðhaldið sér sjálf? B. Nei, hún hefir ekki heldur skapað sig sjálf; F. Svo er því varið með alla menn, og alla skapaða hluti, þeir viðhalda sér ei sjálfir, eins og þeir ekki heldur sjálfir hafa gjørt sig; það er undir Guði komið, hvønær þeir verða til, hvað leingi þeir eru við lýði, og hvørnin þeim skuli vera varið. Ef ekki rigndi á jørðina nokkur ár, mundi þá spretta grasið á henni eða ávextirnir, eða nokkur verða gróðin? B. Nei; F. Ef sólin gjæfi ekki jørðunni hlýindi og hita, mundi þá ekki allt frjósa og stirðna af kulda? B. Það held eg víst; F. Jørðin gjæti þá ekki heldur, barnið mitt! géfið neinn gróða eða ávexti, því sólin ávinnur það með sínum varma, að sæðið frjófgast í jørðunni og sprettur upp; að á trjánum vaxa blød og blómstur; að kornið, grasið, og ønnur jarðar aldini þroskast; en stendur það í nokkurs manns valdi, að láta sólina renna upp, koma regn, eða láta

verda vor og sumar? B. Það gétur eingin madur. F. Svo er varid flestum hlutum í heiminum, þeir eru til, og ské, án þess nokkur madur géti komid því til leidar eda tálmad; Guð er það sem nidurskipar øllu, eins og það er, og skédur; hann afmælir stjørnunum sinn gáng, og géfur jørdunni skin og skúr; hann lætur suma menn deya, og adra fædast, og líka þér, barnid mitt! hefir Guð géfid líf, af okkur foreldrum þínum, hann er sá sem vidheldur lífi þínu og géfur þér mat og drykk, hann vardveitir þig fyrir sóttum og sjúkdómum, og hann hefur rádid því ad þú hefir ekki dáid eins fljótt og mørg ønnur børn; berdú þig því med hlýdni og ástundun ad þókknast þínum góda Gudi; hugleiddu ad allt það góda sem þú nýtur, er gjøf frá hans mildu hendi; þakka þú honum med glødu gédi, elskadu hann, og fordastu það sem illt er, þá mun hann leingi vidhalda þér á jørdunni, og þó eg deyi, vera þinn fadir.

Post. g. b. 17, 25—28. Guð er sá sem géfur øllu líf og anda, og sérhvad annad, og hann hefir gjørt, ad allar mannanna kynkvíslir, búa á øllum jardarhnettinum af einum ættstofni, og hann hefir fastsett ákvørdud timabil, og takmørk fyrir þjódanna bústadi, svo þær skyldu leita Guds, ef ské mætti þær þreifudu á honum og finndu hann, jafnvel þó hann sé ná-

lægur hvørjum af ofs, því í honum lifum, hrærumst og erum vér.

Matth. 6, 26—30. Jesús sagdi: lítid á himinsins fugla, þeir sá hvørki né uppskéra, og ekki safna þeir í kornhlødur, samt fædir ydar himneskur fadir þá, erud þér ekki miklu ypparlegri enn þeir? — og þared Gud skrýdir nú grasid á jørdunni, sem stendur í dag, en á morgun verdur kastad í ofn, mundi hann ekki miklu fremur klæda ydur? ó þér lítiltrúadir!

## 6.

F. Hvør vidheldur þér þá? barnid mitt! B. Gud minn gódur; F. Gud hlýtur þá ad vera hjá þér? B. Pad veit eg ekki; F. Géturdu gjørt eda framkvæmt nokkud heima, þegar þú ert ekki heima? B. Nei; F. Gétur þú verid á gángi útá hladinu, þegar þú ert inní bæ? B. Pad gét eg ómøgulega; F. Madur gétur þá víst ekki sjálfur gjørt neitt, þar sem hann er ekki til stadar? B. Pad skil eg, ad þar sem madur ekki er, þar gétur hann ekki gjørt neitt; F. Madur er þá nálægur, þar sem hann adhefst eitthvad? B. Pad er víst; F. Hér af flýtur, ad þar sem Gud framkvæmir eitthvad, er hann nálægur; nú vidheldur hann, einsog þú veitst, Sólunni, Túnglinu, Stjørnunum, Jørdunni, Mønnunum, Fénadinum, og øllum hlut-

um, allstadar, hvar er þá Gud? B. Þad gétur þá ekki annad verid enn ad Gud sé allstadar. F. Þad er rétt og satt, barnid mitt! Gud er allstadar nálægur, því hann verkar med sínum krapti allstadar í øllum hlutum. B. Er Gud þá svo stór? hvørnin gétur hann bædi verid upp í sólunni, og líka hér á jørdunni hjá oss mønnunum? F. Gud tekur ekki upp neitt rúm, eins og þú kannské ímyndar þér, og ekki máttu hura þér hann eins og stóran mann sem nædi frá jørdu upp til himins, hann er andi eins og sálin í þér. B. Eins og sálin í mér? sálin mín er þá líka allstadar? F. Nei, þarí er sálin þín ólík Gudi, ad hún er ekki allstadar; — hreisist ekki høndin þín þegar sálin vill. B. Jú; F. Og fæturnir líka? B. Ojú. F. Skilurdu þá ekki af þessu, ad sálin meigi vera í nánd vid líkamann? B. Ojú, þad skil eg. F. Med líkum hætti, eins og sálin er verkandi í líkama þínum, er Gud verkandi allstadar og í øllum hlutum, og vidheldur þeim med sínu almætti, en hvørnin því er varid, gétum vér ekki skilid til fulls; B. Hvørsvegna gétum vér ekki skilid þad? F. Af því vér erum ekki allstadar, og skilníngur vor getur ekki gripid allt, en þetta er þó víst og heiløg ritníng stadfestir þad. Jer. 23, 23—24. Er eg ekki sá Gud sem nálægur er, segir Drottinn, og líka sá, sem fjar-

lægur er? mun nokkur géta svo falið sig, að eg ekki sjái hann? Er eg ekki sá sem uppfylli himin og jørð, segir Drottinn;

Sálm. 139, 7—10. Hvørt skal eg fara frá þínum anda, Drottinn! hvørt gét eg flúið, svo þú sjáir mig ekki? Þó eg færi upp í himininn, þá ertú þar, og þó eg byggi mér legurúm í undirdjúpinu, þá ertú einnin þar. Þó eg tæki á míg vængi morgunroðans, og þó eg gjørði mér búſtað yſt við heimsſkautið, mundi þar einnig hønd þín leiða míg og hægri hønd þín halda mér við.

## 7.

F. Hvør hefir géfið þér sjónina? B. Góður Guð, F. Hlýtur Guð þá ekki sjálfur að sjá? B. Jú, vissulega! hvørnin hefði hann annars gétað skapað mig og géfið mér augu til að sjá með? F. En hefur Guð þá ekki skapað annað enn þig? B. Jú, hann hefir skapað alla hluti; F. Hann hlýtur þá að þekkja alla hluti? B. Það gétur ekki hjá því farið, því hvørnin hefði hann annars gétað gjørt allt. F. Og hvør viðheldur øllum hlutum? B. Guð, sem géfur hvørjum manni líf og andardrátt, og alla hluti; F. Þá hlýtur Guð að þekkja alla hluti? B. Já, fyrst hann hefur skapað alla hluti og viðheldur þeim øllum. F.

En þegar þú ert einnsaman, og í dimmunni sjer Gud þig líka þá? B. Ekki veit eg það, hvørt hann getur sjed mig í myrkrinu. F. Vidheldur þá ekki Gud þér í mirkrinu? B. Jú. F. Hann er þar þá hjá þér? B. Jú, Gud er alltaf hjá mér. F. Svo verdur hann líka ad sjá þig þar, og vita hvad þú gjørir; B. Nú skil eg, fadir minn! Gud vidheldur mér líka á nóttunni, og veit af mér, hvar sem eg er; F. En skyldi Gud vidhalda sálu þinni, og vita ekki hvørt hún er góð eda vond, eda hvørt hún huxar gott eda illt? B. Nei, það verdur ad vera, ad Gud þekki það, fyrst hann vidheldur mér. F. Rétt er það, Gud er allstadar nálægur þér, og sér og þekkir þínar huxanir og tilhnegingar, og eins sjer hann hvad þú adhefst í mirkrinu. Huxadu umfram allt eptir þessu, láttu ekkért illt koma þér í hug, sýndu þig aldrei ødruvísi enn þú ert, hvad hjálpadi þér það, þó þú gætir villt svo sjónir allra manna, ad þeir héldu þig hafa gódann mann ad geyma, en þú værir þó vondur madur; Gud þekkir þig samt, allt ad einu værir þú ekki honum þóknanlegur, og ekki gæti hann elskad þig sem fadir; þegar þú þessvegna ert í einrúmi, og einginn madur sjer þig, og þegar dymt er í kríngum þig, huxadu þá jafnan svo med sjálfum þer: Gud minn er hjá mér, hann sjer allt hvad eg tek mér fyrir hendur ad gjøra, eg vil ekki adhafast

neitt íllt, því hann sjer það, eins og hann veit allt hvað eg hugsa, tala og gjøri.

Sálm. 94, 9. Mun sá sem eyrað hefir plantað, ekki heyra, eða sá ekki sjá, sem augað hefir tilbúið?

Sálm. 139, 1—4. Drottinn! þú ransakar og þekkir mig, þú skynjar mínar hugrenníngar álengdar, þú veitst gjørla allar mínar athafnir; það er ekkért orð á minni túngu, að þú, Drotinn! ei vitir það alltsaman.

## 8.

B. Gét eg ekki feingið að sjá Guð? F. Nei! barnið gott! einginn fær Guð sjeð, því hann er ósýnilegur; B. Hvørnig lítur Guð út? F. Hann hefir øldúngis ekkért útlit; B. Hefir Guð þá ekki høfuð, hendur eða fætur? F. Hann hefir alls aungvan líkama eða limu; B. Hvørnig gétur þá Guð sjeð mig, ef hann hefir eingin augu? F. Hann sjer þig eptir sínu eðli, betur enn þú færð þig sjálfur sjeð, hann þekkir þig innvortis og útvortis og gjørsamlega, því þú veitst að Guð viðheldur øllu í þér og á þér, og þessvegna hlýtur hann að þekkja allt sem er í þér og á. B. Eg veit það, en hvørnig gétur Guð þekkt þetta alltsaman? F. Með alvitsku sinni þekkir hann alla hluti. B. En — fyrst Guð hefir aungvar hendur, hvørnig gétur hann þá nokkuð gjørt eða framkvæmt? F. Manstu ekki,

barnid mitt! hvørnig eg sagdi þér, ad Gud hefdi í upphafi skapad alla hluti? hann vildi ad jørdin skyldi verda til, og jafnskjótt vard hún til; hann vildi ad dýr, fiskar og fuglar kjæmu í ljós, og jafnskjótt komu þeir í ljós; Gud þarf ekki hendur til ad gjøra hvad hann vill, hann vill einúngis, og þá verdur allt hvad hann vill. B. Þad er undarlegt! F. Já, ad vísu er svo, en þó gétur þú látid þér þad nokkurnveiginn skiljast; hreifist ekki auga þitt, munnur eda túnga, þegar þú ad eins vilt? þarf sála þín nokkud fyrir því ad hafa, ad þessir limir hræríst eptir hennar vild? B. Nei, eg þarf ekkért fyrir því ad hafa; F. Eins er því varid hjá Gudi, þeim Almáttuga Anda; eptir hans einberri bendíng og vilja hræríst Sól, Túngl og stjørnurnar og jørdin, med øllu því sem á henni er, og, ef hann vildi, lidi undir lok; svo alvoldugur andi er Gud! skyldum vid ekki óttast hann, og gjarna gjøra hans vilja? Seigdu þá opt í þínu hjarta: ósýnilegi Gud, sem nú og jafnan ert nærri mér og hjá mér, þó eg sjái þig ei med mínum augum, láttu mig aldrei gleima því, ad þú ert í og hjá mér, kénn mér ætíd ad gjøra þad sem þér velþóknast, svo ad eg þurfi ekki ad hrædast þitt ósýnilega almætti, en géti gladt mig vid þá huxun, ad þú sért allstadar med mér, og í kríngum mig, og verndir mig eins og gódur fadir.

Jób. 4, 24. Guð er andi, því eiga þeir sem tilbiðja hann, að gjöra það með réttum anda.
1 Tím. 6, 16. Guð býr í því ljósi, er einginn fær tilkomist, hann hefir einginn maður sjeð.
Sálm. 33, 8—9. (Sjá 3. Samtal, bls. 7.)

## 9.

F. Ef einhvörr slæi þig að orsakalausu, rifi af þér fötin, og gjörði þér allt íllt, ætli þér mundi falla það vel í géð? B. Nei, það félli mér víst ílla. F. Mundi þá góðum Guði géta þóknast þvílíkt athæfi? mundi það líka honum vel, að sképnum hans væri misþyrmt og ángur sýnt? B. Lángt er frá að honum géti líkað það. F. Guð hatar þá það sem íllt er? B. Án efa hatar hann það; F. Hvörsvegna heldurðu? B. Af því sképnum hans er gjört íllt þarmeð og órétt; F. Máttu þá gjöra íllt? B. Nei; F. Er það ekki líka mjög óscemilegt, að fremja þá hluti sem Guði eru á móti, og sem þessvegna eru bæði vondir og skaðlegir? B. Að fremja slíka hluti er mjög óscemilegt og andstyggilegt. F. Er þá það, sem íllt er, í sjálfu sér hatursverdt? B. Öldúngis víst. F. Þegar eitt barn er þrjótskufullt og fer með lýgi; þegar það ber og ertir upp önnur börn, er þá ekki rétt að foreldrar eða húsbændur þess straffi það? B. Víst er það rétt að svo vondt barn verði straffað? F. Skyldi Guð þá

ekki vera svo réttvís og sannsýnn, eins og þeir menn sem góðir eru? skyldi hann ekki líka straffa hið illa? B. Víst mun hann straffa það sem íllt er, því hann hatar það, og það er skadlegt fyrir sképnur hans. F. Mundu nú það, barnið mitt! sem þú hefir sagt: Guð hatar allt það sem íllt er, það er líka í raun og réttri veru hatursverdt, það er ósæmilegt og skadlegt, það verður straffað af þeim réttláta Guði, — ættir þú þá nokkurntíma með ásetníngi að fremja það sem ekki er leifilegt? skyldir þú þá gjøra þig óverdugann Guðs elsku og fyrirlitlegann í allra góðra manna augum! Guð virðist að var-veita þig þar frá! B. Já — minn góði Guð! varðveittú mig frá øllu því sem íllt er og þínum børnum ósæmandi, frá óhlýðni, lýgi og leti og frá øfund og vondsku við ønnur børn, svo eg aldrei misþóknist þér og verði af þér straffaður.

Sálm. 5, 5—6. Þú ert ekki sá Guð, hvørjum ó-guðlegt athæfi líkar, hvørr sem er vondur, fær ekki að vera hjá Þér. Dramblátir standast ekki fyrir augsýn Þinni, og Þú hatar alla íll-gjørðamenn.

Sírak. 7, 1. Gjør ekki íllt; svo verður Þú ekki fyrir neinu íllu.

Rómv. 2, 6. Guð mun gjalda einum og sér-hvørjum eptir hans verkum.

## 10.

F. Hvørr hefir géfid þér líkama, sál og øll skilníngarvit? B. Gud. F. Ætli hann hafi géfid þér þetta, til þess ad gjøra med því allt íllt sem þú getur? B. Onei! Gud hatar þad sem íllt er; F. Þá til þess ad gjøra þad sem gott er? B. Já, til þess hefir Gud géfid mér þad. F. Þykir ekki foreldrum þínum vænt um þig, þegar þú ert gott barn og ástundunarsamt? B. Jú! F. Heldur þú þá ekki, ad sá gódi Gud, sem af elsku hefir skapad þig, muni líka elska þig, þegar þú ert audsveipur og idinn? B. Þad vil eg vona. F. Og óskar þú ekki, ad Gudi mætti líka vel vid þig og hann elskadi þig? B. Hví skyldi eg ekki vilja óska þess? F. Leggdu þá alla ástundun á, barnid mitt! ad gjøra þad sem gott er, en forðast og flýja þad sem íllt er og ósæmilegt, og hafa andstygd á því; vertu ætíd hlýdin og viljugur til ad gjøra þad sem þér er skipad, gódlyndur, hógvær og vingjarnlegur vid alla menn; því meira gott þú gjørir, því þekkari ertú Gudi, og því framar mun hann blessa þig og gledja aptur á móti. Tekur þú ekki eptir því, hvørnin vid foreldrar þínir ødruhvørju førum ad því, ad láta þig vita, ad vid elskum þig, umgaungumst vid þig þá ekki ástúdlega og géfum þér jafnvel allra handa góda og gyrnilega hluti? B. Jú! Þá sie eg ad ykkur líkar vid mig og þid hafid elsku á

mér. F. Svo gjørir líka Gud, barnid mitt! þá sem gjøra gott er hann vánur ad láta verda fyrir miklu gódu; hann sýnir þeim med þessum sínum gáfum, ad hann elskar þá. Ertú ekki med ánægdu og glødu gédi, þegar þú hefir verid ydin ad læra, eda annarsvegar gjørt eitthvad hrósverdt? B. Já, þá er eg rétt ánægdur; F. Sjádu nú! þessi ánægja í þínu hjarta kémur frá Gudi, sem launar þér fyrir ydni þína, og hefir skapad þessa ánægju í sálu þinni. Þannig er Gud vanur ad haga því í øllum hlutum; hvør sem etur og drekkur óhóflega, verdur opt veikur, en hvør þarámóti, sem etur og drekkur í hófi, gétur betur haldid heilsu sinni og heilbrygdi; — hvør sem gjørir þad góda, er fridsamur, vingjarnlegur, þolinmódur og allir unna honum hugástum; en þann, sem er óhlýdinn, vondur og þrætugjarn, hata allir; þanninn launar Gud ætíd þad góda, og enn meiri laun hefir hann ætlad gódum og gudhræddum mønnum, sem eg seinna skal fræda þig betur á; ættir þú þá ekki verda gladur af því, ad gjøra margt og mikid gott? B. Jú! F. Og ad þókknast svo gódum Gudi? B. Þess vil eg óska — ó gódi Gud! gjør mig hæfann til ad vinna margt og mikid gott, géf mér greind og skilníng til ad vita, hvad þér þókknast, géf mér þad hjarta, sem fúst og reidubúid sé til alls góds, ad eg brúki

vel tímann, og mætti svo vera og verda þitt elskulegt barn.

Sálm. 34, 10—15. Þeir sem óttast Drottinn, líða ekki skort, og þá sem hans leita, skal ei gott vanta — komid mín börn! heyrid mig! ótta Drottins vil eg kénna ydur: Hvör er sá madur sem lángar ad lífa? sem óskar sér margra daga til ad sjá hid góda? Geymdu túngu þína frá øllu því sem íllt er, og þínar varir, ad þær ekki tali flærd; — lát af illu og gjørdú gott, leitadu fridarins og eltu hann.

Sálm. 31, 20. Drottinn! hvörsu stór eru þau gjædi, sem þú geymir þeim er þig óttast, og veitir þeim sem treysta þér. Sálm. 145, 17—20.

## 11.

F. Hvörnig mundi fara, ef øll jørdin væri ekki nema tómar eydimerkur, og þad væri alltaf kaldur vetur og dimm nótt? ætli oss þækti þá lífid vera þægilegt hér á jørdunni? B. O! þá væri lífid dauft og leidinlegt. F. En ef alltaf væri eins heitt vedur úti einsog þegar heitast er á sumrin? B. Ekki mundi manni þykja þad betra. F. Sjerdu nú hvörsu mikill velgjørníngur Guds þad er, ad hann lætur sólina verma jørdina og upplýsa alla hluti, og vér gétum vid þetta ljós unnid vort verk? og hvörsu gott þad sé ad á eptir dag hvørn komi nótt, svo jørdin géti kólnad á sumrin og menn

meigi hvílast í nádum, til þess ad rísa upp á morgn- ana med nýum kroptum; hvílík eymd væri þad, ef madur ár eptir ár, feingi ei ad njóta þess sæta svefns? og hvørsu illa mundir þú eira vid þad, þó ekki ættir nema í nokkur ár ad búa vid sífeld- ann sumarhita, mundi þá ekki líka, ef svo væri, allt ad lokum brenna? - B. Þad held eg víst. F. En hvørsu yndislega skiptast nú ekki árstímarnir: á Vorin verdur sú ádur hardfrosna jørd aptur þýd, svo menn géta farid ad sá og planta, þá spretta upp grøs og blómstur; skógarnir og trén eru þá þakin grænum laufum og litføgrustu blómstrum, fuglarnir kátir eru ad sýngja, saudahjardirnar eru á beit í grænkudum høgunum, og litlu lømbin eru þar ad leika sér; vinnufólkid er ad vorvrkja og er gladt vid vinnu sína; allt sýnist eins og nýlega hafa lifnad vid; þá kémur Sumarid á eptir, sem med sínum hita gjørir ávextina fullþroska, þá fara menn ad slá grasid, og abla fódurs fyrir sképnur sínar. Undir Haustid er jørdin rík af Guds blessun, og þá búast menn um og safna ad sér matvælum og forda fyrir veturinn. En af því jørdin gétur ekki alltaf framleidt, eda af sér géfid grøs og ávexti, hefir Gud tilsett Veturinn, á hvørjum jørdin skuli hvílast af erfidi sínu, og má hann med réttu heita hvíldartími náttúrunnar; kuldinn er þaradauki mjøg nytsamlegur til ad hreinsa loptid, og varna mørgum sjúkdómum; svo hefir Gud

øllu vísdómslega niðurskipað, mønnum til þarfa; sérhvørr mánuður, allt frá vorsins byrjun, til vetrarkomu, hefir sína ávexti og gróða fram að færa, til lífs næríngar vorrar og ánægju, og það er ekki hið minnsta á jørðunni til, né heldur í vøtnunum, eða í loptinu, sem ei sé skapað oss til hagsmuna og þarfa. B. En þegar skruggurnar gánga og eldíngarnar, sem gjøra menn svo hrædda? F. Líka er skrugguveðrið nauðsynlegt, barnið mitt! því skruggann skékur jørðina og gjørir hana ávaxtarsamari og eldíngin brennir í burt þá skaðlegu og óheilnæmu dampa. Steypiregn og stormar hreinsa loptið, og hefir þú ekki tekið eptir, hvørsu allt er úti frískt og fjørugt eptir afstaðið stórviðri? líka það sem oss sýnist hræðilegt, hefir Guð skapað oss til nota, eins og allt annað, hvar sem það er; B. Er þá jørðin allstaðar eins? F. Kalla má, að allstaðar sé jørðin eins og hún er hjá okkur; en þó hefir góður Guð ýmislega skipt sínum gáfum, eins og hvørju landi er hagkvæmast. Í þeim heitari løndum, vaxa margir vøkvafullir og svalandi ávextir, sem flytjast þaðan til annara landa, hvar þeir ekki fást. Í køldu løndunum eru margir og stórir eldiviðar skógar, svo halda meigi heitum herbergjum og húsum, og á sumum støðum brúka menn reka þaungla, þáng og mó til eldneitis og ýitagjørðar, einninn eru þar mørg villidýr, hvørra skinn og feldir eru brúkaðir til skjóls

í kuldanum, og føtin þín veitstu hvørnig búin eru til, ad í þeim er ullin af kindunum. Í sumum løndum vex mikid korn sem keypt er og sókt á kaupskipunum þángad, hvar þad ekki vex, eins og adrar naudsynjar okkar, sem þú veitst ad til okkar eru fluttar frá útløndum. Sumstadar vaxa ýmislegar kryddjurtir, síkurtré og ønnur heilnæm og ylmandi tré, hvørra vidur og børkur eru til stórra gagnsmuna. Trén eru brúkud til húsabyggínga og allslags smída; berst mikid híngad af þeim í sjónum og rekur uppá fjørurnar, og líka flytja kaupskipin mikid af timbri til ad selja okkur. Graslendid veitstu ad peníngnum er ætlad ad gánga á, en hann gèfur oss aptur af sèr í føt og fædi; þad heita nú hagar, beitilønd og heidar; sum pláts, sem betur eru ræktud og varin, og géfa því af sèr meira gras, eru sleigin, fènadinum til fódurs á vetrin, og þad eru nú túnin og eingjarnar okkar; þeir sem búa vid stór vøtn og sjó, géta med hægu móti veidt mikla mergd af fiskum, róa menn útá sjóinn á bátum eda skipum og veida fiskinn á aungla eda í netum; en af fiskinum lifa menn og selja hann líka ødrum fyrir adrar naudsynjar; flest øll vøtn eru full af stærri og smærri fiskum; í ám og stødúvøtnum veidist silúngur og lax, en í sjónum allskyns fiskakyn, svosem þyrsklíngur, ísa, þorskur, skata, heilagfiski, hrognkélsi og margt fleira. Þannig hefir Gud sjed oss

mønnunum fyrir nægilegum vistum og forda, á hvørjum stad og í hvørju landi; allir hlutir eru oss ætladir af honum til gagns og nota; skýin vøkva jørdina, en sólin vermir hana, og gjørir ávaxtarsama; jørdin gefur aptur af sér ávextina, og menn og sképnur lifa af þessum ávøxtum, litlu dýrin eru þeim stærri sumum til fædu, en madurinn þarámóti hagnýtir sér þau øll, eins og ávextina og allann jardar gróda, og eingin er sá madur sem ekki fái sinn hlut af þessum Guds gáfum, hvørr fær svo mikid, ad hann getur verid lukkulegur, ef hann er rádvandur, og hefir ánægt hjarta; ó, hvørsu mikills góds hefir þú þegar notid, af velgjørdum vors góda Guds! daglega fedur Gud þig á fiski, korni, kjøti og feiti; þegar þú ert þyrstur, færdu ad drekka og svala þér, svefnin endurhressir þig og styrkir, þú ert gladur og kátur, og litur út fyrir ad verda stór og sterkur og efnilegur til vinnu, og þad sem mest er í varid, ef þú ert rádvandur, muntu verda lánsmadur. Hvørsu margt og mikid gott, hefur nú Gud veitt oss! skyldum vér ekki elska hann aptur á móti, skyldum vér ekki þakka honum af hjarta og med gledi gjøra vilja þess Guds, sem er svo gódur! já, þetta allt viljum vér gjøra, elskulegi himneski Fadir! Allt þad sem vér sjáum á jørdunni skal minna oss á þína gjædsku og upphvetja oss til stødugrar hlýdni.

## 12.

Einusinni um vorid, gódann vedurdag, snemma morguns, fór sá gudhræddi fadir med barni sínu útá bú, er hann átti skamt í burtu þadan, þad var í døgun, og sló skjærum morgunroda á loptid, tók þá barnid til orda og sagdi: en hvad himininn er fagur núna! Já, barn mitt! svaradi fadirinn, fagur er sá himin, sem blasir vid augum vorum, en hvad ætli þú segdir, ef þú feingir ad líta fegurd þess himins, hvar þeir gódu og gudhræddu menn gledja sig hjá Gudi um alla eilífd; þó hefir Gud einnig viljad gledja oss med himinsins ytri ásýnd, já, ekki einúngis gledja, heldur og gagna oss. Sólin er ekki enn komin upp, og þó er ratljóst. B. Ojá. F. Pad kémur til af því, ad sólargeislarnir lita svo fagurt og uppljóma skýin og dampana í loptinu, og þeir gjøra þennann ljómandi roda; og hvørsu víslega er þad ekki af Gudi gjørt, ad fyrst lýsir lítid af deigi, ádur enn sólin kémur upp, því ef sólin kjæmi strax upp, eptir náttmyrkrid, í sínum fulla ljóma, mundi þad blinda og skada augu vor; en sjádu nú, hvad sólin er leingi ad renna svo fagurt upp! hvørsu yndislegur er ekki hvørr blettur á jørdinni, hvar sem þér verdur litid í kríng; háu fjøllin, sem eru grasi- og vidi-vaxin, hlídarnar, túnid og eingjarnar, og allt sem gledur oss med sínu fagra útliti, þad er skapad af Gudi oss til gagns og nota; fiøllin

draga til sín dampana í loptinu, og þadan spretta upp vatnslindirnar og árnar, sem renna ofan í bygdina og falla seinast út í sjóinn. Undir fjøllunum er opt vedursælt, og forsæla í sólskini og sumar-hita. Inní fjøllunum eru hér og hvar klettabelti, hvadan vér tøkum grjótid og hellurnar, til ad byggja med húsin, og sumstadar finnst í þeim allskyns málmur s. s. járn, blý og silfur; en utan og ofan til, eru þau opt skógi-vaxin; og vídast hvar eru þessi fjøll og hædir þakin ótal møргum nærandi og hollum jurtum, og grasa-tegundum, í hvørjum mikil blessun er fólgin, því allt sem á þeim er, er til einhvørra nota; rætурnar á þeim, eru margar brúkadar til lækninga; blómstrin þykja augunum yndisleg, og fyrir vitunum eru þau ilmsæt; ángana og blødin bítur fénadurinn, og er honum þad hollasta fódur. Sád-akrarnir, sem í ødrum løndum eru ræktadir og yrktir, eru þaktir korni og byggi og allskyns ávøxtum; hvílíkur ríkdómur yfirgnæfanlegrar Guds gjædsku er ekki þetta! hvørsu margskonar nærandi mat og drykk, gétum vér ekki héraf tilbúid handa oss? hvørsu holl og styrkjandi fæda er ei braudid, sem bakad er úr korninu, og hve undarlegt er þad, ad oss skuli ei leidast ad eta þad daglega. Vídast hvar á jørdunni gétur þessi gódi ávøxtur þrifist og vaxid, fyrrmeir hafdi þad vaxid hjá okkur, hér og hvar á sínum stødum, en kunnáttu-

leiſi og vanrækt hefir ollad því, ad úr því hefir ekkért ordid; ávaxtarſemi landſins er líka hjá okk- ur lángtum minni, ófrjóſſamari jardvegur, og kald- ara loptslag, enn vídaſt annarſtadar. En hvørſu margar þúſundir manna, bædi hér og annarſtadar, lifa þó meſt megnis af korni, ſem ekki gjæti ſkéd, ef ávaxtarſemi þeſs væri ekki ſvo mikil! B. Hvørn- in fer ávaxtarſemi þeſs ad verda ſvo mikil? F. Bóndinn rótar um jørdinni med plógnum, en ann- ar geingur á eptir og kaſtar frænu í jørdina; en fræid blotnar í jørdunni, og fer ad bólgna, ſpríngur þá hýdid utanaf korninu, og ſmáar tæ- jur ſmjúga út í jørdina, og ſjúga til ſín þann góda vøkva; vøkvin kémur því aptur til leidar, ad upp af korninu, ſem nú er útbleytt, ſprettur dálít- id grasſtrá, ſem hækkar meir og meir, ſtyrkiſt og geymir í ſér eins og í hnífsſkeidum þann nýa á- vøxt, þángad til hann er ſvo ſterkur ordinn, ad hann gétur þolad loptid og ſólarbakſturinn; þá fer axid útúr hyſminu og er þá ordid fullþroſka og hæfilegt til matar fyrir oſs. En ſvo er ávaxtar- ſemin mikil, ad eitt frækorn geimir í ſér, eda rétt- ara ſagt, géfur af ſér ſtundum 30, 40 og jafnvel 60 ønnur. Hvørſu opt hefir nú þeſsi fæda ſadt og endurnært þig, ættir þú ekki fyrir hvørn bita brauds ad þakka Gudi hjartanlega, og midla fá- tækum nokkru af því, ſem gódur Gud hefir gnóg- lega géfid þér? Gud veitir oſs ſvo margt og

mikid gott, barnid mitt! vid skulum því vera góðgjarnir, einsog hann er góðgjarn.

⁂ ⁂ ⁂

Í þessu bili voru þeir komnir inní skóginn. Hvada dýr eru ad tarna, kalladi upp barnid, sem eru svo stór og hlaupa svo hardt inní vidarrunnann? F. Af þessum dýrum gétur þú líka lært ad þekkja speki og gjæsku Guds. Skóginn máttu álíta sem adseturstad villudýranna, þar lætur Gud þessi dýr fædast, vagsa upp og verda feit, svo ad menn þyrstu ekki annad ómak ad hafa fyrir þeim, enn ad veida þau og matreida handa sér; en af því mønnum af sumum dýrum er búin hætta, hefir Gud látid þau vera hrædd vid þá; svo ad þau flýa þegar þau sjá menn; hann hefir géfid þessum dýrum, þrek til ad afbera regn, storm og óvedur, og géfid þeim þykkva húd og lodfeldi, svo þau kali ekki í vetrar kuldanum, og útbúid þau med hvøssum tønnum og sum med hornum og sterkum klóm, svo þau géti varid sig; en allt þetta hefir sá vísdómsfulli skapari svo hagkvæmlega tilbúid, ad þad skyldi verda mønnum til nota. Kjøtid af þessum dýrum etum vér; úr skinnunum eru búin til føt og feldir, af hjartar hornunum og feitinni af sumum ødrum dýrum, læknisdómar. Hvad eitt af þeim er oss til einhvørrar nytsemdar; en svo ad vér kynnum ad nota þau til hjálpar og léttirs í voru erfidi, og mættum þar

fyrir lifa sjálfir í meiri nádum og makindum, þá hefir Gud géfid ødrum dýrum tamda náttúru, ad þau skyldu búa hjá manni og veita þjónustu sína; þanninn vakir hundurinn og gætir bæarins, rekur frá túni og eingjum, og hjálpar manni líka stundum til ad ná dýrum, hesturinn ber oss, og flytur klyfjar og áburd úr einum stad í annann, oss til mestu hægda. Nautin eru brúkud í útløndum til ad erja, þ. e. plægja akra, og er þeim þá beitt fyrir plóginn, og þau eru líka látin draga kornfaungin heim í hløduna, en hjá okkur eru þau alin til þess, ad slátra þeim á hentugum tíma, oss til fædis, þegar þau eru ordin stór og feit; kýrnar géfa af sér mjólk og smjør; féd, auk þessa, ullina, sem brúkud er til fata; hárid af øllum þessum og ødrum tømdum dýrum brúka sumir, í føt, ábreidur og til annara heimilis þarfa, og hvørsu ólíkur smekkur er ekki ad kjøti þessara dýra, svo ad vér skyldum ekki fá leida af ad borda af einuslags einúngis, og med hvad mørgu móti verdur maturinn af því búinn til? og hvad undarlegt er þad ekki, barnid mitt! ad eingin nytsamleg dýrategund, í svo mørg þúsund ár frá heimsins skøpun, skyldi vera úrdaud, jafnvel ad eingin verdi gjørsamlega upprætt, þó ad menn daglega leggi sér þau til fædu; hvílíkur vottur er þad ei Guds gjædsku, ad hann flestum af þessum dýrum hefir géfid svó fallegt skøpulag,

ad vér høfum mestu ánægju af því ad horfa á þau og skoda; þykir þér ekki fallegur hann Brúnn? en hvad litfagur hann er, svo þad stynir á hann, og ber høfudid hátt, og tekur fallega fram fæturnar! hvørsu dáfrídur er ekki hjørturinn med sínum margkvísludu hornum! og þá er margt hundakynid fallegt og limalipurt; en fuglanna fegurd ber þó lángt af allra annara dýra; skodadu dúfuna, hvad marglitir eru ekki vængirnir á henni, og þad gljáir á gyllta fídrid á hálsinum, þegar sólin skín á þad, og þú hefir sjed svo marga fleiri fallega fugla, sem þér hefir þókt svo mikid gaman af ad skoda, svosem: andirnar, ædarfuglinn, hænsnin og gjæsirnar, lóurnar, snjótitlíngana og selnínginn í fjørunni; allt þetta er dæilega fagurt og frídt, en ef þú feingir ad vita og skilja, hvørsu konstuglegt er skøpulag fuglanna innvortis, svo þeir géta hafid sig hátt á lopt og flogid, mundir þú enn fremur fá orsøk til ad dádst ad speki Guds. B. Seigid mér nokkud um þad, fadir minn gódur! F. Þad á eg ekki hægt med, barnid mitt! þú ættir þá ad hafa fyrir augunum krufinn fugl, og sundurlimadann med øllum sínum lidamótum, þá gédurdu betur skilid þad, sem eg nú med fáum ordum ætla ad seigja þér um þetta: brjóstid á fuglunum er, nefnil: byggt af léttum beinum og þunngjørdu brjóski sem sveigjast kann, svo ad fuglinn gétur sveimad í loptinu; hálsbeinin eru føst

og smá, og liggja hátt upp frá brjóstinu, vid þau er høfudid áfast med sínu fram-mjóa nefi, svo ad fuglinum veiti því hægra ad kljúfa loptid, og komast fljótt áfram, fæturnir eru litlir, svo ad ekki séu køgglarnir svo þúngir, ad þeir dragi fuglinn nidur í loptinu; vænginga gétur hann breidt út og dreigid saman og med stélinu snúid sér vid í loptinu híngad og þángad og hrært sig med þessu móti eptir þørfum. Fuglarnir sem lifad géta í og á vatni, svosem: Andir, Alptir, Ædarfugl og Gjæsir, hafa á fótunum breida húd, er kallast sit, sem þeir þenja út, og hjálpa sér med á sundi. Af þessum fuglum eru hérumbil 500 tegundir, en hvørein tegund hefir sitt edli, sína raust og sitt flug, og hvør vill ad mestu leiti hafa sína fædu. Kjøtid af þeim hefir einnin nokkud ólíkann smekk, og hefir Gud ekki einúngis skapad þá mønnum til fædu, heldur jafnvel líka marga af þeim, til ad skémta eyranu; hlustadu eptir, hvørsu yndislega ad Heilóan sýngur, og líttu á, hvurnin hún hefur sig hátt upp í loptid; — hún er, barnid mitt! ad prísa Skapara sinn, sem géfid hefir henni lífid, hún hvetur oss med sínum saung, til þess einnin ad lofa og prísa Gud, sem fyrir oss hefir líka skapad hana. Gódi Gud! med hvørsu margføldum velgjørníngum hefir þú ekki gjædt oss manneskjurnar, hvervetna á jørdunni, og hvørsu margann eptirminnilegann vott, þinnar elsku og

speki hefir þú ekki géfid oss! í þínum ótta viljum vér gladir njóta þessara gjæda, þakka þér á hvorjum degi, og þjóna þér med sonarlegri hlýdni.

* * *

B. Þér søgdud mér, fadir minn! ad Lóurnar prísudu Gud; eg hefi líka heyrt fólkid segja ad þær væru alltaf ad sýngja þetta „dýrdin, dýrdin" vita þær þá nokkud um Gud? F. Nei, barnid mitt! dýrin hafa aungva skynsemi eins og vér mennirnir, þeim er ekki unnt ad þekkja ósýnilega eda andlega hluti, þau vita ekkért um dygd, sál, trúarbrøgd eda Gud ad segja, því þau bera ekkért skynbragd á því. B. Hvørsvegna hefir Gud þá ekki géfid þeim skynsemi eins og oss? F. Áttu ekki dýrin ad vera til þess ad vér lifdum á þeim? B. Jú. F. Efad þau hefdu skynsemi, þyrdum vér ekki ad slátra þeim eda eta þau; ef ad Stigamadur kjæmi og stæli þér burt til þess ad slátra þér og eta svo á eptir, mundi þad vera rétt gjørt? B. Nei, mig hrillti vid þeim andstygdar manni sem ætladi ad gjøra þad; F. En ef ad einhvør tæki únglamb, eda adra sképnu til ad slátra og eta, væri þad eins andstyggilegt? B. Nei, því ad þad er dýr. F. Efad dýrin hefdu skynsemi, mættu þau þá ekki hyxa, ad þad væru andstigdar menn, sem alltaf væru ad slátra þeim til ad eta, mundu þau ekki seinast taka saman rád

sín, og flykkjast saman til ad myrda og eta oss upp aptur? B. Pad er þá gott ad dýrin hafa aungva skinsemi. F. Víst er þad gott, barnid mitt! Því annars gjætum vér ekki, eda mættum brúka þau eptir vild vorri til lífsíns vidurhalds og hægdar, en þad var þó í þeim tilgángi ad Gud skapadi dýrin, þess vegna sagdi hann til vorra fyrstu foreldra: „drottnid yfir fiskunum í sjónum, og fuglunum í loptinu, og yfir øllum ødrum dýrum sem hræraſt á jørdunni" med ødrum ordum: brúkid þau eptir ykkar egin vild, til næríngar og lífs uppheldis. B. En bágt eiga dýrin, fyrst Gud hefir ekki géfid þeim skynsemi? F. Pad er satt, ekki eru þau eins lukkuleg og vér, þau eru ekki skøpud til eilífs lífs; en Gud hefir veitt þeim annad í stadin fyrir skynsemina, svo ad þau géta líka notid margs góds, á medan þau lifa, øll hafa þau þá hæfilegleika til ad bera, sem þau þurfa á ad halda til lífsins vidurhalds. B. Hvørjir hæfilegleikar eru þad? F. Eg skal segja þér meira um þad seinna; B. Æ, eg vil þad heldur núna! F. Pú gétur ekki, eins og hefi sagt þér, skilid allt strax, en þó skaltu nú fá ad heyra nokkud um Guds dásemdir á dýrunum. Hvørsu mikid mega menn ekki hafa fyrir því, ad kénna børnunum ad gánga, en dýrin þarámóti, komast strax á fót þegar þau eru fædd, og géta farid ad hlaupa, þegar

fætur þeirra eru orðnir færir til að bera kroppinn. Æðarúngarnir þurfa ekki að læra að synda, því þeir kunna það strax, þegar mæðurnar eru búnar að útklekja þeim; Gaunguróśunni hefir aldrei verið sagt til með vef sinn, þó býr hún snildarlega til net, sem hún veiðir mýflugurnar í, og etur svo af þeim, þegar hún er svaung, en vefur utanum leifarnar, og geymir sér þær; Öll dýr vita af náttúrunni af þeim stað, hvar þau skuli leita fæðu sinnar, og þekkja líka aðferðina til að ná henni; án þess þeim sé sagt, vita þau hvað þeim er gott og ekki gott, hvað þeim er hollt og ekki hollt, þau búa sér til holur og hreiður á hentugum stöðum, þau vita að forðast óvini sína, og að brúka horn, klær og nef, sér til varnar, sem best þau géta; þau græða sig sjálf þegar þau fá sár, hreinsa af sér óhreinindin, og vilja ekki hafa þau hjá sér, sem dauð eru; Fiskarnir leggja hrognum eða gjóta, í þaranum og leirnum, þar sem þeir best géta klakið þeim út. Margir ormar og flugur leggja eggjum sínum í holur og mergsmugur, sem eru í trjánum, og líka í hárið á sumum dýrum, eða þá grafa þau niður í jörðina, og leggja þar hjá æti nokkurt, til þess að únginn hafi nokkuð til viðurlífis, jafnskjótt og hann er útklakinn og kominn á skrið. Sumir fuglar, hvørjum ofkaldt væri að vera hjá oss á vetrin, fara lángt í burtu yfir sjóinn til heitari

lánda. Til eru líka nokkrar flugur og skorkvikindi, sem grafa sig djúpt nidur í fen og forædi, og sofa allann veturinn út, en vakna á vorin aptur til lífs á ný; þannig veit hvort dýr þó það sé skynlaust, af náttúrunni, hvad þad á ad gjöra, og best á vid, til ad vidhalda lífi sínu, útklekja og uppfæda únga sína, og varast það sem þeim er skadlegt. Hvørsu gódur er Gud, sem ber einninn svo nákvæma og elskuríka umhyggju fyrir þeim skynlausu sképnum, og veitir þeim allt sem þær vidþurfa til lífs uppheldis, sem hefir svo myndad og tilbúid þær, ad þær neyta sinnar fædu med ánægju, og satt ad segja, barnid mitt! má dýrunum þykja vænt um, þegar þau taka til sín fæduna; eda smakkast þér ekki vel gódur matur, þegar þú ert svángur? B. Jú. F. Dýrin hafa nú líka lykt og smekk, líka' sveingir þau, eins og ofs, og skyldi þeim þá ekki fallast vel á fædu sína? hvørsu glød hoppa þau ekki upp, og stokkva um hagana og heidarnar, og fuglarnir, sem eru ad sýngja! O, skyldi ekki þetta uppørfa ofs til ad vegsama vorn gjædskuríka Skapara, ættum vér ekki ásamt med þeim, og fremur enn þau, ad gledjast, þared Gud hefir skapad allt þetta handa ofs? B. Jú, vifsulega. F. Var þad þá ekki satt sem eg sagdi þér ádan, ad Lóurnar lofuku Skaparann med sínum saung? og uppørfudu einnin ofs til ad vegsama hann? B. Ojú, þótt þær séu skyn-

lausar. F. Og þú, barnið mitt! hefir hlotið skynsemi; Guð hefir hafið þig, eins og mig, og alla menn, hátt upp yfir dýrin, og skapað þig eptir sinni mynd og líking, að þú í vitsku, góðgyrni, heilagleika og réttlæti, skyldir Guði líkur verða, og jafnan elska og heiðra hann. O, gleimdu aldrei þessum miklu yfirburðum, sem þú hefir fram yfir dýrin! lærðu betur og betur að þekkja Guð af þeim sköpuðu hlutum, þakka honum ætíð af hjarta, fyrir allt það góða, hvörs þú nýtur af þessum skepnum, brúkaðu þær mátulega, og farðu vel með þær, því þær eru verk Skapara þíns, en gleðst af því, að þú ert manneskja, skapaður fyrir himininn.

## 13.

F. Með hvörju viðheldur Guð þér, barnið mitt! gjörir hann það ekki með mat og drykk? B. Jú. F. Hvað verður þá af matnum þegar þú tekur hann til þín? B. Hann fer niðrí magann; F. Hvörnin fer þá um matinn og drykkinn í maganum? B. Það lángar mig til að vita. F. Ef þú tekur vel eptir, skal eg seigja þér það; B. Já, seigið þér mér það! F. Maginn er svo haglega tilbúinn, að hann er í sífeldri hræríngu, og sundurslítur matinn, hann hefur í sér vökva, sem hjálpar til að uppleisa eða melta matinn, og samhræríst svo allt, þá fer það sem gróft er af matnum í þarmana og niðurlísið, en þeir tæru og

góðu vökvar dreifa sér að mestu leiti frá maganum útí æðarnar og aðrar rennur, um allann líkamann; er ekki undarlegt hvörnin allt þetta fer, svo menn ekki verða viðvarir? að það hvítleita vatn, og ýmislegar fæðu tegundir, skuli verða að rauðu blóði? að hvör vökvi matar og drykkjar fari á sinn vissa stað og blóðs-hræríngin skuli alltaf vera svo regluleg í æðunum? Ef þú sæir líkama þinn innvortis, hvörsu mættir þú þá ekki dáðst að Guðs miklu speki? B. Seigið þér mér, faðir minn góður! meira um þetta. F. Finnur þú ekki alltaf eitthvað vera að berjast í brjóstinu á þér vinstra meigin? B. Jú, það er hjartað í mér, en hvörsvegna er það að berjast? F. Það er svo víslega samsett af ýmislegum æðum og holdkynjuðum pörtum, að það lykst upp og læsist, dregur sig sundur og saman, tekur við blóðinu annarsvegar og lætur það út hinumeigin. B. Hvað verður þá af blóðinu þegar það flýtur út frá hjartanu? F. Það hleypur um eina rennu, eða slagæðina, í lúngun, og um hinar aðrar æðarnar dreifist það út um allann líkamann. B. Hvar liggja þá lúngun? F. Báðumeigin við hjartað, og fylla útí allt brjóstið; það eru lúngun, barnið mitt! með hvörjum þú dregur að þér andann eða loptið um nasirnar, og blæs honum út aptur, því þegar maður getur ekki leingur dreigið að sér andann, eða andað út aptur, stendur hjartað kyrrt, og þá er

úti með lífið. Í lúngunum kjælist blóðið af loptinu, þykknar og blandast nákvæmlega saman við fæðusaftina, geingur aptur til hjartans, og frá því svo í gégnum slagæðarnar, dreifist það út um allann líkamann; gallið er að sönnu yfrið beiskur vökvi, en þó til matarmeltíngarinnar mjög svo nauðsynlegur, en svo það skuli aðskiljast frá blóðinu, hefir Guð látið vera í maganum, undir þyndinni, tvø innifli, nefnil. miltið vinstrameigin og lifrina hægrameigin. Miltið er því líkast sem svampur og tekur við blóðinu í gégnum því tilheyrandi slagæð, sem aptur fellur til baka í gégnum eina blóðæð, er sameinast annari blóðæð, er upptøk sín hefur frá þørmunum og endadaúsnum og leiðir svo það góða blóð í lifrina, til aðskilnaðar frá gallinu; hitt annað blóð sem eptir er, þegar gallið er fráskilið, flýtur aptur í gégnum eina høfuð-æð til hjartans; gallið þarámóti safnast sumt í gallblødruna, sumt flýtur sjálfkrafa í gégnum tilhlýðandi rennur í þarmana, hvar það uppleisir eða meltir matinn. Í blóðinu safnast líka saman saltkynjaðir vessar, en svo þeir ekki verði heilsunni skaðlegir, hefir Guð, gégnt hriggnum undir lifrinni og miltinu, látið vera tvø nýru, hvar það skarpa vatn aðskilst og leiðist í eina blødru, hvaðan þvagjið geingur frá manni. Í maganum liggja þarmarnir, um hvørja hið annað af fæðunni geingur, og matarsaftinni og næríngunni verður í gégnum smágérðar rennur kom=

id til blóðsins; þessir þarmar eru umgyrdtir húð, áfastir endadausnum, og yfirþaktir annari mjøg svo feitri húð, sem heitir netja, svo þeir hljóti ekki skada, heldur liggi vid, þeim ómissanleg, hlýindi og raka. Svo addáanlega er øllu fyrirkomid í líkamanum. Brjóstid er hulid føstum rifjum, svo ad þessir fínu partar skadist ekki audveldlega; rifin eru teingd baka til áføst vid hrigginn; hin beinin eru øll konstuglega sett saman hvørt vid annad og samanbundin med sterkum himnum og taugum. Nærri beinunum liggja breidir og aflángir holdkynjadir partar, sem heita vødvar, úr hvørjum ad verda sinar, ofar og nedar á øllum limum líkamans, svo ad þeir fljótt géti hreift sig hvør med ødrum. Fæturnir eru flatir til ad standa á og gánga; høndurnar lidamjúkar til verklags og átekta. Høfudid ad innan uppfyllir heilinn, á hvørju líka eru verkfæri skilníngarvitanna; heilinn er gjørdur af mjúkfeldu efni, konstuglega samsettu, af ymsum stærri og smærri pørtum, og gégnum ofin mørgum blódædum, þadan hafa allar sínar sín upptøk, og hræríng allra líkamans lima; en hvørsu vel hefir Gud ekki búid um þennan kostulega dýrgrip, fyrst er hann umvafinn smágérdri, þunnri himnu allt um kríng, þar utanyfir annari sterkari, sem ad innan vída er gróin vid hauskúpuna, svo þeir vidkvæmu partar ekki skuli núast, né mæta hnjarki vid margvíslegar hræríngar líkamans. —

Utanum allt saman er sú harða høfuðskél, samsett af aðskildum beinum. Neðan undir enninu liggja bædi augun, óhultari enn á hvørjum helst øðrum stað; hvørsu aðdáanlegt er það, hvørnig allir hlutir speigla sig í auganu, og hvørnin augun géta tekið á móti byrtugeislum til að senda sálunni ljós; augun eru réttkølluð sálarinnar speigill, með þeim fáum vér aðgreint litina, vyrðt fyrir oss skøpunarverksins báðsemdir, og fyrirsjeð það sem oss er búinn háski af. Í eyranu er þunt skinn sem eg vil kalla trumbu-himnu, af því það er útþanið eins, síðan er eyrnaholan og hlustin, bogin og aððreigin svosem kufúngur, þar innum fer hljóðið með krapti, svo að vér gétum heyrt mál manna; og hvørsu vottar þá munnsins skøpulag að innan Guðs dásemdir! þær hørðu og beittu tennur sem eiga að sundurmerja matinn, eru settar og festar í jafnri røð umhverfis; en túngunni er vel borgið miðt á milli þeirra, hæf til að hafa smekk á mat og drykk, og til að víkja þessu í vélindið ofan í magann. Túngan er svo mjúk og liðug, að hún gétur í gégnum loptið, sem kémur frá lúngunum, myndað ótalføld hljóðaløg; með henni látum vér øðrum í ljósi þánka vora, køllum eptir hjálp, byðjum og lofum Guð. Æ, komdu til mín, barnið mitt! við skulum vegsama hann: mikil eru verkin Drottins! hvør sem athugar þau rétt, fær þaraf føgnuð og gleði; eg þakka þér, minn Guð! það eg em

svo dásamlega skapadur; dásamleg ern þín verk, og það veit sála mín vel, þú hefir íklædt mig holdi og húd, og af beinum, sinum og ædum mig samsett, þú gafst mér lífid og allt gott, og þín forsjá vardveitir minn andardrátt; þér til dýrdar vil eg lifa, gjædskuríki Skapari! og vegsama þig ætíd med rádvøndu framferdi.

14.

F. Er þér þá ekki hugljúft ad þakka Gudi? B. Jú. F. Hvørsvegna? B. Vegna þess ad Gud minn gódur hefir veitt mér svo margt og mikid gott; F. En ætli Gud heyri það, þegar þú þakkar honum? B. Þér hafid sagt og kénnt mér það, ad Gud heyri øll ord sem eg tala; F. Hvørsvegna viltu þá þakka Gudi, verdur hann nokkud ad sælli fyrir þakklæti þitt? B. Nei. F. Hvørsvegna þøkkum vér honum þá? er það ekki rétt ad vér sýnum velgjørdamønnum vorum vyrdíngu? B. Jú. F. Er ekki Gud vor stærsti velgjørari? B. Já! hann hefir géfid mér líkama og sál, lífid og allt gott; F. Þegar þú hugar um þetta, dettur þér þá ekki í hug sú hlýdni, sem þú átt svo miklum velgjørara ad láta í té? B. Ojú. F. Til hvørs er þá ad þakka Gudi? B. Oss kémur undireins í hug sú hlýdni, sem vér erum Gudi umskyldugir. B. Þegar nú adrir sjá og heyra, ad þú þakkar Gudi, verda þeir þá ekki líka undir-

eins minntir á skyldu sína við Guð? B. Vissulega. F. Til hvörs gagns er þá að vér þökkum Guði? B. Til þess að minna aðra á skyldu sína við Guð. F. Þegar þú nú með ánægju hugleiðir, að Guð sé þinn elskulegur faðir, að hann hefir gefið þér svo margann gleðidag og yfirfljótanlega saðt þig og klædt, varðveitt þig frá mörgu illu, gefið þér heilsuna aptur, eða viðhaldið henni, svo þú ekki yrðir veikur, og þarhjá gladt og endurnært þig daglega, verður þá ekki hjarta þitt glaðvært og kátt? og þykist þú þá ekki vera sæll? B. Jú, þá er eg vel ánægður og glaður. F. Veistu nú hvörsvegna Guð vill að þú þakkir honum? Þú átt opt og ýðuglega að gleðjast af hans gjæðsku og minnast hans velgjörnínga, í hvört og eitt skipti, sem þú nítur þeirra; þú átt að huxa eptir því, að vér eigum svo máttugann Guð, góðann Skaparа og ástríkann vin og velgjörara, sem géfið hefir oss velskapaðann líkama, ágjæta limu og dásamleg skilníngarvit, sem géfið hefir oss sálina til að þekkja hann og elska og gleðjast í honum. „O lofa þú Drottinn, sála mín, og gleymdu ekki því góða, sem hann hefir gjört þér; eg þakka þér, minn Guð! að eg em svo dásamlega skapaður, að þú hefir klædt mig hörundi og holdi, með æðum og beinum samteingdir þú mig!" Hvörsu margt fallegt hafa mín augu þegar feingið að sjá, hve margrar hollrar og þægilegrar fæðu hefi eg notið og til

hve mikillrar og margskyns gledi hefi eg fundid! Þakkid Drottni, því ad hann er gódur og hans miskunsemi varir eilíflega. Eg vil vegsama hann med munni mínum, og heidra, elska og hlýda honum.

## 15.

F. Þykir þér vænt um þad, ad Gud hefir híngadtil verid svo mjøg gódur vid þig? B. Ojú — þad þykir mér vænt um; F. Ef þú værir nú líka svo gódgjarn og gódviljadur vid adra menn, mundi þeim þá ekki þykja vænt um þig, og elska þig og vyrda? B. Jú! þad vona eg; F. Vildir þú ekki óska þér, ad vera eins lukkulegur og einhvør herramadur? B. Jú — þad væri gaman. F. Er þá nokkur svo sæll sem Gud? B. Nei — Gud er sá allra sælasti. F. Þad má því vera sú ædsta lukka fyrir mann, ad leitast vid ad verda eins og Gud er? B. Já — Ef ad eg gjæti ordid eins og Gud, þad væri gott! F. Nú vil eg þá seigja þér, barnid mitt gott! hvørnin þú átt ad fara ad því ad líkjast Gudi; Gud géfur øllum mønnum svo mikid gott, géfdu einnin þeim sem þurfa svo mikid sem þú gétur; Gud hefir mikla þolinmædi vid adra, hann straffar menn ekki strax, sem þeir verda honum óhlídnir, þú mátt þá ekki heldur strax reidast, þegar einhvør ertir þig upp, eda módgar þig. Hefir þér þá ekki híngadtil ordid margt á? hefirdu ekki ødruhvørju verid

hiskin ad læra, og ógégnin okkur foreldrum þín=um? B. Ojú, því er midur; F. Hefir þá Gud fyrir þad hætt ad gjøra þér til góda. B. Nei. F. Þá mátt þú líka til ad gjøra þeim gott, sem þér audsýna íllt, því annars géturdu ekki verid sæll eins og Gud. Taladi Gud, mundi hann þá tala satt eda ósatt? B. Ósatt gétur hann ekki talad, því þad er íllt. F. Svo taladu þá aldr=ei annad enn þad sem satt er; annars gétur þú ekki ordid eins sæll og Gud; Hefir Gud ekki vís=dómslega hagad øllu í heiminum? B. Jú. F. Leitastú þá og vid ad verda vís; taktú vel ept=ir gódum lærdómi sem þú lest eda heyrir; vertu hygginn, þegar þú frammkvæmir eitthvad; et og drekk ekki of mikid, og sofdu ekki meir enn þú þarft. Taladu med gjætni, hafdu Guds ord kostgjæfi=lega um hønd, sem eg vil nú kénna þér betur ad þekkja, í því er gudlegur vísdómur fólginn, þad gjørir þig vitrann, med rólegu hjarta og glødu gédi, og sælann-einsog Gud; um alla hluti fram, bid þú opt og ydduglega, ad gódur Gud vyrdist ad hjálpa þér, og gjøra þig eins og hann er sjálf=ur. Æ, gódi Gud! hvad feginn vildi eg vera eins gódur, ástríkur og hógvær og þú ert, géfdu mér gott hjartalag, gjør mig hygginn og vísann, og stjórna mér svo, ad eg ætíd tali sannleikann; veittu mér ánægt sinni, og rólega gédsmuni, og gjør mig dag frá degi hæfilegri til ad framkvæma

margt og mikid gott, ſvo ad eg mætti verda ſæll ſem þú! En hefir þú þá, barnid gott! gjørt híngadtil ætíd allt þad góda, ſem þú hefir nú einſett þér? B. Onei, þad vantar mikid á þad; F. Høfum vid foreldrar þínir þó ekki daglega lagt þetta nidur fyrir þér, og ſamt hefir þú verid opt á eptir ſlæmt barn? er ekki þetta merki þeſs ad eitthvad íllt bír í þér? B. Ekki gét eg borid á móti því; F. Og þad ſama ſem þú finnur hjá þér nl. ad þú veitſt hvad gott er, en gjørir þó ekki ætíd þad góda, heldur þad ſem íllt er, finna allir menn hjá ſér, þeir hafa allir tilhneigíng til ílls. En mun nú Gud í upphafi hafa ſkapad mennina med ſlíkri tilhneigíngu til hins vonda? B. Því gét eg ekki trúad. F. Hvadan ſkyldi þá vera komid þad illa ſem í manninum býr? B. Þad lángar mig til ad vita! F. Eg vil þá kénna þér þad, og jafnframt ſegja þér, hvørnig þú gétur ordid gódur madur og Gudi líkur.

## 16.

F. Eg lofadi ad ſegja þér, barnid mitt! hvadan þad vonda í manneſkjunni væri komid, og vil eg gjøra þad, þegar eg er ádur búinn ad ſegja þér frá ødru: þegar Gud hafdi ſkapad heiminn, var allt í honum harla gott, og ſvo líka þær fyrſtu manneſkjur Adam og Eva; Gud hafdi veitt þeim allt ſem þær medþurftu til lífs

uppheldis og lukku sinnar, þær høfdu réttann skilníng, og vilji þeirra var hneigdur til ens góda, hjartalag þeirra var heilagt, og líkaminn flekklaus af syndum, því Gud hafdi skapad þau eptir sinni mynd. „Gud skóp manninn eptir sinni mynd — segir Ritníngin — eptir Guds mynd skóp hann hann" 1 Mós. b. 1, 27. Skilurdu rétt þessi ord? hefir Gud nokkra mynd eda ásýnd? B. Þér hafid kénnt mér, ad Gud hefdi aungvan líkama eda limu; F. Rétt er þad, barnid mitt! en Gud er þó skilníngsfull Vera? B. Ojá; F. Hann hefir líka heilagann og réttann vilja? B. Þad er víst. F. Hann hefir tilhneigíngu til alls þess sem gott er? B. Jú. F. Taktu nú eptir! þannig skóp Gud þær fyrstu manneskjur, ad þær voru þarí honum líkar, ad þær voru gjæddar gódri skynsemi, hreinu og helgu hjarta, og høfdu í viljanum lyst og laungun til ad byrja farsællegt líf. Þegar sonur er líkur fødur sínum, seigir madur þá ekki, ad sonurinn sé eptirmynd fødur síns? B. Jú. F. Þannig voru líka þær fyrstu manneskjur eptirmynd Guds; þ. e. þær voru líkar Gudi. En deyr Gud þá ekki? B. Nei. F. Svo mundu þær fyrstu manneskjur ekki hafa dáid, ef ad þær hefdu verid alltaf gódar og aldrei syndgad. Er Gud ekki heimsins Drottinn og Herra? B. Jú. F. Svo setti Gud þær fyrstu manneskjur til ad drottna yfir állri jørdunni og sagdi til þeirra:

„gjørid ydur jørdina undirgéfna og leggid hana undir ykkur, drottnid yfir fiskunum í sjónum og fuglunum í loptinu, og øllum ødrum dýrum sem hrærast á jørdunni, 1 Mós. b. 1, 28. Nýtur Gud ekki óendanlegrat gledi og sælu? B. Jú. F. Svo hafdi Gud líka sett þær fyrstu manneskjur í vidlíkt sælufullt ástand; þær høfdu góda samvitsku, glødduſt ad Guds gjædsku, nutu saklausrar ánægju af þeim skøpudu hlutum og voru í mjøg inndælu plátsi sem kalladist Paradís eda Eden. Í þessum yndislega aldingardi var allt, er þéna mátti þeim til lífsins næríngar og ánægju. Þannig voru þau Adam og Eva gjædd Guds mynd og líkíng, og lifdu saman í innbyrdis stødugum kjærleika, farsæld og fridi; Gud elskadi þau eins og sín børn, og þau elskudu, heidrudu og vegsømudu hann, einsog sinn gjædskuríka Gud og Fødur; en þetta ástand þeirra varadi ekki leingi, því þau urdu afvegaleidd og tæld til óhlýdni. B. Hvørr tældi þau eda leiddi afvega? F. Þad skal eg seigja þér seinna, en fyrst áttu ad læra, ad auk mannanna hefir Gud líka skapad adrar skinsemi gjæddar verur.

## 17.

F. Hvad er sálin í þér? B. Sálin mín er þad, sem lætur mig læra og skilja. F. Þá er sálin í þér þad sem hefir skilníng og vilja? B. Já. F. Og þad, sem þetta hefir til ad bera, heitir

eins og eg hefi sagt þér, Audi. Mikinn fjølda af slíkum Øndum hafdi Gud í øndverdu skapad, en med því ad allt sem Gud gjørir er gott, voru einuin allir þessir andar í upphafi gódir og skapadir eptir hans mynd. Otal þúsundir slíkra hreinnra og háleitra anda eru enn til, Gud brúkar þá hér og hvar um heiminn odrum sínum skøpudu sképnum til gagns og góda og sér til dýrdar, þeir lofa Gud, vernda gudhrædda menn og framkvæma med gledi Guds bod. Eru þad ekki sælir andar? B. Jú. F. Vildir þú ekki óska þér ad vera líkur þeim? B. Jú, þess vildi eg óska ef eg bara gæti ordid þad. F. Því rádvandari og audsveipnari sem þú ert, þess líkari verdur þú Einglunum; en ekki hafa allir Einglarnir nád ad standa stødugir í þessu sælu ástandi, nokkrir af þeim féllu sjálfkrafa frá hlýdni sinni vid Gud, syndgudu og urdu þessvegna útskúfadir frá Guds augliti. Sá skélfilegi stadur, hvar þeir vondu andar eru, kalla menn Helvíti, og halda þeir áfram í illsku sinni og syndum, þeir elska ekki Gud, og finna sína vondu lystingu í því sem íllt er, þess vegna sáu þeir líka offjónum yfir þeirra fyrstu manna lukkusæla ástandi og leitudust vid ad skada þá og koma þeim í sømu ólukku sem þeir sjálfir voru komnir í. B. Munu þeir þá líka gjøra mér íllt? F. Þegar þú ert gudhræddur þarftu fyrir alls aungvu ad óttast; en hvor sem ekki elskar Gud, sem alla sína

lystíngu hefir í því vonda, hefir orsøk til ad vera síhræddur, og lendir um sídir í hinna ógudlegu vondu anda kvalastad, og illra sálna sambúd. Þeim rádvanda þarámóti gétur ekkért ordid til meins; þegar Gud verndar þig og vardveitir, hvør gétur þá gjørt þér grand? Gud hlýtur þó ad vera máttugri enn nokkur íllur andi eda óvættur annar, hvørju nafni sem heitir? B. Þad er án efa víst. F. Svo þarftu þá ekkért ad hræðast, Gud er allstadar hjá þér og í kríngum þig, hann hefir máské látid sína Eingla vera þína ósýnilegu vaktara, því, þó vér sjáum þá ekki, fullvissar Ritníngin oss um, ad þeir séu af Gudi tilskikkadir til ad vardveita þá gudhræddu frá því, sem þeim er skadlegt, því svo lesum vér í Guds ordi um þá gódu Eingla:

Sálm. 34, 8. Einglar Drottins setja herbúdir sínar í kríngum þá sem hann óttast.

Sálm. 91, 11—12. Gud hefir bodid Einglum sínum ad þeir skuli vardveita þig á øllum þínum vegum, ad þeir beri þig á høndum, ad þú skulir ei steita fót þinn vid steini.

Ebr. 1, 14. Eru Einglarnir eigi þjónustusamir andar, útsendir vegna þeirra sem ødlast skulu sáluhjálpina.

Sálm. 103, 20—21. Lofid Drottinn þér hans Einglar! þér øflugar hetjur, sem framkvæmid

hans bod! lofid Drottinn Þér hans Þénarar, sem gjørid hans vilja!

En um Þá vondu stendur Þetta skrifad:

2 Pét. 2, 4. Gud Þyrmdi ekki Einglunum sem syndgudu, heldur steipti hann Þeim nidur til helvitis, og setti Þá í myrkvafjøtur, ad Þeir geymist Þar til dómsins.

Júd. v. 6. Einglana, sem ekki gjættu sinnar upphaflegu tignar, heldur yfirgáfu sinn bústad, hefir hann geimt í myrkvastofum í eilífum fjøtrum, til dóms Þess mikla dags.

## 18.

F. Tvø frábrugdin tré voru auk annara í Paradís, annad var **Lífsins tréd**, sem ætlad var til ad vidhalda lífi mannsins og krøptum; hitt var **Skilníngstréd góds og ills**; Þótt nú ávextir Þessa trés væru fagrir á ad líta, hafdi Gud Þó bannad Þeim fyrstu mønnum ad eta Þaraf og sagt: nær sem Þid etid af Þessu tré, skulud Þid vissulega deya. B. Hvørsvegna máttu Þau ekki neyta svo yndislegs ávaxtar? F. Gud vildi Þad ekki, og í vísdómsfullum tilgángi bannadi hann Þeim Þad; Því ad øll Guds bod eru vís og gód. B. En ávøxturinn var, eins og Þér søgdud ádan, fagur á ad líta og gódur. F. Þó ad Þessi ávøxtur væri fallegur og gódur, (eins og allt sem frá Gudi er) var hann ekki ætladur til ad

hann etinn væri, Gud hafdi skapad hann í annari veru, og bannadi þeim fyrstu mønnum ad eta af honum. Þettad vissi einn af þeim føllnu vondu einglum, sem sétilagi kallast Djøfull, og hann ásetti sér ad ginna mennina til óhlidnis gégn Gudi. Hann kom þessvegna eins og Høggormur eda í høggormslíki til Evu, og taladi vid hana hérumbil á þessa leid: ætli Gudi hafi verid þad alvara ad banna ykkur ad eta af þessu tré? Eva játadi því, ef vid etum af því, seigir hún, eigum vid ad deya. Þad er ekki svo ad skilja, sagdi Høggormurinn, aungvanveiginn munud þid deya, þó ad þid etid af ávexti þessum, heldur munu þá opnast augu ykkar, og þid munu verda eins og Gud í ad þekkja gott og íllt. Af þessum fortølum Høggormsins lét Eva hann tæla sig, fór ad skoda ávøxtinn, og leitst vel á hann, trúdi Høggorminum ofvel, og huxadi sér ad verda eins og Gud, tók af ávextinum og át, og gaf manni sínum þaraf med sér og hann át. Nú vaknadi hjá þeim gyrnd til hins ílla og ein fæddi af sér adra, þá fóru þau ad skammast sín, því þángad til hefdu þau verid nakin, huldu sig þessvegna med laufblødum, og fléttudu þau utan um sig. Þetta var þá uppruninn til syndarinnar og allra mannlegra eymda. B. Leiddi þá svo mikid íllt af því, ad þau átu af þessum ávexti? þad sýnist þó ekki hafa verid nein stór synd. F. Hafdi Gud ekki bannad þeim ad

eta af trénu? B. Jú. F. Vóru þau þá ekki óhlýdin Gudi, þegar þau gjørdu þad sem hann hafdi bannad þeim? B. Ojú. F. Trúdu þau ekki betur sképnunni enn Skapara sínum og Gudi? B. Jú. F. Gétur nokkur synd heitid lítil, sem madur drýgir móti Gudi? B. Nei. F. Héradauki steiptu Adam og Eva med þessari synd øllum sínum nidjum í ólukku og fordjørfun. Hvørsu hættulegt er þad ad brjóta Guds bod, jafnvel í enu minnsta; þad er víst ad madur ratar þá, annadhvørt-fyrr eda seinna, í margskyns eymd og volædi, því øll Guds bod eru vís og góð; hvørr sem þessvegna ekki hlýdir þeim, hann gjørir þad sem íllt er, en þann hendir íllt sem íllt adhefst. Héraf gétur þú líka lært, barnid mitt! hvørsu hættulegt þad sé, ad hlýda vondum áeggjunum til ad brjóta Guds bod; þessvegna, þegar vondir stálkar lokka þig, þá fylg þeim ekki.

## 19.

F. Er þad ekki í sjálfu sér mikid syndastraff, ad madur kvelst innvortis af skømm og ángist, eda vondrar samvitsku nøgun? B. Víst má þad vera mikid straff. F. Jafnskjótt sem Adam og Eva høfdu syndgad, féll yfir þau þetta straff; þessvegna føldu þau sig bak vid trén, þegar rødd Guds heyrdist í gardinum um kvøldid. Og var þad ekki heimskulegt ad vilja fela sig fyrir Gudi? B. Ojú!

fyrst ad Gud veit og sjer alla hluti; F. Gud kalladi þá undireins á þau, og bar uppá þau syndina, en þau tóku til ad afsaka sig. Adam sagdi: konan gaf mér ad smakka á ávextinum. Eva sagdi: ad Höggormurinn hefdi tælt sig. En Gud vissi vel, ad þeim var líka sjálfum um ad kénna synd sína, og ad þau áttu ekki ad láta svíkja sig; þessvegna lagdi hann sitt straff á hvørt þeirra; til Adams sagdi Gud: med miklu erfidi og andlits svita skaltu þíns brauds neyta, og loksins máttu til ad deya, og líkami þinn skal aptur verda ad jørdu, af hvørri hann er tekinn. Vid Evu sagdi hann: þegar þú verdur ólétt skaltu þín børn med sótt og harmi fæda, og þú skalt vera undir mann þinn géfin. Eptir þad rak Gud þau bædi útúr þeirri yndislegu Paradís, til þess ad þau med mædu og erfidi skyldu yrkja og rækta jørdina, þángad til þau dæu; en svo ad þau skyldu ekki ørvílnast í eymd sinni, gaf Gud þeim fyrirfram þá huggun og fyrirheit, ad af konu einni skyldi sá fædast, sem sundurmola skyldi Höggormsins høfud, þ. e. svifta þann vonda anda, sem þau hefdi svikid, valdi sínu og abli, en koma manneskjunni aptur í fullkomid og farsælt ástand. B. Hvør var sá sem þad skyldi gjøra? F. Þú hefir þegar opt heyrt hann nefndann, barnid mitt! þad er þinn Drottinn Jesús; eg skal seigja þér meira um þetta seinna; enn ertú ekki fær um ad skilja þad allt

sem þú þarft um hann ad vita; taktu nú ad eins eptir! Gud skapadi svo manninn, ad hann var skynsamur, heilagur, saklaus og ódaudlegur; þad illa sem í oss og hjá oss er ad finna, kom ekki frá Gudi; gódur Gud hefir bannad ad drýgja synd, hann straffar hana, og gjörir enn allt til ad hamla henni.

Jóh. 8, 44. Djøfullinn var mórdíngi frá upphafi og var ekki stødugur í sannleikanum.

Rómv. 5, 12. Syndin er af einum manni komin í heiminn, og daudinn vegna syndarinnar, svo hefir daudinn sér til allra manna innþreingt, því allir hafa syndgad.

## 20.

F. Var þá madurinn ekki í upphafi skapadur til þess ad deya? B. Nei, þér kéndud mér í gjær, ad Gud hefdi skapad manninn ódaudlegann. En þad væri þó víst gott, ad vér kjæmumst hjá því ad deya. F. Þér skjátlast í því, barnid mitt! hvørt þækti þér betra alltaf ad vera veikur eda ad lifa alheill og gladur? B. Ad lifa alheill og gladur? F. Á medan vér erum á jørdunni, erum vér alltaf, á einhvørn hátt, veikir; sálin er hneigd til synda, og henni er hætt vid ad rata í allslags hættulega og skadlega villu; líkaminn hlýtur ad þola margt ógédfeldt og andstreymi og mædu, þángad til hann er fullvaxinn ordinn, sídan í ell-

inni verdur hann svo lasburda, aumur og hrørlegur, ad hann er flestum byrdarauki. Vildir þú ekki óska þér ad fá í skiptum fyrir vesælan og veikan líkama, annan fallegan, heilbrygdan og ódaudlegan líkama. B. Jú, þad vildi eg. F. Vildir þú ekki líka óska þér ad komast úr dimmum og ljótum kofa, inní eitt fallegt og vel umvandad hús? B. Ojú. F. Mundi þig ekki lánga til ad leggja nidur gamalt og útslítid fat, og færast aptur í nýan dýrindis fatnad? B. Því skyldi mig ekki lánga til þess! F. Þú vilt þá eptir þessu deya, barnid mitt! því fyrir gódum mønnum og gudhræddum geingur þad alltéins í daudanum; þeir komast úr heimi þessum, eins og úr þraungu fángelsi, til himinsins dýrdlegu bústada; þeir leggja hér nidur hrørlegann líkama, eins og annad slitid fat, og verda á betri stad ískrýddir vegsemd af Gudi; er þad þá ekki gott ad géta dáid sæll? B. Jú, fyrst því er svona varid; F. Svo er því varid, barnid gott! um þetta skal eg upplýsa þig betur seinna. Veitstu hvad jørdin og líf vort á henni má heita? B. Hvad þá? F. Í stuttu máli þér ad seigja, má þad heita Skóli; B. Hvørnin þá? F. Í skólanum læra børnin, og hafa opt mikid fyrir því, þau verda þar opt strøffud fyrir yfirsjónir sínar, en jafnframt er þeim hætt vid ad láta ønnur skólabørn tæla sig og lokka, þó fer þeim samt fram og undirbúast til annars, sem meira er, á

eptir, eda er ekki svo? B. Jú. F. Alteins er varid med góda menn á jørdunni, þeir byrja hér ad læra ad þekkja Gud og hans vilja, verda opt typtadir af Gudi sökum sinna synda, eru þar hjá einatt í hættu staddir, ad þeir hneixlist og verdi afvegaleiddir af vondum mønnum; jafnframt verda þeir þó altaf vísari og betri og hæfari fyrir himininn, og til þess ad hafa þar ædri størf á hendi. B. Hvada størf hafa þeir þá á hendi eda hafast ad á himnum? F. Þarum hefir Gud opinberad oss svo mikid sem vér þurfum ad vita, og gétur þú ekki heldur sem stendur skilid þad allt. B. Seigid þér mér nokkud um þad! F. Manstú þá eptir því sem eg sagdi þér, í hvílíku sælu ástandi þeir fyrstu menn vóru, þegar Gud í øndverdu skapadi þá? B. Já, eg man ad þér søgdud, ad sálir þeirra hefdu verid gjæddar vísdómi og heilagleika, líkami þeirra ódaudlegur, og þeir hefdu allt sem þurftu til ad géta lifad farsælu lífi. F. Þad líkar mér vel, ad þú tekur eptir því sem þér er sagt, í þessu sæluástandi gátu þeir betur og betur lært ad þekkja Gud og hans vilja, notid med glødu hjarta hans velgjørda og lofad hann og vegsamad med heiløgu líferni, og þetta er einmidt þeirra sáluhólpnu ásigkomulag á himnum; þeir fá ad þekkja Gud betur og betur, lifa í hreinu sakleysi, og hafa ætíd gnægd ævarandi fagnadar, og eru í yndislegu samfélagi med gódu Einglunum og

øllum heiløgum, þeir lofa og vegsama Guð og elska hann, og eru glaðir af hans guðdóms nálægð og sameiníngu, þeir syndga ekki framar og deya ei heldur og njóta án afláts óútsegjanlegrar sælu. B. O, að eg feingi líka að komast í himininn! F. Það særðú, ef þú lifir guðrækilega í heimi þessum, því að þeir einir, sem af hjarta elska Guð og eru ráðvandir, eiga í vændum, að hljóta þennan søgnuð og farsæld. B. Hvønær komumst við þángað? F. Þú veitst að maðurinn hefir bæði sál og líkama? B. Já. F. Strax sem að guðhræddir deya, fara sálir þeirra til Guðs á himnum, en sálir vondra manna til bústaða hinna fordæmdu. B. Það má vera skélfilegur staður, sem þeir vondu fara í, eg hefi opt heyrt hann nefndann. F. Það er satt — Guð fordi þér frá því að komast í hann; þar eru fyrir þeir vondu óhreinu andar, sem eg sagði þér að fallið hefðu frá hlýðni sinni við Guð og til þessara verður sálum þeirra óguðlegu vísað, til þess sárlega að kveljast af nagandi samvitsku, í sambúð með þeim; líkamir þeirra munu og á sínum tíma af jørðunni uppvaktir verða, og samteingdir aptur sálunum æfinlega í helvíti gista. B. En hvað verður þá um líkami þeirra guðhræddu? F. Líkami þeirra mun Guð líka af jørðunni lifandi uppreisa. B. Og þá líkama minn? F. Já, líkami þinn mun einninn uppvakinn verða og samteing-

jaſt aptur ſálunni. B. Mun eg þá líta eins út og eg er nú? F. Þú munt þá verda lángtum fallegri og veglegri — líkamir þeirra ſáluhólpnu munu frá øllum veikleika fríir verda, ljómandi og dýrdlegir; þeir munu hvørki eldaſt né veikjaſt né deya; þá ſáluhólpnu mun, hvad ſál og líkama ſnertir, ekkért vanta ſem þeir óſka, og ad eilífu mun þeim þar vel vegna. B. Hvønær fáum vid ad komaſt í þvílíka ſælu? F. A effta eda ſídaſta degi heimſins; því þeſsi heimur mun ekki alltaf vara. B. En hvørsvegna hefir Gud þá ſkapad hann, fyrſt hann á ekki alltaf ad vara? F. Þegar eitthvørt hús er ordid hrørlegt og gamalt, hvad gjørir þá ſá madur, ſem ríkur er, vid þad? B. Hann lætur rífa þad nidur, og byggja í þeſs ſtad annad nýtt. F. Rétt er þad. Allt eins fer ad ſá alleina ríki og voldugi Gud, heimurinn eldiſt og fyrniſt, og vída hefir hann ſpillſt og eydilagſt, og þá mun Gud leggja eld í allt; ſól, túngl, jørdin og allar ſtjørnurnar munu í eldi brádna, en ný og fullkomnari verøld leidaſt í ljós, ſem aldrei forgeingur. B. Hvønær ſkédur þad? F. A ſídaſta deigi. B. Hvønær kémur þeſsi ſídaſti dagur? F. Þad veit einginn nema Gud, en fyrſt vid ekki vitum þad, barnid mitt! hljótum vid daglega ad búaſt vid honum; því á þeſsum mikla og óttalega deigi mun Gud dæma alla menn og gjalda einum og ſérhvørjum eptir hans verkum. Hvør

sem hefir hurad margt gott, talad og gjørt, mun mikid gott úr bítum bera, og hinn, sem hefir margt íllt hurad, talad og gjørt, mun líka hreppa mikid íllt, og rídur þá ei á, ad vid fordumst allt íllt? Veit Gud ekki allt, sem mennirnir hafast ad? B. Jú, hann er alvís; F. Þekkir hann ekki líka hjartans þánka? B. Vissulega. F. Ekkért íllt er svo lítilfjørlegt og eingin gyrnd svo heimugleg, ad Gud ei þekki og muni straffa, og ekkért svo lítid gott, ad hann af nád sinni vilji ei þeim gudhræddu þad endurgjalda; eg seigi af nád, taktú vel eptir þessu, því eg mun nú brádum seigja þér og útmála, hvør oss hefir alla þá sælu útvegad, sem vér sídar meir fáum ad ødlast. Bid þú ad eins Gud af hjartans alvøru, ad hann vardveiti þig frá þeim vonda veigi, sem til fyrirdæmíngar leidir, ad hann láti þig verda æ betri og betri, og verdugann ad komast í eilífa sælu. Vardveittu mig, gódi Gud! ad eg ei med neinni þvermódsku, eda ásetníngs synd, brjóti af mér þá sáluhjálp, sem þú hefir mér ætlad; stjórna hjarta mínu, sem er svo hvikult og óstødugt, og géf mér ad verja mínum skammvinnu lífs-stundum til ad gjøra margt og mikid gott; taktú mig lokfins til þín þegar eg dey! O, hvørsu vil eg lofa þig, þegar þú gjørir mig vísann, heilagann og ódaudlegann! eilíflega vil eg med gladværu hjarta og lofsyngjandi túngu, vegsama þig! Préd. b. 12, 13—14. Ottastu Gud og haldtú hans

bodorð, því það ber øllum mønnum að gjøra. En Guð mun leiða øll verk fram fyrir dóminn og þau sem hulin eru, hvørt sem þau eru góð eða vond.

Jóh. 5, 28—29. Sá tími mun koma, á hvørjum allir þeir, sem í grøfunum eru, munu heyra Guðs Sonar raust, og þá munu þeir, sem gott hafa gjørt, uppríſa til ſælu, en hinir til fyrirdæmingar, ſem íllt hafa aðhafst.

Róm. 6, 23. Því verðlaun syndarinnar er dauðinn, en Guðs náðargjøf er eilíft líf í Drottni vorum Jesú Kristó.

## 21.

F. Maður nokkur hafði tekið ſér í sonar stað lítinn dreing, ſem hann með miklum kostnaði lét uppala og menta, bæði kéndi hann honum sjálfur, og hélt líka kénnara til að uppfræða hann betur, gaf honum besta kost og gladdi hann opt með fallegum føtum og góðum gjøfum. Þegar dreingurinn fór að eldast, forſmáði hann fóstra ſinn og velgjørara, hlýddi honum ekki leingur, og gjørði honum margt til móðs og meins, var það gott barn? B. Það var vondur strákur! F. En hefir nú ekki Guð þinn veitt þér margt og mikið gott, hann gaf þér lífið í fyrstu, líkama og sál; híngað til hefir hann fædt þig á mat og drykk, og ekki einúngis fædt þig, heldur klædt þig og gladt með

margskónar gáfum, og vill, eins og eg sagdi þér í gjær, eptir daudann leida þig til eilífrar sælu. O! hvørsu vond manneskja værir þú, ef þú ekki vildir vyrda mikils þennan þinn Gud, ef þú vildir ekki elska, heidrá og hlýda honum? Hvad heldurdu? ætli gódur madur mundi láta vera, ad straffa það vonda, óþekka og vanþakkláta barn? B. Nei — það held eg ekki! F. Mundi þá Gud, sem straffar illt og hatar það, ekki straffa þá, sem hónum eru óhlídnir? B. Vissulega verdur hann ad straffa þá; F. En gjætir þú ekki skotist undan Gudi, ef hann vildi straffa þig? B. Nei. F. Hvørsvegna ekki? B. Af því Gud er allstadar; F. Þú svaradir rétt! en sjer Gud þá allt, sem þú gjørir, eda heyrir allt, sem þú talar, eda veit allt, sem þér dettur í hug? B. Já, því hann veit allt. F. Þú mátt þá ekki hugsa, tala eda gjøra neitt illt, ef Gud á ekki ad hætta ad elska þig. Hugsadu opt med sjálfum þér: gódur Gud veitir mér dags daglega svo margt og mikid gott, minn matur og drykkur kémur frá Gudi; þegar svefnin endurnærir mig, foreldrar mínir gledja mig eitthvad, og mér þykir gaman ad vera í hóp med ødrum børnum, má eg þakka Gudi mínum fyrir það, hann vil eg elska yfir alla hluti fram, og aldrei styggja hann med neinnri synd, „hví skyldi eg gjøra þvílíka óhæfu, ad syndga á móti mínum Gudi" — En ætli sá gódi madur, sem vid ádan tølud-

um um, hafi framvegis viljad hjálpa því vanþakkláta barni og gjøra því gott? B. Ekki gét eg trúad því; F. Efad þú værir nú slæmt barn, og vildir hvørki hlýda Gudi né mønnum, gjætir þú þá gjørt þér vissa von um ad hann framveigis vildi vera þér gódur fadir? B. Nei. F. En ef ad þú féllir í sjúkdóm, eda ratadir í einhvørja ólukku, ætli þú gjætir þá vonast eptir, ad hann vildi hjálpa þér? B. Nei; F. Hvørsu aumlega stædi ekki á fyrir þeim manni, sem allt af mætti vera hræddur fyrir straffi frá Gudi, sem ekki þyrdi med neinnri vissu ad vænta sér nokkurrar hjálpar eda velgjørníngs af hans hendi? B. Víst stædi aumlega á fyrir þeim manni; F. Heyrdu nú og taktu eptir! hvørju Gud lofar þeim sem hann óttast og elska:

Rómv. 2, 6—8. 9—10. Gud mun gjalda einum og sérhvørjum eptir hans verkum, þeim, sem med stødugleika í gódum verkum leita vegsemdar og heidurs og ódaudlegleika, mun hann géfa eilíft líf; en yfir þá sem eru mótsnúnir og ekki hlýda sannleikanum, en fallast heldur á ránglætid, skal koma reidi og hefnd, hrellíngar og harmkvæli skulu vera yfir allra manna sálum sem íllsku drýgja.

Heidur, vegsemd og frid skal hvørr sá ødlast sem gott gjørir. Sálm. 34, 10, 11. (Sjá 10. Samtal, bls. 24.)

Sálm. 91, 14 — 15. Af því sá hinn ráðvandi, sem treystir mér, hefir føgnuð af mér, mun eg frelsa hann (segir Drottinn,) eg vil upphefja hann, af því hann þekkir mitt nafn, hann skal ákalla mig, og eg vil bænheyra hann, eg er hjá honum í neyðinni, eg mun frelsa hann og gjøra vegsamlegann.

Malak. 3, 17 — 18. Þeir sem óttast Drottinn, þeir skulu vera mínir, seigir Drottinn allsherjar, á þeim deigi, þá eg tilreiði mér mína eiginlega eign; og eg skal vægja þeim, eins og maður vægir syni sínum, sem þjónar honum. Þá skal yður gèfa á að líta þann mismun, sèm er á milli réttláts manns og óguðlegs, á milli þess, sem Guði þjónar, og hinns, sem ekki þjónar honum.

Es. 3, 10. Seigið til hinna guðhræddu: að þeim muni vel vegna, því þeir munu njóta ávaxtar verka sinna.

## 22.

F. Viltu nú ekki heyra søgu af einu góðu barni? B. Jú! það vil eg feigin. F. En ef þér þykir hún vera leiðinleg? B. Nei, frásøgurnar yðar leiðast mér aldrei. F. Hlustaðu þá eptir! eg ætla að seigja þér søgu af lukkulegu og blessuðu barni.

Það var einusínni góður og stiltur dreingur, sem elskaði svo heitt foreldra sína, að hann ángr-

adist mjøg af því, þegar hann vissi sig hafa styggt þá í einhverju, í hvad litlu sem það var, og þó honum hefdi ordid það óvart á. Uppá ékkért héldt hann meira í heiminum, enn fødur sinn og módur sína; þegar þau urdu eitthvad veik, eda þeim annarsvegar mætti nokkud ógédfeldt, vard hann lángtum hryggvari af því, heldurenn þó honum sjálfum hefdi viljad það til. Þegar það bar vid, ad honum yrdi eitthvad á, í því sem hann átti ad gjøra, var hann vanur ad segja: æ, eg vildi nú vinna til ad lída straff og missa allt sem eg á, svo ad foreldrum mínum ekki þækti vid mig, eg gét ekki hugsad til þess, ad þeir verdi reidir vid mig. Módir hans var nokkud brádlynd, og vard þess vegna opt offljót til ad straffa hann, - ødruhvørju straffadi hún hann líka ofhardt; en hann umbar þetta brádlyndi hennar, og lét aldrei á sér heyrast, ad hún nokkurntíma gjørdi sér rángt til, og jafnvel þó hún slæi hann án orsaka, kom eingin ólund í hann fyrir það, heldur hljóp hann jafnskjótt upp um hálsinn á módur sinni og kyssti hana; þegar hann sá eitthvad ljótt til vinnufólksins eda systkyna sinna, sagdi hann stundum fødur sínum frá því heimuglega, þegar annars var mikid í það varid, en stædi það á litlu, þagdi hann yfir því hreint. Næstum aldrei þurftu foreldrar hans ad minna hann á, ad taka kverid sitt til ad fara ad lesa eda læra, hann fór al-

ténd snemma á fætur, og gékk með glöðu bragði til þess sem átti að segja honum til; þegar hann lék sér, var hann aldrei ofsa kátur eða óstilltu- og galgopalegur, ekki heldur afundinn eða harðleikinn við hin börnin, sem vóru að leika sér með honum, altaf vildi hann vera að gjöra eitthvað, sem til gagns mátti vera, og aldrei fór hann að leika sér, nema honum væri það lofað.

Það bar opt við, að þegar systur hans var skipað að sækja eitthvað, hljóp hann til þess, að verða á undan henni, og þóknast með því foreldrum sínum; hann þakkaði ástúðlega fyrir sig, hvað lítið sem honum var géfið, og þó hann feingi ekki nema brauðbita í höndina; aldrei fór hann svo að borða, að hann beiddi ekki Guð að blessa sig, og minnti líka opt systkyni sín á það. Opt var hann að segja hinum börnunum frá því, hvað foreldrar sínir væru sér góðir; til einkis lángaði hann meira, enn að géta gladt foreldra sína, og verið þeim til vilja; þess vegna lét hann heldur systkyni sín gjöra sér rángt til, enn að géfa sig við þau í deilur og rifrildi, foreldrum sínum til styggðar. Einusinni þegar hann hafði komist í þras við hin börnin, skammaðist hann sín, og lét liggja illa á sér, því hann vildi ekki að foreldrar sínir þyrftu að ángrast yfir sér, né sín vegna að verða reiðir; þess vegna kom hann sér vel við alla, og allir vóru líka hon-

um gódir; kénnarar hans héldu meira uppá hann enn hin börnin, því hann var þægur þeim og eptirlátur og skyldfólkinu þókti ofurvænt um hann. Þegar hann var nú ordinn stór, og búinn ad læra, blessadi Gud hann audsjáanlega med vyrdíng, vinsæld og efnum og gaf honum góð og hlýdin börn. Þegar fadir hans var dáinn, tók hann módur sína til sín; þessa gömlu og heilsuveiku konu, héldt hann áfram ad vyrda og elska, allt eins og á medan hann var hjá henni barn, en hún hætti heldur aldrei ad bidja til Guds fyrir svo gódum og elskulegum syni, og óskadi honum allrar gjæfu og blessunar, med mörgum fögrum tárum þegar hún dó, og Gud lét ei þessarar gódu módur óskir óbænheyrdar, því sonur hennar vard mesti lánsmadur, ástsæll og audugur og öll lita börnin hans út fyrir ad verda mestu lukkumenn; hann lifir enn vid góda heilsu, gladur og rólegur í elli sinni.

## 25.

F. Eg verd líka ad segja þér, barnid mitt! hvad presturinn kénndi nýlega börnunum, þegar hann var ad spyrja þau, og vil eg þá heyra meiníngu þína þar um: hugid eptir, börn! sagdi hann, hvad þid erud foreldrum ykkar um skyldug; af þeim hefir Gud látid ykkur fá lífid, án þeirra nákvæmu adhjúkrunar, hefdud þid strax dáid eptir fædínguna, þeir hafa borid umhyggju fyrir

ykkur, áður enn þið munduð til ykkar, og frá fyrstu stund ykkar lífs, fædt ykkur, drykkjað og klædt, þeir hafa varað ykkur við öllu því, sem íllt er, og áminnt til góðs; þeir eiga allt sem þið eigið, þið eigið ykkur ekki sjálf, þið eruð þeirra hold og blóð, og eiginleg eign, þess vegna hefir Guð géfið ykkar kjæru foreldrum, fullkominn rétt yfir ykkur, hann hefir leyft þeim, og énda skipað, að straffa ykkur, þegar þið eruð óhlýðin, og gjörið það sem rángt er; þeir skulu á síðasta deigi, svara Guði fyrir það, ef þið søkum þeirra vanræktar og vangjætslu ratið í ólukku, øll medøl hljóta þeir því að brúka til að betra ykkur, og gjøra að guðhræddum, vísum og vænum mønnum; það er því ykkar fyrsta og helsta skylda að gjøra allt, sem þessir góðu foreldrar af ykkur heimta samkvæmt Guðs vilja, og ætíð sýna þeim hlýðni, virðíngu, ást og elsku, gleðja þá og þakka þeim og tjá þeim aptur á móti allt gott, sem ykkur er fremst møgulegt. Þetta er sú fyrsta og stærsta skylda, sem þið hafið við menn; hvør sem vanrækir þessa skyldu, er í Guðs augliti andstyggilegur, fyrir vondsku sína og vanþakklæti, en hvørn þann, sem gjætir sinnar skyldu við foreldrana, hefir Guð lofað að elska, blessa og gleðja með margskyns gjæðum, hann skal fá að lifa leingi og meðan hann lifir skal honum ætíð líða vel. „Verið þessvegna, børn! hlýðin foreldrum yðar, því þett-

að er rétt: heiðra föður og móður, það er hið fyrsta boðorð sem fyrirheit er lagt við". Svona talaði nú Presturinn, - heldurðu að hann hafi haft rétt fyrir sér? B. Æ, hvörsu skammast eg mín, elsku ɜ ápi minn! að eg hefi ekki allténd gjætt þessarar skyldu minnar, og að eg hefi svo opt móðgað yður og styggt, já, eg er yður um alla hluti skyldugur, þér hafið ásamt með henni mömmu minni góðu, sædt mig og klædt; þér eruð alltaf eins góðir við mig og berið fyrir mér umhyggju, þó eg svo opt hafi af mér brotið elsku yðar, svo leingi sem eg lifi, vil eg heiðra og hlýða ykkur, foreldrum mínum, og aldrei gleyma að þakka ykkur fyrir það, sem þið hafið gjört mér gott, eg vil biðja Guð að launa ykkur fyrir mig í staðin! F. Og eg vil líka elska þig, góða barn! fyrir þetta þitt loforð og óska þér góðs, berðu þig einúngis að efna það, svo mun Guð og blessa þig og láta þér ætíð vel vegna.

## 24.

F. En veitstu, barnið mitt! hvörjum þú átt að hlýða fleirum enn foreldrum þínum? B. Þeim sem eru að kénna mér; F. Þú seigir satt, þú átt að elska og hlýða kénnendum þínum, því við höfum salið þeim á hendur að kénna þér fyrir okkur og straffa þig, þegar þú ert óhlýðinn þeim; þegar þú hlýðir þeim, hlýðir þú okkur, og þegar þú ert baldslýrugur þeim, ertu líka baldslýrugur okkur.

En eg meinti þó til enn annara, nefnil. yfirvolds-
ins; B. Yfirvaldsins, hvørsvegna á eg ad hlýda
því? eg hefi opt verid ad huxa um, hvørsvegna
yfirvaldid hafi rétt til ad bjóda mønnum og banna
og hafi yfir þeim ad segja. F. Þennan rétt eda
myndugleika hefur Gud géfid því, og mennirnir
hafa líka viturlega og med ásetníngi falid því þetta
á hendur, eda trúad fyrir því; hvad heldurdu um
þad, ef einginn madur væri til, sem straffadi þjófa
og mordíngja, mundir þú þá géta verid óhrædd-
ur um þig, hvar sem þú værir, og þeir kynnu ad
hitta þig, mundu þá ekki illrædismenn verda vísir
til ad brjótast inn í hús manns, eda kveikja upp
í bæjunum, svo ad þeir gjætu bædi rænt og stol-
id, er þad þá ekki gott og ómissandi bædi fyrir
mig og þig og alla, ad Yfirvøld séu til, hvørjum
géfinn er réttur til ad straffa þjófa, mordíngja og
adra illrædismenn? B. Yfirvaldanna má þá víst
ekki án vera; F. Er þad ekki líka mikid gott, ad
þau vidhaldi eining og fridi milli nágranna og
innbúa landsins, hjálpi hvørjum fyrir sig og øll-
um til ad ná rétti sínum og beri umhyggju fyr-
ir øllu því, sem heyrir til almenníngs gagns? B.
Líka er þad mikid gott; F. En ef þau ega ad
géta þad, megum vér til ad hlýda því, sem þau
skipa oss, svo þau géti komid svo mørgu gódu til
leidar, sem óskandi væri, en þá hlýtur þad ad vera
vor skylda ad greida þeim gjald í stadin fyrir erf-

idi þeirra og fyrirhøfn, því mikid hafa þau fyrir þessu, og vaka meiga þau dag og nótt, til ad sjá um ad allir meigi lifa í nædi og gódum fridi. og hvørr einn meigi vera óhultur um sig og sitt, lítinn tíma hafa þau afgángs til ad vinna sér inn braud med ødrum hætti. Heldurdu ekki ad mikill kostnadur útheimtist til ad halda strídsfólk til landvarnar, og til ad verja líf og góts á ófridartímum? setja Yfirvøld hærri og lægri og launa þeim, svo ad lifad géti; ad búa til og halda uppi alfara-veigi og þjódbrautum, og láta kirkjur, þínghús og skóla vera ætíd í gódu standi? þessvegna er þad réttvíst og sanngjarnlegt, ad vér ekki einúngis hlýdum Yfirvøldunum, heldur borgum þeim árlega þeirra tekjur og tolla, svosem: skatta og tíundir m. fl., sem vér erum skyldir út ad svara; þad er líka Guds vilja samkvæmt og hann hefir hótad ad straffa þá alla, sem setja sig upp á móti Yfirvaldinu, en sá sem því er hlýdinn þarf ekki ad óttast, því Gud og Yfirvaldid verndar hann. O, þakkadu Gudi, barnid mitt! ad hann lætur þig líka njótandi verda þessarar verndar og lífdu svo, ad Yfirvaldid fái aldrei orsøk til ad straffa þig.

Ebr. 13, 17. Hlýdid ydar kénnifedrum og látid ad ordum þeirra, því þeir vaka yfir sálum ydar, svo sem þeir, ed reikning eiga ad standa, svo þeir géti gjørt þad med gledi, en ekki med and-

vørpun, því þar hafið þér ekki gott af.

Matth. 22, 21. Gefið það Gudi hvað Guds er, og Keisaranum hvað Keisarans er.

Rómv. 13, 1. 2. 4. 5. 6. 7. Hvør madur sé valdstjórninni undirgéfinn, því eingin er valdstjórn nema af Gudi, og sú valdstjórn sem er til, er af Gudi tilskikkud, svo hvørr sem mótstendur valdstjórninni, sá stendur á móti Guds skipun, en þeir sem á móti standa, munu yfir sig leida dóms áfelli; því hún er Guds þénari, þér til góda, en ef þú gjørir íllt, þá máttú vera hræddur, því hún ber ekki sverdið forgéfins, þared hún er Guds þénari, til ad straffa þá sem ílla breita.

Þessvegna er það naudsynlegt, ad vera undirgéfin, ekki einúngis vegna straffsins, heldur og fyrir samvitskunnar sakir — því þarfyrir gjaldið þér og skatt, vegna þess þeir eru Guds þjónar, sem vid þá þénustu sífeldt eru bundnir. Svo géfið hvørjum það, sem þér skyldugir erud, þeim skatt, sem skatt eiga, þeim toll sem toll eiga, þeim ótta sem ótti tilheyrir, þeim heidur sem heidur heyrir.

## 25.

F. Líkar þér þad vel, barnid mitt! þegar adrir móðga þig saklausann, atyrda og berja?
B. Þad getur ekki líkad mér, og félli mér sár-

illa; F. Þú vilt þá ekki, að aðrir gjöri þér íllt til? B. Nei. F. Svo þækti þér ekki heldur betur, ef að aðrir töludu illa um þig á bak eða brjóst, eða tældu þig með fagurgala og uppgjörðarlátum, og bæru um þig allslags lýgi? B. Það vildi eg ekki hafa. F. Mundu þá ætíð, barnið mitt! til þessarar greinar: „Hvað þú ekki villt að mennirnir gjöri þér, það skaltú þeim ekki heldur gjöra." Aðrir menn ángrast líka af því, ef að þú ert óþýður og afundinn við þá, og víst munu þeir breita eins við þig, þegar þeim géfst færi á; því svo eru flestir menn gjörðir, að þeir vilja endurgjalda þeim með illu, sem íllt hafa gjört þeim, og hvörr vandaður velþeinkjandi maður, sem kjæmist að raun um það, mundi hata þig og fyrirlíta sem annann íllhreysíng, en er þarámóti ekki gott við góðan mann að eiga, og hvað fallegt er ekki að vera í umgeingni blíður og prúður? hvört viltu heldur umgángast ónotalegann og búralegann rifbalda eða þann mann, sem er ástúðlegur, siðsamur, stiltur og hógvær? B. Heldur vil eg umgángast með þeim sem er ástúðlegur; F. Ef að þér yrði eitthvað á, óskaðir þú þá ekki, að aðrir menn vildu fyrirgéfa þér? B. Jú, þess vildi eg óska; F. Opt erum vér að þrotum komnir, svo vér líðum skort, verðum líka opt veikir og þurfum annara hjálpar við, væri þá ekki vænt, að aðrir, þegar svo ástæði, vildu lána oss það, sem vér þyrftum

með, vitja okkar, þegar sjúkir værum, og senda oss mat eda drykk, sem hressti oss, hugga oss í hørmum vorum, og hjálpa með ráðum og dáð? B. Víst væri það vænt; F. Þú vilt þá láta adra menn gédjast þér með þessu? B. Jú. F. „Hvað þú vilt þá að menn gjøri þér, áttú líka að gjøra þeim." Matth. 7, 12.

Lúk. 6, 37—38. Dæmið ekki ómildt um adra, að ekki dæmi þeir ómildt um yður, sakfellið eigi, að þér eigi verðið sakfeldir; fyrirgéfið, þá mun yður fyrirgéfið verða — géfið, svo mun yður géfast; því með þeim sama mælir er þér mælið ødrum, mun yður aptur mælt verða.

## 26.

F. Ungmenní nokkurt var einusinni um nætturtíma á ferð, og átti yfir fjall að fara, mætti hann þar nokkrum stigamønnum, sem að flettu hann føtum, lømdu og létu hann þar eptir hálfdauðan liggja. Morguninn eptir fóru nokkrir miskunarlausir menn um sama veg, þeir sáu hann, hvar hann lá, og gat aungva bjørg sér veitt, en þeir geingu framm hjá honum; rétt á eptir gékk um veigin útlendur maður, undir eins og hann sá þessa mannsképnu í sárum, hljóp hann af baki hesti sínum og þángað, hvar madurinn lá, og bátt um sárin; að því búnu lét hann hann á bak og flutti heim að næsta bæ, bað þar fyrir hann og

fékk húsbóndanum peninga til ad veita honum beina og gjøra honum til góda; hvørr var nú beztur madurinn af þessum? B. Sá sem gjørdi vesĺingnum gott; F. Þykir þér þá ekki eins mikid koma til þeirra hardúdugu og ómiskunsømu manna, sem ekkért vildu skipta sér af aumingjanum? B. Nei, þad voru mannfílur. F. Ómiskunsemin vid þá aumu er þá bædi skadleg og svívyrdileg? B. Þad er víst. F. Mannelska og miskunsemi er þá líka lofsverd og ærurík? B. Jú. F. Þegar sá gódi madur kom til baka, og heyrdi, ad þeim særda manni, sem hann hjálpadi, var batnad, heldurdu ekki ad hann hafi gladst af því? B. Jú, eg hefdi gladst af því líka; F. Og aumínginn sem hann bjargadi frá dauda, mun hann ekki hafa hjartanlega þakkad á eptir velgjørara sínum? B. Þad hefir hann víst gjørt. F. Þad er þá ánægja ad gjøra gott og vekur hjá oss sjálfum mikla gledi? B. Þad er satt; F. Hvørsu sæll má Gud vera, barnid mitt! sem gjørir svo mørgum mønnum margt og mikid gott, sem øllum hjálpar, sedur svánga og lætur sjúka aptur heilbrigda verda, géfur aud og allsnægtir, ættum vid ekki ad leitast vid, sem optast, adnjótandi ad verda líkrar sælu og gledi, sem Gud nítur, af því ad gjøra sem flestum gott, sem vér til náum? B. Jú. F. Ástundadu ad gjøra svo mikid gott sem þú gétur, og muntu gladur verda, því þú finnur med sjálfum

þér, að þegar þú gjørir gott, ertú góður maður og uppbyggilegur; mundu þá ekki aðrir menn líka vyrða þig mikils og elska þig, og fúsir sýna þér hjálp aptur á móti? B. Það held eg víst þeir mundu gjøra. F. Hefir Guð ekki velþókn- un á þér, þegar þú gjørir það, sem hann vill og hann sjálfur gjørir? B. Jú, en af hvørju vitum vér þá, að Guð hafi velþóknun á því, þegar vér látum øðrum vora elsku í ljósi? F. Af því að hann vill að vér skulum vera eins og hann er, og af því hann hefir boðið það „þú skalt elska Guð af øllu hjarto, og náúnga þinn eins og sjálfann þig" Matth. 22, 27. líka af því að hann seigir að þeir einir elski sig réttilega, sem elski aðra menn og gjøri þeim gott: „Ef nokkur seigist elska Guð, en hatar sinn bróður, sá er lyg- ari, því hvørr sinn bróður ekki elskar, þann er hann sjer, hvørnin má hann Guð elska, þann er hann sjer eigi" 1 Jóh. 4, 20. En viltú ekki fá að vita, hvørt þú einn- ig elskar Guð af hjarta? B. Jú; F. Það er viss vottur þess, að þú elskar Guð, ef þú gjørir ekkért íllt af ásetníngi, en auðsýnir øllum mønnum svo mikið gott, sem þér er møgulegt, þá sjá menn af því, að þú elskar bæði Guð og menn réttilega. Guð elskar þig þá líka, og kannast við þig, sem sitt barn, og endurgéldur þér með góðu; enn fremur mundi hann ávallt gleðja þig fyrir

góðsemi þína og greiðvikni, er þú hefir auðsýnt øðrum, því hvað vér høfum gjørt þeim umkomulitlu og lítilmótleguſtu af mønnum, álítur Guð að vera eins og sér gjørt. Matth. 25, 40.

1 Cor. 13, 4—7. Kjærleikurinn er umburðarlyndur, góðviljaður, ekki øfundsjúkur, ekki raupsamur, ekki hrokafullur, gjørir ekkért ósæmilegt, er ekki sérplæginn, ekki fljótur til reiði, tilreiknar ekki íllt, gleður sig ekki af óréttvísi, en elskar ráðvendni, er þagmælskur, trúir øllu, vonar allt, umber allt.

1 Jóh. 3, 18. Látum oss ei elska með orði og túngu, heldur með verki og sannleika.

En Guð sjálfur géfur svo gott og mannkjærlegt hjarta, og frá honum koma vitsmunir, efni og allir góðir hlutir, með hvørjum vér gøgnum øðrum og gjørum gott. B. Ó! að Guð vildi einnin géfa mér það! F. Það er føgur og góð ósk, barnið mitt! einaſta bið hann þess af alúð: góði Guð! géf þú mér góðann skilning og stjórna jafnan hjarta mínu, að það mætti vera gott og mannelsku fullt, gjørðu mig hæfann til þess að géta komið sem flestum að liði, með hjálp og gjøfum, og ætíð reiðubuinn, að gledja alla þá, sem eg gét náð til, svo að eg mætti verða góðgjarn, eins og þú ert góðgjarn, og aðrir mættu þakka þér, að þú gjørt hefir mig að góðum manni.

## 27.

F. Er þad þægilegt ad vera hugsjúkur og ángurvær? B. Nei! Eg vil ad alltaf liggi vel á mér; F. En ef til væru þeir menn, sem særast af því og svídur þad, ad ødrum geingur vel? þækti þér þad ekki vera aumir menn? B. Jú. F. Ættu þeir ekki heldur ad gledjast af því, ad ødrum geingur vel? B. Nær væri þeim þad; F. Og er þad ekki skammarlegt, ad madur skuli hata adra fyrir þad, ad Gud hafi géfid þeim meira enn oss? B. Jú, þad er víst skammarlegt. F. Vildir þú feginn vera med þeim børnum, sem ømudust vid þér, fyrir þad þú værir stærri og frídari, eda ættir fallegri føt? B. Ekki lángar mig neitt til þess. F. Þú sjerd þá, barnid mitt! hvørsu skammarlegur løstur øfundin er; øfundsjúkir menn kvelja sig sjálfir med óþarfa ángursemi, þeir eru ílla þokkadir og hatadir af ødrum; allir sem þekkja þeirra vonda hjartalag, fordast þá, og vilja hafa sem minst saman vid þá ad sælda; sjádu nú hve heimskulega ad þvílíkir menn bera sig til, hvad hjálpar þeim þad, ad þeir øfunda adra, munu adrir fá minna fyrir þad, þó þeir óski þess af øfundsýki sinni? B. Nei. F. Eda fá þeir þarfyrir sjálfir meira? B. Nei, ekki heldur; F. Þegar húsfadir eda húsmódir er ad skamta børnum og hjúum, munu þau láta hjúid eda barnid seigja sér til,

hvad mikid géfa skuli hvørju fyrir sig, eda fara eptir því sem þad vill? B. Þad væri ósætt barn eda hjú, sem þannig vildi setja sig upp yfir húsbændur sína og taka framm fyrir høndur á þeim, eda setja þeim skamt í útbýtíngu þess, sem þeir eiga med, en ekki þau; F. Hvørsu ósvífinn er þá ekki vondur og øfundsjúkur madur, sem setja vill Gudi reglu fyrir því, hvørnin hann skuli skipta sínum gáfum? mun Gud elska slíkann mann? B. Hvørnin má hann géta elskad hann! F. Hvør sem er øfundsjúkur, straffar sig því sjálfur og má sannast á honum, ad mørgum komi makleg hefnd, þar sem hann aldrei sjer gladann dag, vegna þess hann sjer, ad ødrum lídur vel, hann er í ónád hjá Gudi, og allir þeir sem þekkja hann, fordast hann, og héradauki mun þad sjaldgjæft, ad øfundsjúkir menn séu fúsir ad hjálpa ødrum, gjøra miklu fremur ødrum íllt bædi til orda og verka, þaraf kémur, ad margir, sem ekki eru því betri menn, eru ófúsir ad hjálpa þeim aptur, þeir tala aptur á móti illa um þá og gjøra þeim opt vísvitandi og viljandi skapraun. Hvør sem þarámóti gledst af því, ad ødrum geingur vel, er ánægdur jafnan, og óskar øllum góds, hann er fús ad hjálpa hvørjum, sem hann gétur og er því Gudi og mønnum vel þekkur. Burtræt úr hjarta mínu, gódi Gud! þá vondu øfundsýki, þú ert Drottinn! allsrádandi og mátt géfa hvørjum þad sem

þú vilt, eg vil ekki møgla móti þér, þó eg meigi opt sjá, að aðrir hafa meira feingið enn eg; þú ert vís að géfa mér meira, gjæðskuríki Skapari! ef þú sjerð mig þess þurfa, þú munt veita mér svo mikið, sem mér má nægja, eg vil ekki gyrnast meira enn þú vilt mér veita og sjerð mér þénanlegt, lát mig óttást og elska þig, og jafnan vegsama þig fyrir allt það góða, sem þú lætur mér í té.

Jak. 3, 16. Hvar sem øfund og deilur eru, þar er vanskikkan og øll ill viðskipti.

Jak. 4, 2. Þér hatið og øfundið aðra, og vinnið þó ekkért með því.

## 23.

F. Sástu ekki áðan, barnið mitt! litlu dreingina, hvørsu þeir rifust ákaft, atyrdtu og spóttuðu hvørjir aðra og flugust á uppá síðkastið? var ekki ljótt að sjá það? B. Jú, það var andstyggilegt að sjá, en fólkið, sem hjástóð og horfði á, hló þó að því! F. Það sýndi líka lítið meira vit í því, og síður enn ekki gott hjarta — hvørt á maður heldur að hryggjast eða láta sér þykja vænt um, þegar aðrir menn gjøra það sem íllt er? B. Að hryggjast. F. Og er það ekki íllt, þegar børnin venjast á reiði og osstopa, og til að spotta og atyrða aðra? B. Jú. F. Víst er það íllt, barnið mitt! því venji þau sig á það í æskunni, halda þau því áframm þegar þau

verda stór eda eldri; þar af koma brádlyndir og áslogagjarnir menn, sem vid hvørt lítilrædid støkkva upp, og fara ad rífast og deila vid adra, og ef ad allt er ekki eins og þeir vilja, sýna þeir allskonar óþægd og ónot til orda og verka; hvørsu leidinlegt er ekki ad vera med þrætugjørnum manni, og þeim brádlynda er ætid hætt vid ad spilla heilsu sinni. Hvad sem madur í brædi etur og drekkur, gétur audveldlega ordid ad eytri og ólifjun, svo ad menn þrífast ekki þaraf. Skyldi madur ekki allt til vinna, til ad vidhalda fridi? B. Jú — en efad einhvør móðgar oss, eda gjørir rángt til, meigum vér þá ekki verja oss? F. Sé mótgjørdin stór, barnid mitt! hefir Gud géfid børnunum foreldra og kénnara — og þeim fullordnu — yfirvaldid; vid þá á madur ad bera sig upp, og kvarta fyrir þeim, sé madur í beiglum staddur, eda hafi ordid fyrir ójøfnudi af ødrum, þeir meiga og eiga ad láta oss ná rétti, og sjá til, ad sá sem íllt gjørdi, komist ekki strafflaust af, en sé mótgjørdin lítil, er leyfilegt ad finna ad og leida þeim óréttinn fyrir sjónir, sem hann sýndi, og seigja ad þad sæmi ekki gódum og kristnum mønnum, ad ángra adra, reita til reidi eda smána þá — og þad nægir þá — þvílík hógværd og umburdarlyndi er og fyrir oss ómissandi, því ef vér gjøldum skammir fyrir skammir, og egnum upp annara íllt skap, kémur þaraf enn meira hatur, deilur og

fjandskapur, svo ad vér eigum alltaf í sífeldu stríði. Er ekki þetta leidinlegt? er þad ekki skammarlegt og svívyrdilegt, ad vera þrætukjær, og ekki einasta skammarlegt, heldur líka andstyggilegt fyrir Gudi, því vill Gud ekki ad sképnum sínum lídi vel? B. Jú. F. En gjörir ekki þrætugyrni, ertíngar og ósáttgyrni líf vort aumt og leidinlegt? B. Jú, vissulega. F. Mun Gud ekki straffa þá, sem setja sig á móti hans vilja? og hlada á sképnur hans eymd? B. An efa mun hann gjöra þad. F. Hann hefir líka hótad ad hrella þá aptur og ekki ad fyrirgéfa þeim þeirra syndir, sem ekki vilja fyrirgéfa ödrum þær mótgjördir, sem þeim hafa verid sýndar. Bidur þú ekki í „Fadir vor" fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum? B. Jú. F. Er ekki þetta med ödrum ordum: ef eg ekki fyrirgéf þeim, sem mér á móti brjóta, þá straffadu mig, ó Gud! og fyrirgéf mér ekki heldur! og hvad skélfilegt er ekki hér til ad hugsa! hvörnin skyldi þá vondur og hefndargjarn madur géta vogad ad bidja med bæninni „Fadir vor"? B. Þad gét eg ekki skilid. F. Er þá reidi- hefndar- og ósáttgyrni hættulegir lestir? B. Öldúngis víst, því ad slíkar syndir mun Gud straffa. F. Hann mun þá líka aptur á móti blessa þá, sem ljúflega slá undan, og umbera mikid íllt med þolinmædi, sem ad

eru hógværir, sáttgjarnir og fridelskandi? B. Já, því ad Gud umbunar allt gott. F. Pad er rétt. En ef þér verdur misbodid og þér rennur í skap, og þér finnst þúngt ad lída ádeilur, meingjørd og ójøfnud, hvørsu fljótt mundi þér þá ekki verda hætt vid ad gleyma þessum heilsusama lærdómi? huxadu þá til þess, sem eg hefi nú sagt þér, ad þad er bædi skammarlegt og skadlegt, ad vera reidigjarn og þrætukjær, ad Gud hefir andstygd á þvílíkum mønnum og straffar þá. Bid þá med sjálfum þér á þessa leid: Géf mér, gódi Gud! hógvært og þolinmódt hjarta, ad eg læri ad umlída óréttindin, og elski meir fridinn enn sjálfshefndina, ad eg treysti uppá þína hjálp og vernd, og umberi svo annara bresti og meingjørdir, og sé fús ad fyrirgéfa, einsog þú vilt fyrirgéfa mér.

Matth. 5, 5. Sælir eru hógværir, því þeir munu landid eignast.

1 Pét. 2, 19—20. Pad er nád, ef nokkur, vegna samvitskunnar um Gud, umber misþyrmingar, lídi hann síknsaka, því hvør frægd er í því, ad þér fyrir misgjørda sakir høgg lídid, en ef þér, þó þér breytid vel, lídid íllt og erud þolinmódir, þad ávinnur sér nád hjá Gudi.

Gal. 6, 1. Verdi nokkur fundinn ad einhvørri

synd, þá leidréttid þér, sem andlega erud sinnadir, hann med hógværd.

Matth. 6, 14. Ef þér fyrirgéfid ødrum þeirra yfirsjónir, mun ydar himneskí fadir fyrirgéfa ydur.

Kólofs. 3, 12. Svo skrýdist nú (eins og Guds útvaldir) heilagir og elskanlegir, hjartfólginni miskunsemi, gódvilja, audmýkt, hóglyndi, lánglundargédi, og umlídid hvørr annann.

## 29.

Einusinni einn gódaun vedurdag, gékk fadirinn út med barni sínu, snemma morguns; þegar þau voru komin út fyrir hlidid, sáu þau vidarrunna eda rjódur, tók þá barnid til fótanna og hljóp þángad á undan fødur sínum og fór ad horfa á maurinn. Hvad sjerdu þarna, barnid mitt! spurdi fadirinn. B. Mikinn sæg af smádýrum, sem eitthvad eru ad hafa fyrir stafni, þau hlaupa svo hardt fram og aptur; en hvad allt er kvikt á hólnum hérna! hvad er þad sem dýrin eru ad bera? F. Þau eru ad safna ad sér fædu; B. Hvørt þá? F. Undir þessum litla hól hafa þau gjørt sér holur í jørdina; um sumartímann eru þau á sífeldum hlaupum til og frá, og safna sér þá allskonar matmælum, og bera inní litlu holurnar sínar, en þegar veturinn kémur og snjór og klaki hylur jørdina, kúra þau

nidrí þessum hýbílum sínum, sem þau hafa búið til handa sér, og lifa af þeirri fædu, sem þau vóru sér út um, um sumarið. B. Þettad eru hyggin dýr, svo lítil sem þau eru; F. Þessa hyggni hefir Skaparinn kénnt þeim; er það þá ekki líka viturlegt, að vinna vel á vorin og sumrin, til þess maður hafi nokkud um vetrar tímann? B. Jú. F. Æsku árin eru, barnið mitt gott! vortími, og fullordins aldurinn, sem eg er á kominn, er sumarid af mannsins æfi, en þegar þessi ár eru liðin, kémur veturinn, sú gráhærða elli; hvør sem ekki vinnur vor og sumar á miðbiki lífsins, og er þá ydjusamur, hefur lítid og ekkért fyrir sig að leggja á ellinnar vetri.

Þegar fadirinn var að tala um þetta við barnið, tók hann ástúdlega í hendina á því og sagði: hvørsvegna hefir Gud géfid þér þessar hendur? géturdu unnið nokkud gott með þeim? B. Ojú; F. Hvad hefir þú þá gjørt gott með þeim í dag? B. Eg hefi klædt mig og þvegið mér, fór svo að borða; síðan lét eg gullin mín (og leikfáng) niður, sem eg var að leika mér að í gjær, í litla stokkinn sem þér gáfuð mér; F. Og hefirdu þá ekki annað gjørt? B. Nei! þér køllubud þá á mig, og við geingum út híngað; F. Ef þú nú gjørdir svo á hvørjum deigi, klæddir þig eina stundina, þvæir þér, greiddir og drykkir, létir svo gullin þín niður, og við geingjum svo

út til að skémta okkur; þegar við kjæmum heim aptur, færum við að borða aptur, og síðan að sofa; — mundi það ekki vera skémtilegt líf? B. Það mundi mér þykja skémtilegt; F. Svo? hvar mundi það lenda? þá væri maurinn hyggnari enn þú? mundi þá ekki bráðum eydast það, sem Guð hefir géfið oss, og hvað hefðum við þá í ellinni til að lifa af? B. Þér sögðuð mér nýlega að Guð væri vanur að forsorga þá, jafnvel í neydinni, sem elskuðu hann. F. Já, satt seigirðu það — þá sem hann elska. En elskar þá letínginn Guð, sem ekkért nennir að vinna? hvað helðurðu um það? er það sómi fyrir nokkurn föður eða móður, að eiga börn til að ala þau upp í leti og ómennsku? B. Nei. F. Lifa þá þeir menn Guði til dýrðar, sem vilja að sönnu vera hans börn, en eru letíngjar og nenna ekki að leita Guðs blessunar, sem hann frambíður þeim? B. Nei; F. Elskar sá Guð réttilega, sem ekki heiðrar hann, eins og honum ber, og hann ýtrast gétur? B. Það held eg frá; F. Guð mun þá ekki heldur forsorga þá í þeirri neyð, sem þeir hafa bakað sér sjálfir með leti sinni, því það er öldúngis víst, að það er Guðs vilji og boð, að vér skulum erfiða; hann hefur líka innrætt sálu vorri laungun til þess og uppörfað oss þar til með þeim margföldu gjæðum, sem hann í náttúrunnar ríki hefir lagt fram fyr-

ir oss, og sem vér gétum ei hlotid ød-ruvísi, enn med því ad bera oss eptir þeim; eda viltu ekki optast vera eitthvad ad gjøra? kanntú vid þig, þegar þú færd ekkért ad hafast ad? eda þegar eg straffa þig og læt þig máské standa hálfann daginn í króknum? B. Pá leidist mér mikid, og vildi heldur, ad mér væri sagt eitthvad ad gjøra. F. Vér erum skapadir af Gudi til ad erfida og eigum líka eptir hans vilja þad ad gjøra; sá sem líka venur sig á, ad vera ydjusamur, sneidir hjá mørgu íllu, sem letíngjanum og þeim ydjulausa er hætt vid; hvørr sem ekki gjørir gott, er vísastur manna til ad gjøra íllt; sá, ydjulausi er gálaus og eyrir hvørgi, veit ekki hvar hann á ad hafa sig, nema hjá sínum líkum, og ad hvørju eru þeir kynntir, sem þannig spilla þeirra dýrmætu tíd, og ekki nenna ad vinna? eru þeir ekki á sífeldu flakki út og inn, ødrum til leidinda, hlaupa svo á bæ-ina til ad sníkja, eda bera út fréttir, því ekkért handverk er þeim tamara, enn mælgi og mas, sem opt kémur sér illa; líklegt er, ad þeir væru opt svángir, og hvad þá þeir, sem forsorgun eiga ad þeim og heima sitja. Heldurdu ad eg um dag-inn hefdi gétad keypt þessa jørd, hefdi eg ekki átt peninga til? B. Nei. F. En ef eg ekki erf-idadi daglega eins og þú veist ad eg gjøri, mundi eg þá géta unnid mér mikla peninga inn? sjádu nú, barnid mitt gott! ávextiná af ydjusemi minni og

erfidi! þú gétur nú ímyndad þér, hvad okkur muni þykja vænt um þessa fallegu og góðu jørd, sem vid búum á, en — hvad túnid og eingjarnar eru gódar! en af hvørju spretta túnin okkar svo vel, nema af því vid høfum hyrdt svo vel um þau, borid út á þau áburdinn og varid þau, medan þau hafa verid ad spretta, svo sképnurnar gángi ekki á þeim eda bíti þau; þessu er nú ad þakka hvad þau eru grasgéfin, og á sumrin, þegar farid er ad slá, fellur af þeim meira hei, enn hjá mørgum ødrum, sem hafa lángtum stærri tún, hefi eg svo sjálfur haft best af þessari uppápøssun og erfidi mínu, enda á medan adrir áttu jørdina, og alltaf unnid mér í hag, þó aldrei hefdi eg hana gétad keypt, en þessvegna vard eg fær um ad kaupa hana, ad eg notadi mér hana sem best; þú hefur líka tekid eptir, hvad eg hefi látid mér vera antum, ad hyrda vel heyid, svo þad verkist vel og skémmist ekki í gardinum okkar; fáir slá þá vindhøggin mørg, þad er helsti bjargrædistíminn þeirra, sem búa til sveita, því þá má bóndinn til ad safna fódri fyrir sképnurnar sínar um veturinn; sumum af þeim verdur, eins og þú veitst, alltaf ad géfa inni og ødrum, þó úti gángi, ad géfa í frosti og hrídum.
B. Hvad hafast þeir þá ad, sem búa vid sjóinn?
F. Þeir hafa líka sína túnbletti ad rækta, og á vorin eru þeir ad hyrda um fiski-abla sinn, sem þeir hafa feingid af sjónum eptir veturinn; þeir

stunda sjóin helst og lifa af honum, eins og vid af sképnunum til sveita; á øllum ársins tíma, þegar vedur og gjæftir leyfa, róa þeir til fiskjar og fá opt mikla bjørg og blessun. Allstadar hvar menn eru, hafa menn nóg ad gjøra, ef menn gjætti þess; øll náttúran er eitthvad ad ydja og sképnurnar sem á henni hræradt; jørdin gefur af sér grasid og ávextina fénadinum til fódurs og mønnum til nota og allt sem hún veitir gott, er laun ydjuseminnar; sjádu hvørsu allt á jørdunni um þessar mundir er lifandi og gladt, grasid er sem ódast ad spretta, blómstrid og ávextirnir ad koma í ljós; fuglarnir eru ad búa sér til hreidur, því senn er komid ad varptíma þeirra; allir hlutir eru ad vinna manni í haginn og væri skømm fyrir oss, ef vér létum oss farast verr enn skynlausu sképnunum.

Þegar þau vóru nú ad tala um þetta sín á milli og vóru komin á leidina heim aptur, sáu þau áleingdar gánga gamlann mann, skjálfandi og hokinn; sjádu! sagdi fadirinn, þarna er lifandi vottur þess, hvad af leti og ómennsku leidir; þessi karlfugl hafdi erft talsverdar eigur eptir foreldra sína; í úngdæminu nennti hann ekki ad vinna, og komst svo upp í vana fyrir honum ydjuleysid; fødurleyfd sinni sóadi hann út, til þess ad hafa nokkud af ad lifa, sem ekki hrøkk til leingi; nú er hann fyrir laungu kominn á húsgáng og sveit.

Ef vid værum nú fátæk, mundum vid þá géta géfid honum ølmusu? B. Nei. F. Blessar Gud ekki þá sem fúsir eru á ad géfa fátækum? B. Jú, því hann launar allt gott. F. Ættum vid þá ekki ad vinna med elju og kappi, barnid mitt! svo vér átt gétum nokkud afgángs til ad géfa þeim sem vidþurfa? hvørsu inndælt er ekki, ad gjøra þeim fátæku gott og Gud hefir ætlad þeim endurgjald á himnum, sem bædi eru ydjumenn og gódgjørdasamir, því þótt vid høfum til einkis góds unnid hjá honum, þar vér erum honum um allt skyldugir, mun hann þó gjalda einum og sérhvørjum eptir hans verkum; hvørr sem gódu nidursáir, mun uppskéra gott.

Salóm. Ordskv. 6, 6—11. Þú letíngi! fardú til maursins og sjádu hans háttu, og verd hygginn; þó hann hafi eingann høfdíngja, yfirbodа eda herra, útvegar hann sér samt forda á sumrum, safnar sér atvinnu á haustin. Þú letíngi! ætlar þú leingi ad liggja? nær ætlar þú ad vakna? þú segir „eg verd enn nú ad sofa dálítid, blunda lítid, liggja svolítid med samanløgdum høndum." En þá skal líka fátæktin koma yfir þig sem ræníngi, skortúrinn yfir þig sem hermadur.

Sal. Ordskv. 12, 24. Rdjusøm hønd mun drottna, en sú lingérda verdur skattskyld.

Sal. Ordskv. 14, 23. Allt erfidi gefur nægtir, en ordin tóm leida med sér skort.

Sal. Ordskv. 20, 4. 13. Af því kaldt er, vill sá lati ekki plægja; hann mun snikja, þegar fara á ad uppskéra, en ekkért fá. Elska þú ekki svefninn, svo þú verdir ekki fátækur; hafdu þín augu opin, svo skaltu sedjast af braudi.

Sal. Ordskv. 24, 30—31. Eg gékk yfir letingjans akur, og framhjá víngardi hins fávísa, og sjá! á honum voru eintómir þistlar, allur var hann þakinn netlum, og gyrdíngin í kríngum hann var nidur fallin. v. 33, 34. 28, 19.

2 Tessal. 3. 10. Hvørr sem ekki nennir ad vinna, á ekki heldur mat ad fá.

## 50.

F. Brúkadu þá, barnid mitt! tíd þína vel og víslega, lærdu jafnan gott ad gjora. B. En þegar eg er búin ad læra, má eg þá ekki fara ad leika mér aptur, þad leifir mér víst gódur Gud? F. Já, Gud leifir þér hverja syndlausa skémtun; B. Hvad er þá syndsamleg skémtan. F. Þad sem madur gjörir annadhvørt sér eda ødrum skada med; sérhvad þad sem illt er í sjálfu sér og ósæmilegt. Er ekki manni leifilegt ad eta og drekka? B. Jú. F. En verdur þad ekki íllt, ef madur etur og drekkur um of? B. Jú. F. Sama er ad seigja,

ef þú vildir leika þér um of, bædi ofleingi og med glensi og gárúngaskap, þá yrdi skémtan þín syndsamleg. Er ekki sætur svefn inndæll og leifilegur? B. Jú. F. En ef presturinn svæfi þegar hann ætti ad prédika, eda dómarinn þegar hann ætti ad dæma, ætli þad væri rétt? B. Nei. F. Væri þad þá rétt, ef ad þú vildir vera ad leika þér, og gjøra ad gamni þínu, þegar þú ættir ad fara ad læra og eitthvad ad vinna, eda sofa altaf medan þú átt ad vaka? B. Nei, þad sje eg ad ekki væri rétt; F. En þegar mørg børn, medan þau eru ad leika sér, verda ill, brjóta allt í sundur, atyrda hin børnin, hrinda, lemja og meida þau, og stiggja foreldra sína, væri þad leifileg og syndlaus skémtan? B. Nei; F. En veitstu hvørsvegna Gud hefir leift mønnum skémtun? B. Af því hún er gód; F. Af því vér gétum ekki altaf verid ad erfida, en þurfum bædi ad hressa og hvíla sál og líkama; þarf sá ad styrkjast, sem hvorki er þreittur eda módur? B. Nei. F. Á þá ekki sá, sem erfidad hefur sig þreittan, ad fá ad hvíla sig, eda skémta sér? B. Eg veit ekki, þad held eg; F. Hvønær er sá rétti tími til ad skémta sér? B. Eg held þegar madur er búinn ad ljúka vid þad sem hann átti ad gjøra; F. Rétt er þad, þegar madur er búinn ad vinna, þad eru þau fyrstu laun, sem gódur Gud veitir oss fyrir erfidid, þá verdur skémtanin fyrst inndæl, og eins og lækn-

ísdómur fyrir líkama vorn og sál, með henni fáum vér þá líka, ef hún er í hófi og máta, nýa krapta til erfidis, verdum hréssir og gladir og upphvetjumst til ad lofa Gud, og hví skyldum vid ekki lofa Gud, barnid mitt! sem skapad hefir oss svo, ad vid notid gétum skémtunar og gledi? hann sem géfur okkur sképnurnar og vidheldur þeim oss til gagns, sem ad skrídir jørdina á vorin í yndislegt skart og hylur hana á sumrin og haustin med svo mørgum sætum og ljúfilegum ávøxtum. O, látum okkur med gladværd þakka honum og eptir hvørja skémtun eda ánægju sem vid njótum, prísa hann af øllu hjarta; þakkid Drottni því ad hann er gódur, og hans miskunsemi varir eilíflega! vér lofum þig, elskulegi Skapari! fyrir þad þú hefir géfid oss þad hjarta, sem gétur gladt sig og látid svo margar fallegar lifandi sképnur skémta oss og endurnæra. Vid viljum ætíd, jafnvel midt í vorri gledi, hafa þig og þín bodord fyrir augum, aldrei vísvitandi styggja þig, eda úr hófi njóta vorra lystisemda, en ætíd med glødu gédi þakka þér fyrir alla góda hluti.

Préd. 9, 7. Svo far þú og et þitt braud med gledi, því Gud hefir velþóknan á þínum verkum.

Préd. 11, 9. Gled þig, úngi madur! í þinni æsku, og lát þitt hjarta vera hrésst á døgum þinnar æsku, gakk þú á vegum þíns hjarta og ept-

ir sjón þinna augna; en vita skaltú samt, að Guð mun kalla þig til dóms fyrir allt þetta. Rómv. 12, 15. Vertú glaður með glöðum!

## 51.

F. Gádir þú ad litla dreingnum hans frænda okkar í gjärkvøldi, medan hann var ad borda? en hvad ánginn gat verid grádugur og ósedjandi! B. Víst tók eg eptir honum; F. Pókti þér fallegt ad sjá til hans? B. Nei, mér þókti þad ljótt. F. Veitstú af hvørju þessi vanart hefir komid hjá honum? B. Nei. F. Hann hefir, síd- an hann var ársgamall, verid vaninn á, ad eta og drekka mikid og nú fær hann aldrei nóg, þótt hann nærri því géti ekki torgad; hefir svo sídan optast- nær verid veikur og allá jafnan latur ad læra, því þegar maginn er fylltur um of, verdur høfudid heimskt, og sálin óhæfileg til lærdóms og eptir- tektar; gétur þetta líkad vel Gudi? B. Nei, því Gud vill ad vér séum ydju- og ástundunar- sam- ir. F. En kémur sér vel þessi grædgi hjá mønn- um? B. Nei, ekki heldur; sumir høfdu aldrei aug- un af dreingnum og þad var audsjed, ad þad gékk øldúngis yfir þá ad sjá til hans. F. Og fyr- irlitníngin o. s. frv.! sem af slíku óhófi flýtur, er þó þad minnsta hjá ødru illu, sem þaraf leidir. B. Hvad er þad? F. Þarf ekki sá, sem mikid etur og drekkur, mikid líka fyrir sig ad leggja til

vidurlífis? B. Ojú! satt er þad. F. Sá, sem mikils þarf vid og eidir miklu, gétur lítid af sér dreigid, og verdur ad lokum þurfamadur, eda hann sóar því, sem foreldrar hans hafa dreigid saman, á ekki heldur mikid til ad géfa fátækum, lána ødrum, eda gjøra gott med, en gétur sá sem lítid gjørir ødrum gott, vænt mikils góds af Gudi? B. Nei. F. Er þad þá ekki mikill og óbætanlegur skadi fyrir mann, ad venja sig á óhófid? B. Pad sje eg núna. F. Pó leidir enn meira íllt af drykkjuskapnum; sástu ekki fyrir skémstu drukkna manninn í veitslunni, hvørnin hann rambadi og reikadi? B. Jú, þad var hlæilegt ad sjá hann. F. En hvad hann drabbadi, allt eins og hann hefdi ekkért vit! er þó ekki vitid góð Guds gjøf? B. Víst er um þad. F. Er þad þá ekki stór synd ad drekka frá sér vitid? B. Jú, þad er stór synd. F. Ekkért gjørir mann eins svívyrdilegann, og ad ófyrirlátssømum flysjúng, eda eins frekann, óstírilátann og óhemjulegann, eins og þessi drykkjuskapar løstur; margir eru þess vegna komnir í fátækt og fyrirlitníngu. B. Eg skal vissulega bera mig ad vara mig vid þessu, þegar eg verd stór! F. Pú munt þá líka géta sneidt hjá mørgu íllu, en meiru gódu komid til leidar.

En eg vil seigja þér, hvørnin þú átt hægast med ad varast þessa óhófsseminnar lesti: vendu

þig á, að láta þér lynda, það sem við daglega géfum þér, hvrað u ekki, að maður muni af einsamallri fæðunni verða stór og sterkur og fríður, heldur af heilnæmum mat, sem maður neytir í hófi og máta, taktu við því litla, sem þú færð, með glöðu géði, þá mun það verða þér hollt og blessað af Guði, en bið umfram allt með sjálfum þér: góði Guð! géf mér ánægt sinni, að eg láti mér allt vel lynda, að eg ofþýngi mig aldrei með óhófi, né gjöri mig óhæfilegann til að vinna það, sem mér ber, svo eg njóta mætti þinna góðu gáfna með guðhræðslu og góðu géði, og þakki þér eins glaður, þegar eg sæ lítið.

Sal. Orðskv. 21, 17. Sá sem elskar gleði, mun líða skort; hvørr sem elskar vín, verður ekki ríkur.

Sal. Orðskv. 23, 20—21. Heyr þú, minn son! og vertú hygginn, vertú ei með drykkjumønnum, með þeim, sem eydileggja sitt hold! því drykkjumenn og óhófsmenn verða snauðir, og þeir, sem vilja sofa leingi, meiga opt gánga í rifnum føtum.

Ef. 5, 18. Drekkið ydur ekki drukkna af víni, því þaraf flýtur óheill.

Lúk. 21, 24. Jesús sagði: varið ydur sjálfa, að ydar hugskot aldrei ofþýngist af ofáti edur ofdrykkju. Gal. 5, 21.

## 32.

F. Hvørr er madurinn betri, sá sem er vel búinn, eda hinn sem er ílla klæddur? B. Sá sem er vel búinn. F. Hvørsvegna er hann betri? B. Fólk heldur meira uppá hann. F. Er hann þá skynsamari fyrir þad? B. Ovíst er það. F. Gjøra þá fallegu føtin hans hann dygdugri? B. Nei. F. Gétur ekki vondur madur, sem ad er svikari og svallari, verid líka í fallegum føtum? B. Ojú; F. Sá madur er þá í rauninni ekki heidursverdari sem berst mikid á, heldurenn hinn? B. Nei, ef hann hefur hvørki meira vit, né betra hjarta.. F. Rétt svarad b. g.! þú veitst þá í hvørju sá sanni heidur er innifalinn, ekki í því, ad madur sé í fallegum føtum, og enn sídur í því, ad vér sitjum ofar eda nedar, eda séum í hávegum hafdir af þeim, sem fara meir eptir búníngnum enn hjartalagi mannsíns, heldur í því, ad vér høfum gódann skilníng og vitsmuni til framkvæmdar því, oss ydja ber, og rádvant hjarta; en hvørr géfur okkur þetta allt? B. Gódur Gud géfur okkur þad. F. Er þá þess verdt, ad vér stærum okkur, þótt vid vitum meira enn adrir? B. Nei, því Gud hefur géfid oss vitsmunina. F. Eda skyldum vid upphrokast af því, þótt vid hefdum í einhvørju vel gjørt? því hvørr hefir géfid oss viljann og máttinn til þess? B. Gud. F. Hefir þá sá ríki rétt til ad fyrirlíta þá í

kríngum hann sem fátækari eru? B. Nei. F. Á ekki Gud hægt med ad svifta þann ríka gótsi sínu og eigum? B. Vissulega. F. Og þó einhvør væri svo frídur sem Eingill, væri þad vitlegt af honum, ad þykjast af því mikill, eda fyrirlíta þá, sem ekki væru eins frídir? hafa þessir menn géfid sér sjálfir frídleikann, heldurenn hvørja adra Guds gjøf, eda mundi Gud ekki géta látid þá verda ófrída og ljóta af sjúkdómum og ødru? B. Ojú, ef þeir feingju Bóluna. F. Og ekki einúngis þad b. m.! þad eru til þúsund tilfelli, sjúkdómar og plágur, med hvørjum Gud gétur týptad þá dramblátu. Mundu nú vel eptir því sem þú hefir heyrt og sagt: ekkért gott høfum vér af sjálfum oss tekid, Gud er þad, sem hefur géfid oss skynseminnar gáfu, og uppvakid sérhvørn gódann ásetníng í hjarta voru, sem géfid hefir oss þetta útlit og álit hjá ødrum. Vid skulum innilega þakka honum fyrir þad, tilbidja hann í audmýkt og fyrirlíta aungann, hafdú ætíd í minni þessa grein og huxadu eptir henni: „Gud mótstendur dramblátum en lítillátum géfur hann nád, audmýkid ydur þessvegna undir Guds voldugu hønd, svo mun hann á sínum tíma upphefja ydur".

Sal. Ordskv. 16, 18 — 19. Drambsemin fer á undan eydileggingu, og stolt á undan falli; þad er betra, ad vera audmjúkur í anda, med

þeim lítilmótlegu, enn að skipta herfángi með þeim drambláta.

Sal. Orðskv. 21, 24. Sá stolti og drambláti, heitir spottari, því hann sýnir þótta og fals.

Rómv. 12, 3. Hugi einginn hærra um sig, en hugá ber, heldur haldi hann hóflega af sér, og hyggilega, eptir því sem Guð hefir útbýtt sérhvörjum mælir trúarinnar.

1 Cor. 4, 7. Hvað hefir þu, maður! að þú hafir það ekki þeigið? en ef að þú hefir þeigið það, því hrósar þú þér þá, einsog þú hefðir það ekki þeigið?

Gal. 5, 26. Látum oss ekki sækja eptir hégómahrósi og hvörki ögra hvörr öðrum, né öfunda hvörr annann.

## 55.

F. Guðhræddur maður gamall átti einusinni tvo sonu, milli hvörra hann skipti arfi sem ekki var lítill, og undireins og hann fékk þeim hann í hendur, sagði hann til þeirra: synir mínir! þið vitið, hvörsu Guð hefir blessað mig, og fyrir yðju- og spar-semi mína gjört mig ríkann, þótt fátækur væri í fyrstu; þar takið þið þá við blessun hins allrahæsta, farið vel með og viturlega, njótið hennar í hófi, verið kostgjæfnir í ykkar kalli, trúir og réttsýnir í öllum ykkar athöfnum og gleymið ekki þeim fátæku, Guð mun þá ekki heldur gleyma ykkur. Þeir tóku nú báðir á móti erfðahluta sín=

um. Yngri bródirinn þakkadi hjártanlega födur sínum fyrir, tók gladur vid því, sem hann fékk og naut þess med ánægju; hann var ydinn og rádvandur í öllu sínu verki, ábatadist því mikid og græddi, og þó hann gæfi opt fátækum mikid og gjördi þeim gott, vonadi hann samt uppá forsjón hins hæsta og huxadi med sjálfum sér: sá sami Gud, sem gjördi födur minn út fátæklíngi ad ríkismanni, getur líka blessad mig; svo lifdi hann med hiski sínu ánægdur, og alltaf vóru efni hans ad aukast.

Eldri bródirinn vard þarámóti brádt óánægdur yfir því, ad hann skyldi ekki fá meira enn sá ýngri; eg hefi þó — huxadi hann med sjálfum sér — unnid leingur á þessu heimili enn hann. Hann tók vid sínum hluta og rauk burt med reidisvip. En svo hann gæti ábatast mikid og grædt á stuttum tíma, keypti hann sér strax jörd og fór ad búa. Á hvörjum morgni vakti hann upp vinnufólkid sitt í bíti, til þess ad láta þad fara strax ad vinna. Þegar þad fór ad borda, gaut hann hornauga til þess, hvad mikid væri étid og geingi upp hjá sér; hvad lítid sem ad vard, eda brotnadi af búsgögnum og ambódum, vard hann fokillur vid fólkid og lét þad enda sjá á kaupinu; hann var næstum því ætíd hugsjúkur og áhyggjufullur. Þegar verid var ad fá í kálgardinn hans, var hann hræddur um, ad ekki mundi koma

upp hjá sér, eda ekki vara vel kálid, eins þegar verid var ad bera á vøllinn, var hann kvídafullur ad hura um, hvørt grasár mundi verda þad sumar, og þegar túnin vóru þó ordin vel sprottin, sagdi hann einatt vid fólkid: fari nú nædíngar ad koma og stormar og sífeldir þurkar gángi, kémur kýtíngur í grasíd og verdur ekkért úr því; eins var hann alltaf kvídandi fyrir óþerrir og rosa, og héldt þá, ad hann mundi aungvu ná af heyinu sínu og gardurinn sinn mundi verda tómur; og skyldi nú eitthvad af þessu koma fyrir, gat hann hvørki, fyrir ángri og ergju, sofid né etid døgum saman og ekki heldur talad eitt blídt ord vid adra; en — hvad honum sveid þad, þegar hann sá, hvad túnin og eingjarnar hjá nábúa sínum vóru vel sprottnar og huradi med sér: betur eg ætti þessa jørd líka! (en átti þó sjálfur meira enn hann þurfti á ad halda, eda gat yfir komist ad hyrda um og rækta) hann var altaf ad hura upp nýtt og nýtt rád, til þess ad géta keypt fleyri jardir, grædt meiri peninga og ordid enn ríkari; því hvørr veit, sagdi hann, hvørnin fara kann seinna, ef óár koma uppá, eda óhapp vill til, þá verdur madur ad hafa eitthvad í høndunum, til ad géta keypt þad, sem manni liggur á; — þad sem meira var, hann tímdi valla sjálfur ad borda einsog hann þurfti med, og léti hann einhvørn borda med sér, hafdi hann aldrei augun af diskinum, því hann

var að líta eptir, hvørt hann mundi borða allt=saman upp. Aldrei lét hann heyið í burtu á vorin, fyrr enn það var orðið fjarska dýrt og sem flestir hey=lausir orðnir, tíndi hann þá og tutlaði úr bøggun=um sem hann gat, ef hann ekki vóg þá, annars lét hann ekki eina mørk frammyfir og hafði þau ummæli við þá, sem nauðstaddir vóru að biðja hann um það: viljir þú ekki kaupa það svo dýrt, géturðu látið það vera! þegar fátækir vóru að koma heim til hans, sagði hann við þá: ætlið þið hreint að eta mig upp, farið þið á hinn bæinn, þar sem hann bróðir minn býr, hann fékk eins mikinn arf einsog eg. B. þetta var slæmur maður; F. Er þá ekki ágyrndin ljót? B. Jú, víst er ágyrndin vond og ljót. F. En taktú nú eptir, í hvað margar óþarfa áhyggjur, ergju og andstreymi að slíkur maður steypir sér og hvað sjaldan hann gétur verið ánægður með sjálfann sig og það, sem Guð hefir géfið honum; er það ekki mikil synd, að vantreysta Guðs forsjón, vera øfundsjúkur og hneigður til að gjøra øðrum rángt til? sá sem syndgar af auragyrnd og mauraelsku, óskar hann ekki maurana meir enn Guð? B. Jú. F. þeir eru þá hans Guð, sem hann reiðir sig á? B. Jú. F. þetta er nú orsøkin, hvørsvegna Guð hefir andstygð á þeim ágjørnu, þeirra hjarta víkur frá honum, þeir elska sképnuna meir enn Skaparann, sem svo er þeim góður, að hann

veitir þeim allt gott. O, varadu þig vid ágyrndinni; því ágyrndin er rót alls ills — segir Ritn. 1 Tím. 6, 10.

Ebr. 13, 15. Sýnid aungva ágyrnd í ydvarti hegdan, heldur látid ydur nægjast med þad sem þér hafid, því sjálfur Drottinn hefir sagt: eg vil ekki sleppa minni hendi af þér og aungvanveiginn yfirgéfa þig. Vér gétum því hughraustir sagt: Drottinn er minn hjálpari! vér þurfum ekki ad kvída.

Lúk. 12, 15. Gjætid ydar óg várid ydur vid ágyrnd, því einginn verdur sælli fyrir þad, þó hann hafi aud fjár.

1 Tím. 6, 6–8. Gudhrædsla er mikill ávinníngur, samfara nægjusemi, því fyrst vér høfum ekkért flutt med oss inní heiminn, þá er þad bert, ad vér ekkért þadan munum géta burtu haft; þessvegna, ef vér høfum fædi og klædi þá látum oss nægja.

Sálm. 119, 36. Hneig hjarta mitt til þinna vitnisburda, en ekki til gróda!

Ordskv. 28, 20. Rádvandur madur verdur ríkur af blessun; en sá, sem flýtir sér ad audgast, verdur ei óstraffadur. V. 10. 21. 25. 27.

Préd. b. 5, 10. Hvørr sem elskar peninga, verdur aldrei mettur af þeim og hvørr sem elskar audæfi, hefir ekki gagn af því.

## 54.

F. Finnur þú ekki til sveingdar á daginn þegar þú bordar ekki? B. Jú! þér vitid þad. F. Þú verdur þá ad eiga nokkud til á hvørjum deigi til þess ad borda? B. Þad er audvitad. F. Máttu þá eyda øllu í dag, eda á morgun, sem þér er skamtad til leingri tíma? B. Nei, því þá hefi eg ekki neitt seinast; F. Eda láta leyfarnar skémmast? B. Ekki heldur má eg þad. F. Máttu þá heldur géfa svo mikid í burtu, ad þú sjálfur eigir seinast ekkért eptir? B. Þér hafid sagt mér þad opt, ad þótt madur gjæfi fátækum, mundi madur samt ekki lída skört. F. Þó eg segdi, einsóg þú manst, ad géfa ætti mikid fátækum, sagdi eg ekki þarfyrir, ad géfa ætti þeim allt, því þaraf flyti, ad þú sídar meir gjætir ekkért géfid þeim og hlytir máské ad lifa af annara gódgjørdasemi, eda ad taka penínga til láns og komast svo í skuldir. B. Hvad er ad því? F. Sá sem mikid er skuldugur, hlýtur mikillri borgun ad svara, géti hann þá ekki borgad, má hann fyriverda síg ad koma fyrir augu síns lánardrottins, hvørjum hann á skuldina ad gjalda; heimuglegt hugarvíl kvelur hann þá sífeldlega, en sé hann áhyggjulaus og huxi aldrei til ad borga, klaga hans lánardrottnar hann og ángra med sífeldum skuldakrøfum, eda jafnvel stefna honum, ef hann ekki vill og gétur borgad. B. Víst er þetta mikid illt! eg

skal bera mig ad komast ekki í skuldir. F. Þú mátt þá í tíma læra ad verda sparsamur, aldrei eida meiru, enn þú þarft, venja þig ekki á kræsir og hyrda vel það, sem afgángs verdur og alltaf skaltu huxa eptir, þegar þú bordar, ad aptur kann þig ad sveingja; og géta ekki svo veikar mann-eskjur, sem við, ordid veikar? B. Jú, og þér láud veikir um daginn. F. En hefdi eg ekkert sparad á fyrri árum mínum, hefdi eg þá gétad látid gjøra mér svo til góda, sem eg þurfti við, mundi þá hafa ordid búin til handa mér sú holla fæda og læknismedøl, sem mér batnadi af? eg væri þá máské dáin! B. O, það vildi eg ad Gud léti ekki ské! F. Géturdu ekki líka ordid veikur? B. Nú skil eg hvad þér ætlid ad seigja. Eg ætti þá líka ad vera sparsamur. F. Þú gatst rétt til, barnid mitt! lángar þig ekki til ad géta gjørt fá-tækum gott? B. Jú, eins fyrir það. F. Þú veitst hvad gódgjørdasemi er Gudi þægileg og þakk-næm? B. Jú. F. Ættir þú þá ekki líka ad spara, til þess ad géta gésid fátækum? gjættu þess, ad eptir því verdur þín vegsemd meiri á himnum.

Ordskv. 13, 11. Audur mínkar, þegar honum er í óhófi sóad, en vex, þegar honum er haldid saman.

Ordskv. 24, 4. Þar sem ad fyrir er gód húss-stjórn, fyllast geymsluhúsin med allslags dýr-um og gédfeldum audæfum.

55.

F. Híngadtil høfum vid foreldrar þínir, barnid mitt! med Guds hjálp, fædt þig og klædt, þig hefir ekkért brostid, og opt hefir þú leist af mat þínum, ætti þér þá ekki, þegar þú sjerd einhvørn aumíngja, ad detta í hug, ad lofa Gud fyrir þessa velgjørnínga sem þú nýtur? ættir þú ekki ad hugsa med sjálfum þér, hve aum er ekki þessi mannsképna, hann geingur í rifnum gørmum, hann má víst opt vera svángur og eiga bágt, þegar hann er ad fara um, sér til bjargar; en ef eg væri í hans sporum? B. Æ, eg vil þakka Gudi mínum fyrir þad, ad þér veitid mér uppheldi! F. En værir þú í aumíngjans sporum, mundi þér þá ekki þykja vænt um, ef ad adrir, med fúsu og gódu gédi, greiddu fyrir þér eda gjørdu þér gott? B. Víst mundi mér þykja mikid vænt um þad. F. Ættir þú þá ekki ad vera fús til ad gledja þá sem aumir og fátækir eru? B. Jú, mig lángar til þess! F. Gjørdu þad þá svo opt sem þú gétur; muntu ekki finna til mikillrar gledi og ánægju í sálu þinni, þegar þú hefir gladt vesælt og þurfandi gamalmenni, ef þú eins og Gud, ert mannelskandi og gódgjarn? Fyrir hvørjum berdú meiri virdíngu, þeim harda og ágjarna manni, eda þeim gódhjartada og greidvikna? B. Þann gódhjartada met eg lángtum meira. F. Heldurdú ekki, ad fólk hafi þig í meiri metum, þegar þú, svo mikid

sem í þínu valdi stendur, ert góðsamur og greiðvikinn, munu menn þá ekki sjá þitt góða hjartalag, elska þig og vera þér til vilja; þó eru það þau minnstu laun, barnið mitt! sem sá góðgjörðasami kristni nítur, því Guð elskar hann líka og blessar, allar þær velgjörðir sem vér látum þeim fátæku og aumu í té, fáum vér aptur endurgoldnar með eilífum fögnuði á himnum. Er það ekki hyggilegt að sá góðu sæði í góða jörð? B. Jú, því það sprettur þar vel. F. Eins eru þær ölmusur eða gjafir, sem vér réttum þeim þurfandi, að álíta svo sem gott sæði, er af sér gefur oss eilífann ávöxt; sá sem ríflega sáir, mun og að lokum uppskéra ríkuglega.

2 Cor. 9, 6—7. Sá sem sparlega sáir mun og sparlega uppskéra, og hvörr sem örlátlega sáir, mun og örlátlega uppskéra. Guð elskar glaðann gjafara.

Sálm. 41. 2—4. Sæll er sá sem annast hinn þurftuga; á þeim vonda deigi mun Drottinn bjarga honum, Drottinn mun varðveita hann og halda honum við lífið, og láta honum vel vegna, og ekki afhenda hann vild hans óvina. Drottinn mun styrkja hann á hans sóttarsæng, og snúa hans rúmi við (til lækningar) í hans sjúkdómi.

Orðskv. 14, 21. 31. Hvörr sem fyrirlítur sinn náúnga, sá syndgar, en sá er sæll sem snauð-

um líknar. Hvørr sem niðurþrykkir lítilmagn-
anum, sá smánar þann sem skapaði hann, en
sá heiðrar skaparann, sem miskunar sig yfir
fátækann.

Orðskv. 19, 17. Hvørr sem miskunar sig yfir fá-
tækann, sá lánar Drottni, sem honum mun
það góðu endurgjalda.

Ebr. 13, 16. Gleimið ekki að gjøra gott og út-
býta, því slíkar fórnir þóknast Guði vel.

## 36.

F. Það var einusinni úngur Kaupmaður, sem
helst um of elskaði peninga, og óskaði að geta
orðið allt í einu ríkur. Hann útvegaði sér þess-
vegna allskyns vørur til að selja og vissi að haga
sér svo kjænlega við kaupanauta sína, að hann
lét þá altaf fá minna, án þess þeir tækju eptir,
helðurenn þeir borguðu honum, stittri stiku, lakari
vigt, minni mælir, blandað og slæmt vín, fyrir
gott vín, og skémdar vørur fyrir góðar — eður ó-
þarfa einhvørn fyrir nauðsynjar. Lorins fóru þeir,
sem við hann høfðu haft skipti og kaupskap, að
taka eptir þessum svikum af honum, hvørr sagði
øðrum frá, og ekki beið leingi þángað til að allir
vissu það; fór svo að lokum að kaupmaður þessi
varð yfirgéfinn af øllum, sem þekktu hann, og í
staðinn fyrir að verða allt í einu ríkur, eins og
hann ætlaði sér, komst hann í basl og skuldir. B.

Það var honum rétt maklegt; eg hefði heldur ekki keipt við hann. F. Oráðvendni í lífsins athøfnum er þá ekki góð? B. Nei. F. Og ekki heldur þó í fyrstu kunni maður að hafa ábata af? B. Nei, því uppkoma svik um síðir, eins og máltækið hljóðar. F. En ef menn ekki tækju eptir þeim, og einhvørr, sem væri slúnginn bragðarefur, gæti alltéð dálítið svikið og haft af øðrum? B. Alltéð vissi Guð það. F. Vel svarað, barnið mitt! Guð vissi það samt; ó, mundu þá eptir þessum orðum: Guð, sem hatar alla óréttvísi, sæi það samt, gjæti straffað hann og látið það rángfeingná gótz verða honum til óláns, en eptir dauðann mundi hann straffast eptir maklegleikum — og hvørnig gjæti annar eins maður annað enn álitið sjálfann sig að vera svikara? B. Nei. F. Mætti hann ekki líka alltaf vera hræddur um, að svik sín mundu komast upp? B. Jú. F. Er það ekki nóg íllt fyrir hann, að verða að halda íllt um sjálfan sig og géta aldrei verið óhræddur um, að einhvør skømmin komist upp um sig, það er meiri skaði enn allur ábati, því það sviftir oss ærunni og rósemi hjartans, hvað stoðar það manninn, þó hann vinni allann heiminn, en líði tjón á sálu sinni! En Guð elskar þann ráðvanda, varðveitir og blessar hann; það eru ótal veigir og meðøl í Guðs hendi, til að gjøra þann ráðvanda dánumann ríkann og þó Guði þóknist það ekki,

gefur hann honum samt ánægt hjarta, rósama samvitsku og glada von um eilífa sælu.

Ordskv. b. 11, 1. Raung vog er Drottni andstygd, en gyld reidsla er þóknanleg honum.

Ordskv. b. 16, 8. Betra er lítid med réttu, enn mikil inntekt med raungu. 14, 34.

3 Mós. b. 19, 11. Þér skulud ekki stela, ljúga, eda draga svik hvørr ad ødrum.

5 Mós. b. 25, 13—16. Þú skalt ekki hafa tvennslags vógir, adra stærri og adra minni; þú skalt ei heldur hafa í þínu húsi tvennslags mæliaska, annann stærri og annann minni; þú skalt hafa eina gylda og rétta vog, einn gyldann og réttann mæliask, svo þú meigir lifa leingi í því landinu, sem Drottinn þinn Gud mun gefa þér, því Drottinn þinn Gud hefir andstygd á øllum, sem þessa eda adra rángsleitni í frammi hafa.

## 37.

F. Eru ekki þjófarnir andstygdar menn? B. Jú. F. En má þad heita þjófur, þó hann leinilega tæki frá ødrum dálítinn braudmola eda smjørbita? B. Þad tæki þó ekki miklu verdi. F. Vildir þú þá hafa þad fólk hjá þér, sem tæki eitthvad frá þér á laun, og fyrir hvørju þú aungvu gætir haldid? B. Þad vildi eg ekki hjá mér hafa. F. Ætli adrir mundu þá vilja hafa þess-

háttar menn? B. Ekki heldur. F. Er þad þá ekki maklegt straff fyrir þessa prakkara, ad einginn vill hafa þá nærri sér, þegar hvørr madur heldur þá fyrir þjófa, en einginn er fús til ad hjálpa þeim, lána þeim eda trúa fyrir nokkru? B. Þad er satt — ó, eg vil aldrei taka neitt leynilega frá ødrum, hvad lítid sem kynni ad vera varid í þad, þó eg sjái suma gjøra sér aungva samvitsku af því, ad fara uppá þad, sem adrir eiga og þeim er trúad fyrir, ætíd hefir mér þótt þad ljótt. F. Þad eru hrakmenni sem svíkja og stela, en þeir gjøra þad ekki svo leingi, ad ekki komist upp um þá; en látum vera ad þetta smáhnupl leyndist fyrir mønnum, Gudi er þad samt ekki ókunnugt. B. Gud veit allt og sjer. F. Elskar Gud þá sem svíkja, skada og áseilast adra? B. Nei, hann vill ad vér gjørum ødrum gott, en ekki illt; F. Og þared hann endurgéldur hvørjum eptir hans verkum, mun hann þá ekki endurgjalda þvílíkum mønnum eptir því sem þeir hafa tilunnid. B. Vissulega mun hann þad gjøra, en fyrir smáhnupl verdur þó ekki straffid stórt? F. Heyrdu til, barnid mitt! væri þad ekki stórt straff, ef ad Gudi gjæti ekki líkad vid þig, en yrdi ad hafa andstygd á þér og neitadi þér um sína blessun og sleppti af þér hendi, svo þú féllir alltaf í stærri og stærri syndir? B. Víst væri þad mikid synda-straff. F. En þad er nú þeirra straff, sem leynilega svíkja og ásæl-

ast sinn náúnga; þegar þeir vita, að lestir þeirra ekki komast upp, skirrast þeir ekki við að halda áfram í sømu íllsku, loksins kémst sá løstur, að svíkja aðra, svo upp í vana fyrir þeim, að þeir géta ekki framar af honum látið. Þetta allt er Guði kunnugt, og hann þekkir þá vel sem svíkja aðra, og hann líður að þeir fari fram í sínum svikum, uns þau komast upp, eða þeir verða straffaðir af honum sjálfum; því hvað heldurðu? gétur Guð ekki með mørgum hætti straffað menn-inn? gétur hann ekki látið þá rata í fyrirlitníng og fátækt, falla í sjúkdóma, eða hrapa í einhvørja ólukku, eða látið þá í skyndíngu deya? og hugaðu nú eptir, hvað við slíkar vondar manneskjur fram á að koma eptir dauðann, því Guð mun øll-verk leiða fram fyrir dóminn, og líka þau minnstu óréttindi, og ekki mun hann einúngis leiða í ljós þjófnaðinn sjálfann, heldur einnig það vonda hjartalag, af hvørju hann spratt, og hvílík smán mun það loksins, fyrir þjófnað og rángsleitni, að verða burtskúfaður frá Guðs augliti um alla eilífð. Eg veit, barnið mitt! að þú lætur þig ekki henda þvílíkan glæp, að stela eða taka nokkuð leynilega frá øðrum, en gjættu að því, að øll svik og rángindi eru þjófnaður fyrir Guði, og að einginn maður, sem ránglætið elskar, gétur þókknast Guði, eða øðlast eilíft líf, því svo seigir Ritníngin:

1 Kor. 6, 9—10. Vitid þér ekki, ad óréttvísir menn munu ekki Guds ríki erfa? dragid ydur ekki sjálfa á tálar, hvørki frillulífis menn, edur skurdgoda dýrkarar, né hórdóms-menn eda mannbleidur, né þjófar eda ásælnir, né drykkjurútar, né ordhákar, né ránsmenn munu Guds ríki erfa.

## 58.

F. Ætli þad væri svo íllt þó menn segdu ósatt, ef menn med því gjætu sloppid hjá verdskuldudu straffi? hvad heldurdu um þad? B. Gjæti madur komist hjá straffi, þad væri gott! F. Nei, þegar straffid á ad betra þann, sem straffadur er, þá er þad ekki gott ad sá seki sleppi hjá því, því takist honum þad, heldur hann áfram í løstunum, í von um, ad hann komist af med þad, og bætir sig ekki. En lýgin hefir, eins og fleiri lestir, líka sitt náttúrlegt straff; fellur þér þad vel, þegar adrir fyrirlíta þig? B. Nei. F. Þykir þér vænt um þad, ef adrir vildu ekki trúa þér? B. Ekki þykir mér vænt um þad. F. Ætli nøkkur géti trúad lygaranum? mundu menn ekki miklu fremur fyrirlíta hann eins og annad íllmenni; hvørr vill lána þeim sem er lýginn og hrekkjóttur, eda eiga nokkud undir honum? hvørr mundi vilja kjósa sér slíka menn fyrir hjú, enn sídur eiga þá fyrir vini, sem med lýgi og svikum villa sjónir á sér, því hvørttveggja þetta er vant ad fylgjast ad

hjá einum og sama manni. Undir hvílíkum flá-
ráðum mønnum og følsurum géta menn ómøgu-
lega átt. Sjerðu nú, hvørsvegna Guð svo al-
varlega hefir boðið mønnum ætíð að seigja sann-
leikann? B. Jú, vegna þess að lýgin gjørir
mann hatadann og ólukkulegann.' F. Og vegna
þess — máttu bæta við — að lygarinn gétur ekki
orðið betri, því í þeirri von að hann muni géta
borið á móti øllu, syndgar hann alltaf í leynd-
um, forðast að eins menn, en ekki Guð, verður
hræsnari, lætst fyrir mønnum vera vandaður
maður, en er í hjartanu skálkur; loksins verður
hann øldúngis forherðtur og gjørist gløtunarinn-
ar barn, allt eins og fór fyrir einum vondum
syni, sem að átti góðann føður; þegar hann hafði
brotið eitthvað, kénndi hann hjúunum um það;
þegar hann lángaði til að fara út að leika sér,
sagðist hann vera búinn að ljúka við það, sem hann
átti að læra, enda þó hann hefði ekki á því byr-
jað; þegar hann sá, að hann komst af með þetta,
fór hann að hnupla peníngum frá føður sínum á
laun, og mat frá móður sinni, og þegar þau
urðu vør við það, þrætti hann alténd fyrir. Eins
fór hann að ráði sínu, eptir að hann var upp-
kominn og orðinn skrifari hjá herramanni nokkr-
um; yrði honum eitthvað á, komst hann ætíð
fram úr því með ósannindum, eða kom øðrum í
það, til þess að þeir yrðu straffaðir í staðinn

hans. Loksins tók hann þad fyrir, ad stela peníngum úr gullhúsi Kóngsins, var honum þá kastad í fángélsi, hvar hann mátti gista til dauda dags. Æ, varadu þig, góda barn! vid lýginni, hún er eins og sá ólæknandi kvilli, sem alltaf lodir vid mann, hún hefir af manni æru og góda samvitsku, og sviptir mann Guds nád og lukku og farsæld í eilífu lífi.

Ordskv. b. 19, 9. Falsvottur kémst ei hjá straffi, og sá sem útspýr lýgi, tortýnist.

Sírak. 7, 14. Vendu þig ekki á, ad ljúga, því þad er skadlegur vani.

Sírak. 20, 26—28. Lýgi er leidur skammarblettur á manni, hún er algeing hjá agalausum almúga, þolanlegri er þjófurinn, enn sá sem temur sér lýgi, en bádir verda þó ólukkulegir; athæfi lýgins manns er ærulaust, og skömmin fylgir honum alltaf.

Ef. 4, 25. Afleggid lygar og talid sannindi, hvørr vid sinn náúnga, því vér erum hvørr annars limur.

## 59.

F. Eg hefi þekkt mann, vel ad sér og duglegann, sem hafdi þann vana ad tala illa um hvørn mann. Þegar hann kom til einhvørs sagdi hann: hann nágranni þinn hefir talad illa um þig, en kjæmi hann til hins, sagdi hann: varadu þig á honum nábúa þínum, því hann hefir kom-

ist ad einhvørju illu um þig. Uppá børnin var hann vanur ad koma illu vid foreldrana og sigadi þeim svo aptur upp, med því ad seigja, ad foreldrar þeirra væru ofharðir og vandlátir vid þau; svona sagdi hann, sitt hvad vid hvørn; til ad æsa hann upp á móti ødrum; hvørnin heldurdu ad farid hafi fyrir honum ad lyktum? B. Það veit eg ekki; F. Heldurdu ekki, ad fólk hafi viljad komast fyrir endann á því, sem hann var ad seigja því, sitt um hvørn, hvørt þeir hinir sømu hefdu talad það eda gjørt, sem hann var ad seigja eptir? B. Líklega hefur það viljad komast ad sannleikanum; F. Parad rak, og hann vard um sídir uppvís ad lýgi og mannvondsku, allir ydruðust nú eptir ad þeir hefdu trúad honum svo vel og søgdu frá øllu því illa, sem hann hafdi borid adra fyrir, og komid til leidar, og vøruðust hann þadan í frá, eins og heitan eldinn; B. Það var øldúngis rétt og maklegt, slíkt illmenni ætti ad verda fyrir straffi. F. En þú heldur kannské, ad þeir fái ekki annad straff enn þetta, sem gjarnir eru á, ad tala illa um adra og ljúga uppá þá, sem þessir leika sér ad, ad gjøra; vill Gud ekki ad vér elskum hvørr annann? B. Jú. F. Kémur þá ekki þvílíkt illmenni því til leidar med rógburdinum, ad kaldt verdur milli manna? B. Víst. F. Kveikir hann ekki hatur og reidi í hjørtum manna? B. Líka gjørir hann það. F. Skyldi Gud þá

láta frumkvøđulinn til svo margs og mikills ílls óstraffađann? B. Vissulega ekki. F. Hvørnin viltu þá framveigis tala um adra? B. Vel, en aldrei ílla. F. En ef ad þeir hafa gjørt íllt? B. Þá veit eg, ad eg muni meiga seigja þad eptir þeim, ef eg skrøkva aungvu. F. Lángt frá, ekki alltend, barnid mitt! og aldrei nema þú af yfirbodurum þínum verdur þarum spurdur, ellegar ef þú vissir, ad þeir ætludu ad gjøra ødrum íllt og vildir vara þá vid; lærdu þessvegna í tíma, ad vera ordvar, þeig yfir því sem þú veitst íllt um adra, gétirdu gjørt þad med gódri samvitsku, þad er ad skilja, ef skylda þín bídur þér ekki ad seigja frá því, varastú ad fylla þeirra flokk, sem kunna ekki vid annad, enn ad lasta adra og leggja þeim allt út á versta veg, þú átt ekki einusinni ad samsinna þeim, þó þú vitir ad þeir kunni ad seigja þad satt, þeigi þú þá, eda affsakadu þann sem lastadur er, gjørir þú þad og venur þig á, ad tala vel um alla, munu adrir líka tala vel um þig, vyrda þig og elska og affsaka þegar þér verdur eitthvad á; þøgn á réttum tíma útvegar heidur.

Ordskv. b. 10, 19. Hvar sem margmælgi er, þar fer ekki syndlaust fram, en sá er hygginn sem heptir sínar varir.

Ordskv. b. 13, 3. Hvørr sem gáir ad munni sínum, vardveitir sitt líf, en þeim, sem (í framhleipni) likur upp sínum vørum, er búiđ tjón.

Orðskv. b. 12, 22. Lýgnar varir eru andstyggilegar Drottni; en þeir, sem sannleikann yðka, þóknast Guði vel.

1 Pét. 2, 1—2. Leggið því af allslags vondsku og alla pretti, hræsni, øfund og alla bakmælgi og sækist einsog nýfædd børn eptir þeirri skynsøuu, ómeingaðu mjólk, svo þér af henni þroskist yður til velferðar.

1 Pét. 3, 10—11. Sá sem sína farsæld hefir kjæra og sjá vill góða daga, hann haldi túngu sinni frá vondu og sínum vørum frá prettvísi, sneiði sig hjá íllu og gjøri gott, stundi friðsemi og leggi kapp þar á.

## 40.

F. Manstú nú eptir hvørnin þær fyrstu manneskjur røtuðu í þá fyrstu synd? B. Já, Høggormurinn sveik þær. F. Hvørnin fór hann að því? B. Hann lokkaði Evu til að eta ávøxtinn af forboðna trénu. F. Hvørnin kom það til, að þau fyrir það skyldu eta af ávextinum; kom það ekki til af því, að þau sáu hvað tréð var fagurt á að líta og ávøxturinn gyrnilegur, svo að hjá þeim kviknaði laungun eða gyrnd til að smakka á honum? B. Jú. F. Af hvørju kom þá sú fyrsta synd? B. Af vondri gyrnd sem kviknaði í þeim. F. Svo er það ætíð, barnið mitt! að vondar gyrndir eru upphaf eða undirrót til vondra athafna. Þær fyrstu manneskjur áttu 2

sonu, hét annar Kain, en hinn Abel. Einusinni voru þeir bádir ad hafa um hønd Guds þjónustugjørd sína; en af því Kain var vondur, líkadi Gudi ekki hans þjónusta, eins vel og bæn hins dygduga Abels; vard Kain þá øfundsjúkur, en af øfundinni kviknadi aptur heipt og hatur til bródur síns, af hatrinu leiddi, ad ysirbragd hans afmyndadist af fólsku vid hann og ad lyktum kom hann því framm, sem hann ysirbjó, og myrdti bródur sinn; í þessu voru orsøk vondar gyrndir. Géta þá ekki gyrndir og hugrenníngar hjartans ordid mjøg háskasamlegar og komid mørgu íllu til leidar? B. Jú. F. Og ef vér med gédþekkni búum ysir þeim og nærum þær hjá oss, mun Gud þá ekki straffa oss þar fyrir? B. Gud straffar allt íllt. F. Rétt er þad, og þá líka allar vondar gyrndir, því allar sjer hann þær og þekkir þad illa, sem af þeim kann ad leida, hann veit vel, hvørt vér høfum eptirlæti af ad ala þær í hjarta voru, og hann mun ekki einúngis gjalda hvørjum eptir hans verkum, heldur og eptir hvørs øfund og heiptarhug, sem hann í brjósti ber til annara manna, eptir ágyrnd og miskunarleisi vid naudstadda, eptir þrjótsku og þverúd vid ysirbodara og eptir øllum skadlegum sálarinnar þaunkum og gyrndum. O, hvørsu mjøg ætti oss ekki ad vera um þad hugarhaldid, barn mitt! ad ødlast gott og dygdugt hjarta! hvad mundi þad hjálpa,

þótt vér gjørdum eitthvad, sem einasta væri gott ad ytra áliti, ef ei kjæmi af gódum hjartans þela, mundi sá alvísi Gud ekki sjá þad og hafa andstygd á oss svosem hræsnurum og loks svifta oss sinni hjálp og nád, þegar hann sæi, ad vér leitudum fordyldar einnrar í breitni vorri; ó, svo legdu þá allann hug á, ad kefja nidur hjá þér alla vonda þánka, láttu aungva þrjótsku, reidi eda øfund ná ad festa rætur hjá þér, ákalla Gud og bid hann ad géfa þér gott, ástúdlegt og hlýdid hjarta og berdu þig ad vidhalda og efla hjá þér þá þánka, sem Gudi vel gédjast. Ó, minn gódi Gud! sem sjerd inní sálu mína, og veitst allt hvad eg hugsa og álykta, géf þú mér gott og hreint hjarta, hrind frá mér øllum vondum girndum, veittu mér krapt til ad nidurþagga þad illa sem í mér býr, en ætíd hugsa þad sem gott er, svo ad sála mín þóknist þér, og eg verdugur mætti álítast þinnar elsku og blessunar.

Jak. 1, 13—15. Einginn segi nær hann freistast, eg freistast af Gudi, því Gud getur ekki freistast af nokkru illu, hann sjálfur freistar og einkis, heldur freistast sérhvør, þegar hann dreiginn og veiddur verdur af sinni eigin girnd, sídan þará eptir, þá girndin hefir feingid gétnad, fædir hún syndina, en þá syndin er fullþroskud, fædir hún dauda.

Ordskv. b. 4, 23. Framyfir allt sem vaktad er,

þá vardveittú þitt hjarta. Ordskv. b. 23, 6. Géf mér, son minn! hjarta þitt, þín augu gési gaum ad veigi mínum.

Sálm. 51, 12. Skapa í mér hreint hjarta, ó Gud! og endurnýa í mér stødugann anda!

Sálm. 86, 11. Kénn mér, Drottinn! þinn veg, ad eg gángi í þínum sannleika, laga mitt hjarta, svo þad óttist þitt nafn.

## 41.

F. Þegar þú ert búinn ad læra og hefir verid ydinn ad því, eda unnid þad eitthvad, sem gott er og nytsamt, finnst þér þá ekki, ad þú sért vel ánægdur med sjálfan þig? B. Jú! þá er eg gladur og ánægdur; F. En hafirdú gjørt eitthvad íllt, fer þá ekki ad liggja ílla á þér? óskar þú þá ekki, ad þad hefdi aldrei skéd? B. Jú, þér lýsíd því rétt, og þá er eg hræddur um, ad þér komist ad því og ydur þyki vid mig. F. Þegar þú vísvitandi adhefst eitthvad, sem ekki má vera, verdur þú annadhvørt strax eda seinna ángurvær, jafnvel þó eg aldrei kjæmist ad því, eda nokkur annar madur, því þú hefir ætíd þann typtunar-meistara hjá þér í sálunni, er ávítar þig og átelur, þegar þú syndgar. B. Hjá mér í sálunni? hvørr er hann? F. Þad er samvitskan þín, því svo hefir hinn vísdómsfulli Gud tilbúid mannsins sálu, ad henni líkar vel vid sjálfa sig og

er róleg og ánægd, þegar madur hefir gjört þad sem gott er, en hafi hann íllt adhafst, gétur honum ekki líkad vid sig, undirnidri ávítar hann sig sjálfan og straffar, já opt sem hann finnur hjá sér til megnrar óróſemi, ángurs og kvída, og huxadu nú eptir, hvørt þad muni ekki rétt og tilhlýdilegt, ad sá hljóti íllt, sem íllt hefir gjørt? B. Jú. F. Svo hlítur þá sá, sem íllt hefir gjørt, ad álíta sjálfan sig straffsverdan; B. Þad sýnist mér. F. Og þó einginn madur viti þad, sem þú hefur gjørt, veit ekki Gud þad samt? B. Jú, Gud veit alla hluti. F. Mun Gud þá ekki straffa þad ílla? B. Vissulega hatar Gud þad illa og mun straffa þad. F. Hefur þá ekki hvørr madur orsök til ad óttast jafnvel þó einginn viti annar enn hann sjálfur, ad hann hafi gjørt þad? B. Jú. F. Og gétur þá þvílíkur madur vitad, hvønær Gud muni straffa hann? B. Nei, þad gétur hann ekki vitad; F. Eda hvørnin og med hvørju móti ad Gud muni gjøra þad? B. Þad veit hann ekki heldur. F. Hann hlítur þá ad álíta allt þad óþægilega, sem fram vid hann kémur, eins og réttvíst og verdskuldad straff fyrir syndir sínar. B. Ojá. F. Og svo mætti hann sífeldt vera hræddur um, ad Gud kynni ad straffa hann énn meir. B. Víst mætti hann vera hræddur um þad. F. Huxadu nú vel eptir, hvílík kvøl þad meigi vera, ad verda ad álíta sjálfan sig vondan og straffsverdan

mann? ad verda ad áwíta sjálfann sig, hrædast Guds réttlæti, og næstum alltaf hljóta ad kveljast af skélfilegri eptirbid þess straffs, sem koma kunni þá og þegar yfir hann — þá er madur næstum því aldrei ánægdur med sjálfan sig, og óskar ætíd, ad madur hefdi ekki þad illa gjørt, þá á hann sér alla jafna illsvon bædi af Gudi og mønnum, þá geingur kvølin og ángistin opt svo hardt ad mørgum, ad þeir óska sér heldur ad deya enn lifa. Æ, hvørsu þad er hættulegt, barnid mitt! ad gjøra nokkud af ásetníngi illt, en inndælt aptur á móti ad hafa góda og rólega samvitsku. Þegar vér hurum um Gud svo sem gódann og elskuríkann fødur, gétum bedid hann og vænt af honum alls góds, þegar vér þurfum ekki med ótta og skélfíngu, ad kvída fyrir því, ad adrir kynnu ad komast ad einhvørju illu um oss, eda vér verda fyrir maklegu straffi, þá er hjarta vort gladt og samvitskan góð, þá elskum vér Gud vorn gjædskuríka skapara, gaungum med gledi til vinnu vorrar, og vonum hughraustir uppá vernd Guds og blessun; æfdu þig þessvegna, barnid mitt! í því jafnan ad hafa óskérdta samvitsku bædi fyrir Gudi og mønnum. Post. g. b. 24, 16.

2 Kor. 1, 13. Sá er vitnisburdur vorrar samvitsku, er vér hrósum oss af, ad vér høfum hegdad oss falslaust í heiminum, og med Gudi þóknanlegum grandvarlegleika.

Kómv. 2, 14—15. Þegar heidíngjarnir, sem ekki hafa løgmálid, gjøra það af náttúrunni sem løgmálid skipar, þá eru þeir, þótt ekki hafi þeir løgmálid, sjálfum sér í løgmáls stad, því þeir sýna, ad løgmálsins verk séu skrifud í þeirra hugskoti, med því þeirra samvitska ber þeim vitni, og þeirra þánkar, sem annadhvørt ásaká eda afsaka þá innbyrdis.

## 42.

F. Þú veitst nú, barnid mitt! hvad þú ert Gudi, ødrum mønnum og sjálfum þér um skyldugur; hefir þú þá híngadtil gjætt þess alls? hefirdu aldrei verid foreldrum þínum óhlýdinn, þver eda baldinn? B. Æ, því midur hefi eg ástundum verid það; F. Hefirdu ætíd sagt satt? huxadu þig um og berdu ekki á móti, því Gud veit allt; hefirdu ekki ástundum borid af þér med ósannindum, þegar þú hefir ekki verid búinn ad læra, eda þér hefir ordid eitthvad á? er ekki svo? samvitskan mun segja til. B. Ekki gét eg borid á móti því. F. Sérhvør illskufull einþykkni er straffsverd fyrir Gudi. Gud er kjærleikurinn: hann vill ad vér jafnan séum ástúdlegir, þolinmódir, gódlyndir; hvørsu opt hefur þú nú ekki brotid á móti þessum bodordum þíns góda Guds, verid øfundsamur og afundin vid systkyni þín og ønnur børn, fljótur til reidi, og ad byrja þrætur og kíf, atyrdt þau og

med fleiru lagt illt til þeirra? sérhvað af þessu var rángt og Gudi á móti, en þú ert kominn svo lángt í vanvitsku þinni, og manst ekkért til þessara synda þinna, þú hefir margopt ekki lesid bænirnar þinar med athygli, eda lært Guds ord med viljugleika og kappi; líka hefirdú stundum verid vanþakklátur vid okkur foreldra þína og þá, sem hafa átt ad segja þér til, og þá opt verid baldinn og latur ad læra. Veitstú ekki, ad Gud er réttlátur? mun hann ekki á sínum tíma straffa allt illt, mun hann ekki á sídasta deigi gjalda hvørjum og einum eptir hans verkum, og undireins líka þér? huxadu nú vel eptir þessu, barnid mitt! hvad viltú nú taka til bragds, til þess þú komast mættir hjá verdskuldudu straffi, sem syndir þínar hafa unnid til? B. Eg veit þad ekki! en kénnid þér mér þad, fadir minn gódur! svo eg þurfi ekki framar ad kvída fyrir því ad Gud straffi mig! F. Þad vil eg gjarnan kénna þér, ef ad þú ad eins gjætir skilid þad, og vildir taka vel eptir. B. Þér hafid sagt mér opt, ad Gud gjæfi børnunum skilníng og næmi, þegar þau beiddu hann opt og ydduglega þarum. F. Þad segir þú satt, barnid mitt gott! Vid skulum þá bidja og ákalla Gud, ad hann vilji opna þinn skilníng, svo þú mættir læra og skilja, hvørnin þú gétur fríast frá þessari hrædslu og straffi, og ordid gódur madur og sáluhólpinn. Æ, minn gódi Gud! eg hefi opt syndgad móti

þér, foreldrum mínum og ødrum mønnum og þessvegna bakad mér þitt réttlátt straff; lát mig læra, hvørnin eg fái komist hjá þessu straffi, en meigi af þér vænta eintómrar gjædsku! vertú mér ætíd nálægur med þinni hjálp, svo ad eg meigi óaflátanlega elska og vegsama þig. Amen.

## 43.

F. Madur nokkur var fyrir hyrduleisi sitt kominn í óbærilegar skuldir, og þessvegna mátti hann gista í fángélsi, en hann átti ríkann frænda ad, sem gékk hans vegna í borgun, med ødrum ordum: lofadi ad borga skuldina fyrir hann, og hann gjørdi þad líka. Fánginn vard þá laus látinn aptur, og vard upp frá því værin og vandadur madur. Hvad líst þér, barnid mitt gott! var ekki sá ríki madur gódur í sér og édallyndur? B. Jú, víst var hann þad. F. En erum vér þá ekki líka í stórskuldum vid Gud, vegna synda vorra? B. Jjú. F. En ef vid ættum nú svo ríkann bródur sem borgadi fyrir okkur? hvad seigirdu um þad? B. Þess væri óskandi. F. Þvílíkann bródur eigum vid, barnid mitt! sem tók oss ad sér og borgadi allar vorar skuldir vid Gud, þ. e. tók uppá síg straffid fyrir vorar syndir. Þad er vor elskulegi Drottinn Jesús, um hvørn þér hefir verid sagt svo margt, hann gékk í borgun fyrir oss, og í vorn stad leid hann þad straff sem vér

áttum ad líða. Þegar vér nú medtökum hann sem vorn Endurlausnara og betrum oss, eptir því sem Gud géfur oss nád og krapta til, mun Gud ekki straffa oss, því svo elskadi Gud heiminn — þ. e. alla menn í heiminum, ad hann gaf í daudann sinn eingétinn Son — vorn Drottinn Jesúm Krist — svo ad allir þeir, sem á hann trúa — þ. e. medtaka hann fyrir sinn borgunar-mann og Endurlausnara og fallast á og hlýda hans lærdómi — ekki skyldu fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. Hvørsvegna þurfum vér nú ekki framvegis ad kvída verdskuldudu straffi, vegna vorra syndaskulda? B. Af því ad Jesús vor hefir borgad þær fyrir oss. F. En ef ad ná hinn madurinn, sem sá ríki madur hafdi hjálpad úr fángélsinu, hleipti sér aptur í nýar skuldir, svo hann ad nýu kjæmist í fángélsi, heldurdu þá ekki ad svo vondur og gálaus madur, mætti loksins til ad líða sitt verdskuldada straff? B. Jú, því hann hefdi ekki til annars unnid. F. Taktu nú vel eptir þessu: Jesús hefir borgad vorar skuldir, en þegar vér syndgum á ný mótþróanlega og vísvitandi, munum vér um sídir verda fyrir maklegu straffi vegna vorra synda; ættum vér ekki ad vera gladir af því, ad Gud hefir látid Jesúm borga vora syndasekt? B. Jú, þad er mikill velgjørníngur Guds. F. Ættum vér þá ekki þess heldur ad elska Gud og hlýda hon-

um med fúsu gédi? B. Skyldugt væri þad. F. Hlýddu honum þá framveigis med því fúsara gédi. Seigdu opt: gódi Gud! eg þakka þér, ad þú, vègna míns Jesú, burttekid hefir einnig mína miklu syndasekt og fyrirgéfid mér allar mínar ávyrdíngar; æ, hvørnig fæ eg nógsamlega vegsamad þig fyrir þessa þína gjædsku, ad frelsa mig frá verdskuldudu syndastraffi, hédanaf vil eg helga þér mitt gjørvalla hjarta, þig vil eg elska, minn himneski Fadir! þér vil eg þjóna og alla mína lífdaga vera þér hlýdinn.

## 44.

B. Seigid þér mér meira um Drottinn Jesúm, sem tók uppá sig vort straff og leid fyrir vorar syndir! F. Þad líkar mér vel, barnid mitt gott! ad þig lángar svo mikid til ad vita hvør þessi háleita guddómsins persóna sé, eptir því verdur þú sælli, sem þekkíng þín á henni er fullkomnari, en þessi þekkíng verdur þér í fyrstunni þúng, máttu því til, af allri alúd, ad ákalla Gud, ad hann géfi þér gódann skilníng og eptirtekt. B. Þad vil eg gjarnan gjøra; seigid þér mér þá mikid um þad! F. Mikid géturdu ekki gripid allt í einu. Eg ætla ad taka til á upphafinu; hvad hét sá fyrsti madur? B. Adam. F. Adam átti mørg børn, og þau gátu aptur af sér fleiri afkomendur og fjøldgadi svo mannkynid ódum. En þared þessar fyrstu mannanna kynkvíslir drýgdu margar vidur-

stygagilegar syndir og vildu ekki betrast láta, afmádi Gud mannkynid í miklu vatnsflódi, sem hann lét koma yfir jørdina; einúngis einn gudhræddur madur, sem **Nói** hét, komst lífs af med hiski sinu, á skipi sem kallad var **Orkin**, en nydjar Nóa urdu brádum aptur lastafullir og hættu ad dýrka þann sanna Gud, þá útvaldi Gud **Abraham**, sem var gódur og gudhræddur madur, ad hann skyldi sér einum þjóna, svo sem Skapara himins og jardar, en ekki afgudunum, sem nábúa þjódir hans høfdu búid sér til marga. Gaf Gud þá **Abraham** fyrirheit og fullvissu um, ad af hans nidjum skyldi koma sá mikli madur, er hann hafdi strax í upphafi heitid þeim fyrstu mønnum í Paradís eptir syndafallid, þú manst hvørnin Guds ord hljóda þarum, er hann sagdi vid **Evu**? B. **Ad kvinnunnar sædi skyldi sundurmerja høggormsins høfud.** F. Hvad þýdir þetta: **kvinnunnar sædi?** B. Þér hafid sagt mér ad þad þýddi: madur, sem af konu skyldi fædast. F. Hvad átti hann ad gjøra? B. Hann átti ad útvega mønnum aptur þá sælu, hvørrar þeir fyrstu menn í øndverdu nutu í Paradís. F. Þad er rétt, þú hefir tekid vel eptir þessu; þessum mikla manni hét Gud nú **Abraham**; af hans nidjum átti hann ad koma. **Abraham** átti einn son ad nafni **Isaak**; **Isaak** átti aptur **Jakob** ad auknafni **Israel**; **Jakob** átti 12 syni, kølludust afkomend-

ur þeirra Ísraelsbørn og með øðru nafni Gyðíngar. Á meðal Ísraelsbarna er einkúm einn Konúngur nafntogaður, Konúngurinn Davíð; af ætt hans var María, guðhrædd meya, sem trúlofuð var timburmanni nokkrum Jóseph frá Nazareth. Hún fæddi með undrunarverðum hætti og eptir Guðs óskiljanlegri ráðstøfun Jesúm, er kallaðist Kristur eða Messías, sem þýðir: sá Smurði. B. Drottinn vor Jesús er þá kominn af Gyðíngum? F. Já, Gyðíngar héldu forðum við þá réttu guðsdýrkun, hvørsvegna Guð veitti þeim og sína sérdeilislega umhyggju. B. En hvar fæddist þá Jesús í heiminn? F. Í Betlehem á Gyðíngalandi, sem liggur lángt í burtu frá oss, í austurátt, þar sem sólin kémur upp. Í úngdæmi sínu var hann hlýðið barn og tók mjøg fljótum framførum í skilníngi og þekkíngu; þegar hann var á 12ta árinu, átti hann opinberlega, í musterinu í Jerúsalem, orðastað við lærifeðurna um andlega hluti, með svo mikillri greind, að alla furðaði á því; en þegar hann var þrítugur að aldri, byrjaði hann að kénna á Gyðíngalandi, en svo að Guðs vilji yrði sem flestum og sem fyrst kunnugur mønnum, útvaldi hann 12 menn af Gyðíngum, sem að vóru af lágum stigum, til að vera Postula sína eða Sendiboða, og hafði þá hjá sér í rúm 3 ár, svo að þeir gjætu sjeð, hvað hann gjørði, og heyrt, hvað

hann kénndi, baud þeim síðan að gjøra heyrum kunnugt, með því opinberlega að kénna og lýsa því yfir, að sá fyrir laungu fyrirheitni Messías eða Kristur væri kominn, en svo að menn skyldu trúa þessu og kannast við, að hann væri það, sem hann gaf sig út fyrir, gjørði hann mørg og mikil dásemdarverk (kraptaverk), hann gjørði marga blinda sjáandi, halta gángandi, sjúka heilbrigða, uppvakti líka nokkra af dauðum, en af því að høfðíngjar Gyðínga voru á hans døgum stoltir og vondir menn, høtuðu þeir hann, vegna þess mikla álits, sem hann var í hjá almúganum.

Á Páskahátíðinni í Jerúsalem, løgðu þeir á hann hendur, eptir að þeir høfðu feingið einn af Lærisveinum Jesú, er Júdas hét, til að svíkja hann og hjálpa þeim til, leiddu hann svo fyrst fyrir þeirra andlega rétt, sem áliktaði hann dauðasekann, ofurseldu hann því næst Landsdómaranum, þeim heiðna Pílatusi, báru uppá hann lognar ákjærur, og áløguðu hann harðlega; hótuðu Pílatusi, að hann skyldi verða fyrir reiði Keisarans, ef hann léti Jesúm lausann, eða dæmdi hann ekki til dauða. Vegna þrábeiðni og ofsa Gyðínganna lét Pílatus tilleiðast, og þorði ekki annað af því hánn óttaðist Keisarans reiði, lét þá húðstrýkja Jesúm og setja á høfuð hans þyrnikórónu, honum til smánar og enn meiri kvalar, (því þeir sártsvíðandi þyrnibroddar stúng-

ust djúpt inní høfudid á honum) en. eptir þad þeir heidnu stridsmenn voru leingi og grimdarlega búnir ad kvelja hann med allskyns píslum, lét Pilatus negla hann á høndum og fótum vid krosstré, á hvørju hann lét líf sitt; en ríkur madur nokkur, sem Jósep hét, frá Arimathiu, tók Jesúm, þá hann var andadur, ofan af krossinum og lagdi hann í grøf sem hann átti sjálfur, og hafdi látid búa til handa sjálfum sér; en Gud uppvakti Jesúm af dauda á þridja deigi, og hann reis lifandi upp úr grøf sinni, lét sídan Lærisveina sína opt sjá sig á ýmsum stødum, og fór þeim svo ásjáandi til himins, og situr nú til hægri handar Gudi í óendanlegri dýrd og vegsemd. Hann stjórnar øllum heiminum, og er sá sem Gud mun láta uppvekja alla menn af grøfunum, og dæma þá á efsta deigi, þá munu þeir, sem gott hafa gjørt, upprísa til sælu, en hinir til fyrirdæmíngar, sem íllt hafa adhafst.

Es. 7, 14. Sjá! ein Jómfrú mun þúngud verda og son fæda, og hann mun kallast Immanúel.

Matth. 1, 21. Þú María! munt son fæda og hans nafn skaltú kalla Jesús, því hann mun frelsa sitt fólk frá þess syndum.

Jóh. 17, 3. Þad er eilíft líf, ad þeir þekkja þig, ad vera einn sannann Gud og þann sem þú sendir, Jesúm Krist.

Lúk. 2, 10—11. Ottist ekki (sagdi Eingillinn vid

fjárhyrdarana) sjá! eg flyt ydur mikil fagnad-artídindi, sem vidkoma øllu fólki, því í dag er ydur Frelsarinn fæddur, hvørr ad er Kristur Drottinn í borginni Davíds.

Matth. 11, 5. Blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, heyrnarlausir heyra, daudir endurlifna og voludum verda gudspjøllin bodud.

## 45.

F. Þér er þá ordid nokkud kunnugt um Drottinn þinn Jesúm? B. Jú, en eg skil ekki hvørnin hann hefir tekid burt straff minna synda. F. Gétur sá, sem sjálfur situr í fángélsi, leist eda frelsad adra? B. Nei. F. Væri einhvørr kominn í botnlausar skuldir og ætti sjálfur ekkért til ad borga med, gjæti hann þá borgad fyrir adra? B. Nei. F. Eda ef einhvørr hefdi unnid til ad gista æfilángt í fángélsi, gjæti hann þá lidid þetta straff fyrir adra, sem unnid hefdu til hins sama? B. Ekki gjæti hann þad, þegar hann gétur ekki einusinni sjálfum sér hjálpad. F. Efad Jesús hefdi verid sjálfur syndugur, hefdi hann þá gétad borgad fyrir vorar syndir? B. Nei. F. Eg vil þá seigja þér þad, barnid mitt! ad Jesús var øldúngis saklaus, fullkomlega saklaus fæddist hann í heiminn, aldrei framdi hann synd og aldrei fann hann hjá sér nokkra tilhneigíngu til syndar. Hefur þá svo øldúngis hreinn og saklaus madur unn-

id til þess harðasta straffs og dauðans, já, til svo kvalafulls og smánarlegs dauða, einsog þess, sem Jesús mátti líða? B. Vissulega ekki. F. Þú skalt þá vita, að í vorn stað hefur Jesús liðið svo kvalafullann dauðdaga; þú manst þó eptir, hvörju straffi Guð hafði hótað þeim fyrstu mönnum, ef þeir syndgudu? B. Dauðastraffi. F. Og það hefur Guð lagt við sérhvörja yfirtroðslu sinna boðorða; hefurðu ekki opt líka brotið Guðs boðorð? B. Æjú, opt. F. Hefurðu þá ekki verðskuldað dauðastraff? B. Það má til að vera, fyrst eg hefi syndgað svo opt. F. Hinn saklausi Jesús, Frelsari þinn, hefir líka afmáð þínar syndir; þær kvalir, sem þú hér í lífi og eptir dauðann áttir að líða, hefir hann liðið, og þegar þú loksins deyrð héðan, verður dauðinn þér ekkért straff, heldur sem inngángur til betra lífs og heimferð til Föðursins, því fyrir þína, mína og allra manna synda-skuld, er Jesús sleginn, píndur, krossfestur og deyddur — „Sannarlega" segir Ritníngin „bar hann vor kránkdæmi, og vorum píslum (sem vér höfðum verðskuldað) hlóð hann uppá sig; fyrir vorra misgjörða sakir er hann særður, og fyrir vorra syndaskuld, er hann lemstraður. Hegníngin lá á honum, svo að vér hefðum friðinn og fyrir hans benjar erum vér heilbrygðir orðnir." Ættum vér ekki að elska svo gjæðskuríkann Frelsara, sem svo náðarsamlega tók oss að sér, sem frelsað hefir oss

frá svo ótal mørgum ángurðstundum, afrekað oss Guðs náð og hæfilega gjørt eilífrar sælu. O! látum okkur elska hann, barnið mitt! hann elskaði oss að fyrrabragði, við skulum géfa honum gjørvallt vort hjarta og á hvørjum deigi vegsama hann með góðum og nytsømum athøfnum, því þessvegna hefir hann frelsað oss frá synd og øllu ránglæti, að hann helgaði og tilbyggi sér søfnuð, sem kostgjæsinn væri til góðra verka, til þess géfur hann okkur kraptana, og mun á síðasta deigi krefja oss til reikníngsskapar fyrir brúkun þeirra, hvørnin vér høfum fært oss hans náð í nyt.

2 Cor 5, 21. Þann sem ekki vissi af synd, hefir Guð gjørt að synd syrir oss (eða í vorn stað látið fara með hann einsog sekann syndara), svo að vér hans vegna yrðum réttlátir fyrir Guði.

Matth. 20, 28. Mannesksjunnar sonur er ekki kominn til að láta sér þjóna, heldur að hann þjóni sjálfur og útgéfi sitt líf til lausnargjalds fyrir marga.

Jóh. 10, 28. Þessvegna elskar faðirinn mig, að eg læt mitt líf, svo að eg taki það aptur. Eínginn tekur það af mér, heldur læt eg það sjálfviljuglega, eg hefi vald til að láta það, og vald til að taka það aptur. Þetta boðorð hefi eg meðtekið af mínum føður.

Hebr. 2, 14. En af því børnin hafa hold og blóð, því er hann einnig orðin þess hluttakandi, svo að hann meðsínum dauða, gjæti svist krapti dauðans yfirráðanda.

Rómv. 5, 8. En Guð prísar sína elsku til vor, í því, að þegar vér ennþá vorum syndarar, er Kristur fyrir oss dáinn.

1 Tím. 2, 5. Því einn er Gud og einn er medalgángari milli Guds og manna, madurinn Jesús Kristur.
Rómv. 6, 23. Laun syndarinnar er daudinn, en Guds nadargáfa er eilíft líf, í Drottni vorum Jesú Kristó.
Rómv. 3, 24. Vér verdum réttlættir án verdskuldunar af Guds nád, med þeirri endurlausn, sem Jesús Kristur hefir oss afrekad.
1 Pét. 1, 18—19. Þér erud ekki med forgeingilegum munum, gulli eda silfri, endurleistir frá því hégómlega athæsi, er þér numdud af sedrum ydar, heldur med dýrmætu blódi Krists, svo sem óflekkads og lítalaus lambs.
2 Cor. 5, 14. Krists kjærleiki þvíngar oss, med því vér álýktum svo, ad fyrst einn hefir fyrir alla dáid, þá sé svo gott, sem séu þeir allir daudir.
1 Tím. 1, 15. Þad er sannur lærdómur og í allann máta medtækilegur, ad Jesús Kristur er kominn í heiminn, syndugа menn sáluhólpna ad gjora.
Jóh. 10, 12. Eg em gódur hyrdir, sá gódi hyrdir gésur líf sitt út fyrir saudina.
1 Jóh. 2, 2. Kristur er sorlíkan fyrir vorar syndir, þó ekki einúngis fyrir vorar, heldur líka fyrir allrar veraldarinnar syndir.

Eph. 1, 20. 22. Gud hefur auglýst sitt almætti á Kristi, þá hann uppvakti hann frá daudum, og setti til hægri handar sjálfum sér á himnum, yfir allann hofdíngjadóm, makt og herraveldi, og allt þad sem nafn hefir, ekki einúngis á þessari old, heldur og þeirri tilkomandi. Allt hefur hann lagt honum undir fætur og sett hann til hofdíngja yfir ollu í hans sofnudi.
Jóh. 5, 22. 23. Ekki dæmir Fadirinn nokkurn, heldur hefur hann falid syninum á hendur allann dóm, svo ad allir heidri Soninn einsog þeir heidra Fodurinn.

Hvor sem ekki heidrar Soninn, sá heidrar ekki Fodurinn (sem sendi hann.)

Matth. 28, 18. Mér er gésid allt vald á himni og á jördu.

1 Pét. 3, 22. Kristur er í himininn upp farinn og er Gudi til hægri handar, og Englarnir og voldin og kraptarnir eru honum undirgésnir.

## 46.

F. Nú er tími fyrir þig, barnid mitt! til ad géta enn nákvæmar þekkt Lausnara þinn. Hvörsir eru mannsins partar? B. Líkaminn og sálin. F. Þetta átti líka heima hjá vorum Endurlausnara, en hann var þaradauki einnin Guds Sonur. Er Gud almáttugur? B. Já. F. Guds Son er líka almáttugur. Er Gud allstadar nálægur? B. Já. F. Guds Son er líka allstadar nálægur. Guds Son er þá líka gódur, réttlátur, alvitur, óumbreytanlegur og eilífur Gud, einsog fadirinn. Hjá þínum Endurlausnara hefur þú tvent ad adgreina; hann er sá eilífi, almáttugi og allstadar nálægi Guds Son, og líka sannur madur, fæddur af Maríu mey. Guds Sonur hefur svo nákvæmlega sameinast manninum Jesú, sem María mey fæddi í heiminn, ad bædi Guds Son og madurinn Jesús eru einúngis ein persóna, einn Drottinn Kristur. B. Þad er þúngskilid. F. Satt er þad, barnid mitt! Hefur þú ekki sál? B. Jú. F. En líkama? B. Ojú, líka. F. Eru ekki líkami og sál, til samans, einn madur, sem þú ert? B. Þad

er víst um það. F. Svo er háttað með Krist, hann er Guðs Son, hann er Maríu Son og hvørttveggja verður, líkt einsog líkami og sál, að einni persónu, sem heitir Kristur. Eg á bágt með að gjøra þér þetta skiljanlegt, því það er oss ofvarið, eins og stendur í hverinu þínu, þar sem talað er í 4ða kapit. um manndóms-tékníngu Guðs Sonar: „Hann sameinaði þá guðdómlegu náttúru við ena manndómlegu, sem tilbúin var í móðurlífi af heilags Anda krápti, með þeim hætti sem vér ekki gétum skilið, svo hann er undireins Guð og maður og verkar ætíð með báðum sínum náttúrum." Þú sjerð þarna silfur-staupið á borðinu, gullið er á því bæði innan og utan, en er hér ekki bæði gull og silfur til samans einn hlutur? Verður ekki gullið gull, þó það sé á silfrinu? B. Allteins fyrir það. F. Þetta er að sönnu ónáin líkíng og ófullkomin, en svo verður eins Guðs Son í sinni guðdómlegu hátign ætíð Guðs Son, jafnvel þótt hann sameinist manninum Jesú í einni persónu. B. Guðs Son hefur þá ekki hætt að vera Guð, þegar hann varð maður? F. Nei, barnið mitt! Guð gétur aldrei hætt að vera Guð, hann er óumbreytanlegur; skilurðu þetta? B. Eg veit ekki — það held eg. F. Héruppá hlýða þessar ritníngargreinir, sem í rauninni eru þúngskildar fyrir þig:

Jóh. 1, 14. Ordid (Guds Son) vard madur sem bjó med oss.

Jóh. 3, 16. Svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf sinn eingétinn Son, til þess ad hvørr sem á hann trúir ekki skuli fortapast, heldur hafa eilíft líf.

1 Jóh. 1, 7. Blódid Jesú Krists, Guds Sonar, hreinsar oss af allri synd, þ. e. Guds Son hefur útgéfid sitt líf svosem madur fyrir oss.

B. Svo er þá Guds Son fyrir okkur dáinn!
F. Ad vísu má segja svo, Gud sjálfur gétur ekki dáid, en Guds Son gaf sína manndómlegu náttúru í daudann fyrir oss, eda í vorn stad, og þad lausnargjald, ad hann gaf líf sitt í daudann, álítur Gud, einsog allir menn hefdu daudann lidid fyrir þeirra synda skuld. Ritníngin segir:

2 Kor. 5, 14. Ad fyrst hann einn sé dáinn fyrir alla, sé svo gott sem séu þeir allir daudir.

1 Jóh. 2, 2. Því hann (Jesús Kristur) er forlíkun fyrir vorar syndir, þó ekki einúngis fyrir vorar, heldur líka fyrir allrar veraldarinnar syndir.

Ef sá væri fyrir oss dáinn, sem ekki hefdi verid meiri enn madur, gætum vér enn þá efast um, hvørt hann hefdi burttekid allt vort syndastraff; en fyrst ad Jesús, svo miklu ædri øllum mønnum, sem hann var Guds eginn Sonur og ímynd Fødursins veru, leid fyrir oss ósegjanlegar

kvalir á sál og líkama og daudann sjálfann, þá hlýtur endurlausn hans ad vera fullgyld og vel medtekin af Gudi, þá gétum vér med fullti sannfæríngu reidt oss uppá, ad Gud vilji hans vegna fyrirgéfa oss syndirnar og láta oss úr býtum bera eilífa sáluhjálp.

Róm. 8, 31—34. Sé Gud med oss, hvørr kann þá vera á móti oss? hann sem ekki þyrmdi (hlífdi) sínum einka Syni, heldur gaf hann út fyrir alla oss, hví skyldi hann ekki géfa oss alla (góda) hluti med honum? hvørr vill áklaga Guds útvalda? Gud er sá sem réttlætir; hvørr vill fordæma? Kristur er sá sem dáinn er, já, miklu meir, sem líka er upprisinn, situr vid Guds hægri hønd og bidur fyrir oss.

Lof og dýrd og þakkargjørd sé þér, gædskuríki Gud! ad þú hefir géfid þinn eingétinn Son í daudann fyrir oss, svo ad hann á sínu heilaga mannlega holdi, lidi fyrir vorar syndir, svo marga og mikla kvøl og pínu, og þarmed afrekadi oss syndanna fyrirgéfníng og eilífa sáluhjálp. Æ, hvørnin fáum vér nóglega eda verduglega vídfrægt þenna ómetanlega velgjørníng, eda þakkad þér þar fyrir einsog verdugt er, med hreinu hjarta og rádvøndu framferdi.

Ebr. 5, 8—9. Og þótt Kristur Guds Sonur væri, lærdi hann hlýdni, af því sem hann leid,

og er, eptir sína uppháfníngu, orðinn öllum þeim sem honum hlýðnast, uudirrót til æfarandi farsældar.

1 Jóh. 4, 9. Í því opinberast kjærleiki Guðs til vór, að Guð sendi sinn eingétinn Son í heiminn, svo vér skyldum lifa fyrir hann.

Gal. 4, 4—5. En þá uppfylling tímans kom, (þ. e. sá af Guði ákvarðaði tími), sendi Guð sinn Son, fæddann af kvinnu og lögmálinu úndirgéfinn, svo að hann keypti þá fría, sem undir lögmálinu stóðu og vér feingjum Sonar útvalníngúna (fulltíða barnarétt.)

Kólofs. 2, 9. Í honum býr öll guddómsins fyllíng líkamlega.

Jóh. 10, 30. Eg og Faðirinn, við erum eitt.

Jóh. 8, 18. Áður enn Abraham varð til, var eg.

— 5, 19. Sonurinn gétur ekkért gjört af sjálfum sér, nema það sem hann sjer föðurinn gjöra, því það sem hann gjörir, það gjörir og Sonurinn sömuleiðis.

— 5, 23. Allir skulu heiðra Soninn einsog þeir heiðra Föðurinn, hvörr sem heiðrar ekki Soninn, heiðrar ei heldur Föðurinn, sem hann sendi.

## 47.

F. Hefur þá Kristur uppá sig tekið syndastraff allra manna? B. Já, Drottinn lagði allar vorar syndir uppá hann. Ef vér syndgum, höf-

um vér árnadarmann hjá føðurnum, Jesúm Krist þann réttláta, hvør að er forlíkun fyrir vorar syndir, og þó ekki einúngis fyrir vorar, heldur og fyrir allrar veraldarinnar syndir. F. Hvað skilst þá undir nafninu verøld? B. Allir menn í verøldinni. F. Rétt er það; verður þá einginn maður fyrir syndir sínar straffaður? B. Nei. F. En þó var núna um daginn maðurinn, sem stal, dæmdur til að hýðast. B. Ojá, satt var það; en hafði þá ekki Kristur líka liðið fyrir þetta straff? F. Það straff, sem af syndinni flýtur, er með tvennslags hætti, annaðhvørt af Guði eða mønnum álagt. Drottinn Jesús hefur allt syndastraff borið, sem vér af Guði vænta máttum; því ekki er Jesús, barnið mitt gott! vor meðalgángari og forlíkunarmaður frammi fyrir mønnum eða fyrir veraldlegum rétti, heldur hjá Guði. B. Vér høfum þá ekki fyrir neinu straffi að kvíða hjá Guði vegna vorra synda? F. Nei, ef að vér annars viðurkennum og meðtøkum Jesúm fyrir vorn forlíkunarmann og Frelsara, með øðrum orðum: efað vér trúum á hann. B. Þá þurfum vér ekki framar að óttast fyrir neinu straffi. F. Nei, það er þá eins og vér øldúngis ekki syndgað hefðum. Guð álítur oss þá fyrir Krists sakir svo sem réttláta og heilaga menn, því að Kristur hefur borgað alla vora skuld; vér høfum þessvegna svo sem Guðs børn, hlutdeild feingið í Guðs elsku, í hans vernd

og øllum þeim velgjørníngum, sem hann veitir þeim góðu. Fyrst vér erum þá réttlátir ordnir fyrir trúna, høfum vér frið við Guð, fyrir vorn Drottinn Jesúm Kristum. Rómv. 5. B. Þá er ekki leingur neitt straff til, og vér meigum jafnvel lifa og láta svo sem vér viljum. F. Hvørnin þá, barnið mitt gott! er ekki vanþakklætið við menn einhvør hinn skammarlegasti løstur? B. Jú. F. Skyldir þú þá vera svo vanþakklátur við Guð, að vilja styggja hann enn á ný með syndunum? Hefur hann ekki skapað þig til þess, þú skyldir gjøra gott og með hlýðninni við hans boð, heiðra hann? B. Jú. F. Hefur hann ekki allt eins líka þessvegna látið sinn eingétna Son frelsa þig frá allri sekt og straffi þinna mørgu synda, að þú mættir komast hjá fordæmíngunni, en lifa eptir hans vilja í heilagleika og réttlæti. Heldur þú, að vor Drottinn Jesús hafi þessvegna útgéfið sitt dýrmæta líf í dauðann fyrir mennina, að hann útvegaði þeim vondu þarmeð leyfi til að syndga með þverúð og uggleysi? B. Æ, fyrirgéfið þér mér fávitsku mína, eg huxaði ekki eptir þessu. F. Taktu þá eptir því sem eg hefi sagt! Hvað heldurðu, ef einhvørr faðir ætti óhlýðinn son, sem hefði steipt sér í skuldir, og með syndum sínum bakað sér fángelsi, en faðirinn af føðurlegri ésku leysti hann úr fángelsinu og fríaði hann við skuldirnar, en sá vondi sonur gjørði sig alltaf sekann í nýum og nýum synd-

um, og ynni til ad komast aptur undir yfirvaldsins hendur., mundi þá ekki sá gódi fadir um sídir sá þenna þrjótskufulla son yfirvaldinu á hendur, til ad straffa hann eptir maklegleikum? B. Maklegt væri þad! F. Mundi þá ekki straff þvílíks manns verda stærra enn í fyrra sinni? B. Trúlegt þykir mér þad. F. Svoleidis breytir Gud vid þá, sem hann med síns Sonar dauda hefur frelsad frá eilífu fángelsi og óførum daudans, en sem med nýum syndum hafa bakad sér nýtt straff, sem seldt hafa sig aptur syndinni til þjónustu, til þess ad nýu ad verda fyrir hennar sekt og straffi. Hann breytir loksins vid þá eptir réttlæti sínu og víkur frá þeim med sinni nád, og gefur þá á vald þeirra eigin vonda vilja; en þegar þeir hafa svo leingi frammfarid og drýgja eina synd eptir adra, falla þeir um sídir í eilífa gløtun, því, ef ad vér framveigis, segir Ritníngin, Ebr. 10, 26. syndgum viljandi eda af ásettu rádi eptir þad vér høfum ødlast þekkíngu sannleikans, þá gefst oss eingin fórn framar fyrir syndirnar, heldur óttaleg eptirbid dómsins og brennandi vandlætíng, sem fortýna mun þeim þverbrotnu, 2 Cor. 5, 15. því Kristur er þessvegna fyrir alla dáinn, svo ad þeir sem lifa, skuli ekki framveigis lifa sér, heldur þeim, sem fyrir þá er dáinn og upp aptur risinn. Vildir þú þá ekki gjarnan hlýda honum, þínum elskulega Endurlausnara? B. Af hjarta vildi eg óska

að eg gjæti það. F. Hefur þú þá í raun og veru einlæglega ásett þér, að drýgja ekki framveigis vís-vitandi eða af ásetníngi neina synd? B. Já, þetta hefi eg einsett mér og vil með Guðs hjálp héreptir gjöra. F. Og að framkvæma allt gott? B. Já, svo mikið sem mér er mögulegt. F. Guð mun þá líka styrkja þig; með hans hjálp munt þú géta gjört margt gott. Og þú skalt vita fyrir víst, barnið mitt! að þinn Frelsari vill kröptuglega veita þér sína aðstoð til að forðast allt íllt, en framkvæma margt og mikið gott. B. Hvaða aðstoð er það? F. Það er sá heilagi Andi og um hann vil eg fræða þig á morgun.

Mark. 16, 16. Hvörr sem trúir og verður skírður, skal hólpinn verða, en hvör sem ekki trúir, mun fordæmast.

Matth. 7, 21. Þeir munu ekki allir, sem til mín seigja: Herra, Herra! koma í himnaríki, heldur þeirr einir, sem gjöra vilja míns himneska Föðurs.

Jóh. 14, 23. Jesús seigir: sá sem elskar mig, hann mun varðveita mitt orð, og Faðir minn mun elska hann og til hans munum við koma og taka oss bólfestu hjá honum; en sá, sem ekki elskar mig, hann varðveitir ekki mín orð.

Rómv. 2, 4. Forsmáir þú ríkdóm hans gjæðsku, þolinmæðis og lánglundargéðs? Veitstu ekki, að góðgyrni Guðs leiðir þig til yfirbótar.

Jóh. 3, 18. Hvør á Soninn trúir, fordæmist ekki, en hvør hann trúir ekki, sá er nú þegar fordæmdur, því hann trúdi ekki á nafn Guds eingétins Sonar.

Jak. 2, 17, 20. Ef trúin hefir ekki verkin, þá er hún daud útaf fyrir sig; en einhvør seigir: þú hefur trú, og eg hefi verk. Sýn mér þá trú þína án verka þinna! eg skal sýna þér mína af mínum verkum! þú trúir ad Gud sé einn, þú gjørir vel, ogsvo djøflarnir trúa og skélfast.

Rómv. 6, 12. 14. Þarfyrir ríki ekki syndin í daudlegum líkama ydar, til ad hlýda henni í hans gyrndum. Ljáid ekki limu ydar syndinni fyrir ránglætis verkfæri, heldur framberid Gudi sjálfa ydur, svo sem lifandi úr daudum, og limi ydar réttlætis verkfæri Gudi, því ad syndin skal ekki drottna yfir ydur, þar þér erud ekki undir løgmáli, heldur nád.

1 Cor. 6, 20. Þér erud dýru verdi keyptir, vegsamid því Gud med ydar líkama.

Tít. 1, 16. Þeir vidurkénna, ad þeir þekki Gud, en neita því med verkunum, þeir eru vidurstyggilegir, þverúdarfullir og til hvørs góds óhæfir.

1 Pét. 1, 15. 16. Einsog sá er heilagur, sem ydur hefir kallad, svo verid þér einnig heilagir í øllu ydar dagfari; því svo er ritad:

3 Mós. b. 19, 2. Verid heilagir! því eg er heilagur, Drottinn ydar Gud.

Eph. 1, 4. Gud hefur útvalid oss fyrir Kristum,

ádurenn verøldin var grundvølluð, að vér skyldum vera heilagir og óstraffanlegir fyrir hans augsýn í kjærleikanum.

Eph. 2, 10. Vér erum Guðs verk, skapaðir í Jesú Kristi til góðra verka, sem Guð hefur fyrirfram tilætlað, að vér stunda skyldum.

Tit. 2, 11. 14. Guðs sáluhjálplega náð er kunn orðin øllum mønnum og kénnir oss, að vér skulum afneita ógudlegu athæfi og veraldlegum gyrndum, en lifa sparlega, réttvíslega og guðrækilega í heimi þessum, þar vér lifum í von um sælu og dýrðlega auglýsingu hins mikla Guðs og vors Endurlausnara Jesú Krists, sem sjálfann sig gaf í dauðann fyrir oss, svo að hann endurleysti oss frá allskonar ránglæti og hreinsaði sér sjálfum fólk til eignar, það er kostgjæfið væri til góðra verka.

1 Pét. 2, 21. 24. Kristur hefur liðið fyrir oss, og géfið oss eptirdæmi, að vér skyldum feta í hans fótspor; hvøreð sjálfur bar vorar syndir á sínum líkama uppá tréð, til þess að vér, dauðir frá syndunum, lifðum réttlætinu, fyrir hvørs undir þér eruð læknaðir.

2 Pét. 2, 20. 21. Því ef þeir, sem hafa umflúið saurlifnað veraldarinnar, fyrir þekkingu Drottins og Frelsarans Jesú, verða aptur þar í flæktir og yfirunnir, þá verður þeim hið síðara verra hinu fyrra; því betra var þeim

ekki ad þekkja veg réttlætisins, enn þekkjandi ad snúa aptur frá því heilaga bodordi, sem þeim var gefid.

## 48.

B. Hvørr er nú sá heilagi Andi, um hvørn þér í gjær lofudud ad seigja mér? F. Þetta efni er eg hræddur um ad verdi þúngskilid fyrir þig. Vid skulum því fyrst bidja gódann Gud, ad hann kénni okkur sjálfur rétt ad þekkja sannleikann; æ, gódi Gud! þú veitst, ad vid af sjálfs dádum fáum ekki rétt þekkt eda skilid, hvørr og hvílíkur þú sért. Opna vorn skilníng og leid okkur sjálfur í allann sannleika, svo ad vér lærum ad þekkja þig, og fyrir þad gétum ordid sáluhólpnir. Hvørn høfum vid nú bedid? barnid mitt! B. Gud. F. Er nema einn Gud til? B. Einginn er Gud til nema sá eini. F. Hvør er nú Gud? B. Himins og jardar almáttugi Skapari. F. Sá sem er almáttugur Skapari, er hann þá ekki Gud? B. Vissulega. F. Heyrdu nú hvad Ritníngin seigir um Guds Son, vorn Endurlausnara.

Kóloss. 1, 16. Fyrir hann er allt skapad sem er á himni og jørdu.

Jóh. 1, 3. Allir hlutir eru fyrir þad ordid, (sem hér kallast: Guds Son), gjørdir, (og án þess ekkért).

1 Kor. 8, 6. Vér høfum ekki nema einn Gud, Fadurinn, frá hvørjum allt er, og vér líka,

og einn Drottinn, Jesúm Krist, fyrir hvørn allt er, vér líka.

Héraf sjer þú ad fyrir Guds Son eru allir hlutir skapadir; er hann þá sá almáttugi Skapari? B. Já. F. Hann er þá líka almáttugur Gud? B. Já, þad erud þér búnir ad kénna mér, ad Guds Son, einsog Gud Fadir, sé almáttugur, allstadar nálægur, eilífur og alvitur. F. Rétt, barnid mitt! svo á hann einsog Fadirinn ad vera tilbedinn? B. Já. F. Þarfyrir sagdi hann sjálfur, vor Drottinn Jesús Kristur, ad hann hefdi sjálfann sig þessvegna fyrir mønnum auglýst: ad allir skulu heidra Soninn einsog þeir heidra Fødurinn; hvørr sem ekki heidrar Soninn, sá heidrar ekki Fødurinn heldur; Jóh. 5, 23. Hvørn á þá ad tilbidja? B. Gud Fødur og Guds Son. F. Hvørsvegna líka Guds Son? B. Vegna þess hann er einsog Fadirinn: Gud almáttugur og allstadar nálægur. F. Þad sama er nú, barnid mitt! heilagur Andi. Veit Gud alla hluti? B. Já. F. Sá heilagi Andi veit allt hvad í Gudi er, 1 Cor. 12, 11. Flýtur ekki þaraf, ad hann veit alla hluti? B. Jú, ef hann veit allt hvad í Gudi er. F. Hvørr géfur øllum allt? B. Gud sem er allstadar nálægur. F. Um heilagann Anda er þad líka sagt, 1 Cor. 12, 11. Heilagur Andi útskiptir øllum mønnum allstadar sínum gáfum eptir sem hann vill; hann hlýtur þá ad vera allstadar ná=

lægur. B. Jú. F. Hvørsvegna? B. Af því hann er mønnum hvervetna veitandi. F. Sá, sem er alvitur og allstadar nálægur, er hann ekki Gud? B. Jú. F. Þessvegna baud vor Drottinn Jesús, ad menn skyldu skírast í nafni Guds Fødurs, Sonar og Anda heilags, þ. e. skuldbindast til hans dýrkunar og tilbeidslu. A þá ekki heilagur Andi líka ad verda tilbedinn? B. Jú. F. Hvørsvegna? B. Af því hann einsog Fadirinn og Sonurinn er alvitur og allstadar nálægur. F. Rétt, barnid mitt! en taktu nú vel eptir einu, sem eg ætla ad seigja þér! B. Hvad er þad? F. Þad, ad Fadir, Sonur og heilagur Andi eru svo nákvæmlega sameinadir hvørr ødrum, ad þeir eru einsog eitt og hid sama og einn guddómur. B. Já, eg vil muna eptir þessu: þad er einúngis einn guddómur; Fadir, Sonur og heilagur Andi, eru svo nákvæmlega sameinadir, ad þeir eru einúngis eitt, einúngis einn einasti guddómur. F. Rétt er þad, og svo ad vér mennirnir gjætum því greinilegar þeinkt og talad um Gud, er þess vel ad gjæta, ad sérhvør persóna guddómsins hefur sérdeilislega opinberad sig. Fadirinn hefur skapad alla hluti fyrir Soninn og gefid þenna sinn elskulega Son til ad endurleysa alla menn. Sonurinn — fyrir hvørn Fadirinn hefur allt skapad — hefur gefid sína manndómlegu náttúru í daudann vor vegna, og med sínum dauda fridþægt oss vid

Føðurinn. Heilagur Andi tilbýr og lagar vor hjørtu og helgar þau, svo ad vér hluttakandi verdum í þeirri sáluhjálp, sem Fadirinn vill oss gefa og Sonurinn hefur oss afrekad; þessvegna kallast Gud: „sá Þríeini Gud.“ Tilbidjum vér þá nema einn guddóm? B. Nei, því ad Fadir, Sonur og heilagur Andi eru svo nákvæmlega sameinadir hvørr med ødrum, ad þeir eru einasta eitt, einn einasti sannur Gud. F. Svo blessi þá Fadir, Sonur og heilagur Andi. þessa vidurkénníng í þinni sálu; hann vardveiti þig frá allri villu í þessum háleita og heilsusamlega lærdómi, hann leidi þig framveigis í allann sannleika og hjálpi þér fyrir hann til eilífs lífs, Amen.

## 49.

F. Hefur þá heilagur Andi nú þegar sýnt á þér sínar gódu verkanir? B. Þad vona eg. F. En veistu, hvønær hann einkanlega hefur byrjad á þessu verki hjá þér? B. Nei. F. Í skírninni. B. Fyrir laungu hefur mig lángad til ad vita, hvørsvegna menn eru skírdir. F. Eg skal þá strax seigja þér þad, barnid mitt! urdu ekki Adam og Eva syndug, þegar þau átu af því forbodna tré? B. Jú. F. Frá þessum tíma vard sál og edli þeirra spillt og skémt, og jafnvel þótt Gud med sínum anda leidrétti þau, svo sem þá unnt var, høfdu þau ætíd sídan tilhneigíngu til

ills. Hvørja ávexti — heldurðu — ber það tré sem er gott? B. Því spyrjið þér mig að þessu? Góðir ávextir koma náttúrlega af góðu tré. F. Hvørnin eru þá ávextir af vondu tré? B. Vondir. F. Apekktvar, til að mynda, varið þeim Adam og Evu, hvørra eðli var fordjarfað; þau gátu líka syndum = spillt børn. Hvørnin hafði Guð skapað manninn? B. Góðann, eptir sinni mynd. F. En sá af syndinni spillti Adam, gat nú son eptir sinni mynd, þ. e. eins syndugann og hann var sjálfur. A þennann hátt fæðast allir menn með syndumspilltri náttúru eða eðli. Þessvegna seigir Ritníngin, Gen. 8, 20. „Þánkar hjarta mannsins eru í frá barndómi vondir", því seigir og Jesús, Jóh. 3, 6. „hvað af holdi (syndugu) er fætt, það er (syndugt) hold", og Postulinn Páll seigir: Ef. 2, 3. „Vér erum af náttúrunni til reiðinnar børn, þ. e. syndarar, hvørja Guð, í sinni réttlátu reiði, mun straffa, ef þeir halda áfram að syndga". En hafa úngbørnin nýfædd unnið til straffs? B. Ekki held eg það, því þau fæðast saklaus og óflekkuð af synd. F. Hvørnin sagði eg þér áðan að háttað væri eðli allra manna? B. Það væri spillt og saurgað, því allir menn væru hvørr af øðrum í syndinni gétnir og af syndugum foreldrum fæddir. F. Mun þá ekki við børnin loða þetta synduga eðli, búa ekki í þeim vondar tilhneigíngar, þó ekki á beri strax, og tilefni eða møguleg-

leiki til ad syndga? B. Jú, þau hafa það af foreldrum sínum; en — eiga þau ad gjalda þess? F. Ekki gjalda þau þess hjá Gudi og ekki verda þau strøffud, fyrr enn þau sjálf hafa unnid til straffs. B. Eg skil samt ekki hvørnin þau þurfa ad betrast, sem ekkért íllt hafa gjørt. F. Skilurdu ekki það, ad þeim rídur á einsog ødrum ad verda betri og betri, fyrst ad syndugar gyrndir búa í þeim, sem brjóstast vilja út strax er vitid vaknar? B. Jú. En hefur barnid med Skírninni feingid fyrirgéfníngu þeirra synda, sem það eptirá kynni ad drýgja? F. Nei, heldur er því einúngis uppgéfin øll (erfda) syndasekt, sem vid það lodir, ef það ekki med aldrinum eykur spillíngu sína og gjørir sig óverdugt þeirrar nádar, sem því med Skírninni er veitt. Frá þeirri tíd þú varst skírdur hefur Guds kraptur í heiløgum Anda unnid ad þinni betrun og sáluhjálp, verid þér nær staddur og bodid þér þær gjafir, er umbreyta mannsins hug og hjarta, og endurfæda hann til eilífs lífs. Med Skírninni ødlast þá børnin rétt og adgáng til dýrmætrar arftøku í eilífri sælu. B. Mér hefur þá hlotnast allt þetta þegar eg var skírdur? F. Já, ef þú ekki brýtur af þér þessa Guds nád. B. O, eg þakka ydur þá innilega fyrir, ad þér hafid látid skíra mig og géfid mér kristid nafn, og þarmed veitt mér rétt og adgáng til Guds ríkis og þeirra velgjørnínga sem Jésús

Kristur kom til ad veita; en koma þaú børn í Guds ríki sem deya óskírd? F. Jú, þú sagdir mér sjálfur ad børnin fæddust hrein og saklaus, og Jesú ord til barnanna: **Leyfid børnunum til mín ad koma — ná eins til þeirra — þeirra er himnaríki.** B. En af hvørju gétum vér vitad, ad þetta kémur fram vid børnin í skírninni? F. Gud hefur sjálfur látid oss vita þad fyrir munn Postulans **Páls** í Sendibréfinu til Tít. 3,. 56.

*Eptir sinni miskunsemi hefur Gud oss hólpna gjørt med endurgétníngarlauginni og endurnýúngunni, sem skédur af heiløgum Anda, hvørjum hann hefur ríkuglega úthellt yfir oss, fyrir Jesúm Krist vorn Frelsara, svo vér réttlættir fyrir hans nád, yrdum erfíngjar eilífs lífs eptir voninni.*

Þetta hefur þú annars lært í Skírnar Sakramentinu í **Fræda kveri** þínu. Eg skal á morgun útlista þad betur fyrir þér.

## 50.

F. Hvørnig hljódar nú ritníngargreinin sem vid tøludum seinast um í gjær? B. „Eptir sinni miskunsemi hefir Gud oss hólpna gjørt med Endurgétníngarlauginni," en hvad er þessi Endurgétníngarlaug? F. Svo kallast Skírnin. B. Hvørsvegna þá? F. Í Austurløndunum er hiti mikill, þar voru þeir fyrstu kristnu skírdir med þeim hætti,

sem eg skal nú segja þér frá: Sá sem átti að skírast, var leiddur fram að einum læk eða vatni, fór hann þá úr øllum føtunum nema skirtunni, óð útí vatnið og dífði sér niður í það, eins og þegar menn ætla að baða sig, einhvør kristinn kennifaðir, eða annar kristinn maður var þá nærstaddur, og talaði þessum orðum: Eg skíri þig í nafni Guðs Føðurs, Sonar og heilags Anda, þ. e. til að trúa á Guð Føður, Son og heilagan Anda, með elsku, lotníngu og hlýðni. Af þessari laug, eða ídífíngu í vatnið dregur skírnin sitt nafn, að heita Endurfæðíngarlaug; en þú munt þá eiga eins bágt með að skilja hvað þetta orð „Endurgétníng" þíðir? B. Það veit eg ekki hvað þíðir. F. Þegar vondur maður verður allt annar maður, og breitir sér, svo hann verður góður maður, segir maður þá ekki að hann sé orðinn (einsog) nýr maður? B. Já. F. Svo søgðu menn líka á Krists døgum; þegar einhvørr vondur maður varð góður, eða snéri sér frá hjátrú sinni og villu til réttrar trúar og sannrar Guðsdýrkunar, tóku menn svo til orða, að hann væri nýr maður, endurfæddur, eða endurgétinn, og þetta, barnið mitt! er hjá kristnum meira enn nafnið tómt; var ekki eðli þitt, þegar þú fæddist, gjørspillt? B. Já. F. Í þeirri heiløgu skírn byrjaði Guð að umbreita þér og gjøra úr þér nýjann og betri mann, sagðir þú ekki áðan að Guð hefði oss hólpna gjørt, með endurgétníngar-laug-

inni þ. e. þeirri heilögu skírn; gétur sá madur ordid hólpinn sem ekki betrast? B. Nei. F. Þess- vegna stendur þar hjá, „med endurnýúnginni, sem skédur fyrir heilagann Anda"; hvør gjørir oss þá ad nýum mønnum í skírninni? B. Heilagur Andi. F. Fyrir hvørn verdur hann úthelltur yfir oss? B. Fyrir Jesúm Krist. F. Og hvad verdum vér, þegar vér høfum medtekid heilagan Anda? B. Erfíngar eilífs lífs. F. Kémur þá nokkur umbreitíng á menn med skírninni? B. Ekki man eg eptir því ad eg hafi verid skírdur, eda, ad í þad sinn hafi nokkur umbreitíng hjá mér skéd. F. Því gét eg trúad, en manstu þá hvad þér leid þegar þú komst í heiminn? B. Nei. F. Ránkar þig nokkud vid þvísem fram vid þig kom, á fyrstu mánudunum, sem þú lifdir? B. Ekkért ránkar mig vid því. F. Mun samt ekkért hafa komid fram vid þig þá, ætli þú hafir þá ekki bædi etid, drukkid, sofid og grátid? B. Þad má víst hafa verid, ad eg hafi gjørt þad einsog ønnur børn. F. Og þó manstú ekkért eptir því? B. Nei. F. Eins er med sál þína varid; med sínum anda var Gud verkandi á þig, þó ekki gjætir þú fengid þá strax þekkíngu á honum eda hans ordi, einsog þú nú hefir fengid, vit þitt var þá svo lítid, ad þess gjætti ekki í fyrstu, en brádt fór ad bera á því, ad þú hafdir skynsemi, og vitid og greindin fór smátt og smátt ad vaxa og hvørsu margar gódar hræríngar mun

Guð ekki nú hafa vakið hjá þér, sem þú varst ekki var við, enn síður að þú gétir munað til þess, og hvørsu óvidrádanlegri mundir þú hafa orðið, ef Guð hefði ekki stjórnað þér með sínum anda? Finnur þú ekki til mikillrar órósemdar hjá þér, þegar þér hefir eitthvað íllt orðið á? B. Ojú, eg skammast mín þá, og er kvíðandi og hræddur. F. En finnur þú ekki til ánægju, þegar þú hefir verið uppfræddur í einhvørju af Guðs orði? B. Jú. F. Koma ekki inndælar og góðar hræríngar upp í sálu þinni, þegar þú ert ásamt veð mér að biðja til Guðs? B. Jú, það finnst mér. F. Þetta má segja, að vissu leiti, að séu allt verkanir heilags Anda í sálu þinni, og svo heldur hann áfram sínum verkunum til þinnar guðhræðslu eblíngar. O! lofa og vegsama þinn góða Guð, sem miskunaði sig yfir þig strax á ómálga aldri, gjørði þig að sínu barni og meðtók þig í sinn sáttmála. B. Sáttmála? hvað er það? F. Guð hét þér í skírninni, að vera þinn náðugur faðir, vernda þig og blessa og sáluhólpinn gjøra; og þú lofaðir honum líka þá nokkru. B. Eg kunni þá ekki að tala. F. Guðfeðgin þín, eða skírnarvottar tøluðu í þinn stað og lofuðu fyrir þína hønd, að þú vildir trúa á þann Príeina Guð Føður, Son og heilagann Anda, sýna honum alla hlýðni, elsku og þjónkun, ætíð varast allt íllt, en ástunda það sem gott er og þér er fremst møgulegt. Høfum við nú gjørt

rétt, ad vid høfum lofad þessu, í þínu nafni, eda fyrir þína hønd? ertu ánægdur med þad? B. O, hví skyldi eg ekki vera þad! F. Er þér ekki yndælt, þegar þú finnur med sjálfum þér, ad þú elskar mig? B. Þad er mér ánægja og yndæli. F. Skyldi þér þá ekki vera yndælt, ad vera þér þess medvitandi, ad þú elskir Gud eins og gott barn, og meigir svo vænta alls góds af honum og treysta honum ætíd og bidja hann um allt sem þú þarft med? mundi þad ekki gledja þig, ef þú úr gjørspilltum manni og aumum, yrdir ad gódum og dygdugum lánsmanni, eda lángar þig ekki mikid ad verda og vera kristinn? Nú ertu, barnid mitt! med skírninni inntekinn í kristinna manna tølu, þ. e. þeirra sem trúa á Krist, þú hefir þarmed feingid rétt til ad bidja Gud, sem gódann fødur, Jesúm Krist, sem þinn Drottinn og Endurlausnara, honum ad þjóna, hann ad elska, og af honum alls góds ad vænta; þú ert med skírninni settur í nákvæmara samfélag og samband, med ødrum gódum kristnum mønnum og hefir þá von, ef þú óttast Gud, ad komast ad lyktum í sambúd þeirra sælu anda á himnum og gledjast þar medur þeim, hjá Gudi og þínum Herra Jesú Kristi í endalausum føgnudi.

En svo ad skírnin skyldi hafa tilætlada verkun og krapt til sáluhjálpar, hefur þad verid víslega tilsett, ad þegar børnin kjæmu til vits og ára og

uppfrædd væru ordin í kristilegri trú, skyldu þau opinberlega og hátídlega medkénna trú sína sjálf og lofa eda undirgángast þad sama, sem adrir fyrir þeirra hønd lofudu, þegar þau voru skírd, sem er, ad afneita øllu ógudlegu athæfi, trúa á Gud Fødur, Son og heilagann Anda, og audsýna þessa trú, med dygdugu líferni og aldrei gleyma þessu lofordi eda brjóta þad. Vid þessa heiløgu athøfn, sem kallast Confirmatíón, þ. e. stadfesting Skírnarinnar, fær Skírnin nýann krapt og verdur enn meir skuldbindandi fyrir þann, sem skírdur er, því nú lofar hann Gudi því sjálfur, sem hann hefir nú vit á ad lofa og feingid vilja til ad efna; en fyrir þad missir ekki Skírnin sitt verd eda ágjæti, því hún er og verdur ætíd hin sterkasta skuldbinding fyrir mann, ad efna og halda þad, sem hann eda adrir hans vegna hétu Gudi, og er þessvegna eitt hid krøptugasta betrunar- og sáluhjálpar-medal. Vid skulum þá, barnid mitt! lofa og vegsama Gud fyrir alla þá velgjørnínga sem Gud med Skírninni hefir veitt oss adgáng til, og endurnýum þann sáttmála, sem þú í þad sinn gjørdir vid Gud, og af hvørjum þú nú ert gladur. Lof og þakkir sé þér, elskulegi Fadir á himnum, ad þú strax í Skírninni hefir byrjad ad betra mig, sem eptir mínu syndumspilta edli var vondur; eg vil jafnan bidja þig og ákalla sem minn góda Gud og Fødur, þú hefir mig skapad, þú hefir fyrir Jesúm

Krist minn Frelsara, forlíkað mig við þig, þú hefir helgað mig með þínum anda; sála mín heyri þér til með øllum sínum krøptum og hjarta mitt veri þín eign; tak mig að þér, himneski Faðir! helga mig í þínum sannleika, gjør mig að dygðugum, guðhræddum og nytsømum manni, þér vil eg lifa og deya og þér tilheyra í lífi og dauða.

Mark. 16, 16. Hvør sem trúir og verður skírður, mun hólpinn verða, en hvørt hann ekki trúir, sá mun fordæmast.

Jóh. 3, 5. Nema svo sé, að nokkur verði að nýu fæddur útaf vatni og anda, kann hann ekki inn að gánga í Guðs ríki.

Ef. 5, 25—26. Kristur elskaði søfnuðinn og gaf sig sjálfann út fyrir hann, til að helga hann, þá hann með orðinu hreinsaði hann í vatnsbaðinu.

Gal. 3, 26. 27. Þér eruð allir Guðs børn af trúnni á Jesúm Krist, því svo margir af yður, sem eruð skírðir til að trúa á Krist, þér hafið íklæðst Kristi.

Ef. 4, 22 23. 24. Afleggið frá yður, eptir fyrri breitni, hinn gamla manninn, sem sig fordjarfar í gyrnðum villudómsins. Endurnýið yður í anda yðar hugskots, og íklæðist þeim nýa manni, sem eptir Guðs mynd er skapaður í sannarlegu réttlæti og heilagleika.

1 Pét. 3, 21. Vatnið gjørir oss í skírninni

hólpna, hvøred ekki er burttekt holdsins saurugleika, heldur sáttmáli gódrar samvitsku vid Gud, fyrir upprisu Jesú Krists.
Opinb. b. 2, 10. Jesús sagdi: vertu trúr allt til daudans, svo skal eg gefa þér lífsins kórónu.

## 51.

F. Manstú nú, barnid mitt! med hvørju Gud byrjadi ad efla þína betrun? B. Já, med heilagri skírn. F. En þessu mikilvæga verki þinnar betrunar heldur Gud áfram, og brúkar þar til annad medal, sem er Guds ord, hvørt ed finnst í heilagri Ritníngu. B. Þér hafid opt sýnt mér þessa heiløgu bók og bendt til hennar, hvør hefir tekid hana saman? F. Hún er ekki tekin saman af einum manni, eda á sama tíma; margir heilagir menn hafa samid hana, sem lifdu á ýmsum tímum. En til þess þú eigir sem hægast med, ad taka eptir því, sem eg vil nú seigja þér um Guds ord og þá heiløgu Ritníngu, vil eg byrja á upphafinu.

Á þeim fyrstu og eldstu tímum heimsins opinberadi Gud sig fyrir mannkyninu á margvíslegann hátt; stundum byrtist hann því, og fræddi þad um sinn vilja, stundum vitjadi hann þess í draumum (draumvitran) og aptur med ødrum hætti verkadi hann, med sínum anda, gódar hugrenníngar og áform í sálum þess.

Á medal Jakobs afkomenda eda Israels barna, lifdi Móses, um hvørn þú seinna skalt fá ad heyra og læra meira. Þessum vitra og góda manni opinberadist Gud ljósara, enn ødrum mønnum, sem á undan honum vóru, baud honum einninn ad skrifa upp í eina bók allt þad, sem hann hefdi sagt honum, um sig og sinn vilje, løggjafir sínar og bodord, og þad sem til bar um hans daga; Móses gjørdi þad og ritadi med Guds Anda adstod þær 5 Bækur, á hvørjum Biblían, eda heiløg Ritníng byrjar, og kallast eptir høfundinum Móses bækur, sem eg kém nú hérna med til ad sýna þér. Eptir hans daudá opinberadist Gud fyrir Jósúa, Samúel, Davíd og mørgum fleiri gudhræddum mønnum, hvørjir sumir kallast Spámenn, vegna þess þeir bædi kénndu þjódinni Guds vilja og fyrirsøgdu líka óordna hluti. Þeir hafa nú skrifad hinar bækurnar, sem koma á eptir Móses bókum; seinasta bókin er eptir Malakías Spámann, og géturdu hérna lesid nøfn þeirra allra, eptir þeirri rød, sem þær standa í Bibliunni, og svo þú verdir enn viljugri ad lesa í þessari heiløgu bók, vil eg géfa þér hana; eg keypti hana handa þér um daginn, þegar nýbúid var ad prenta hana, svo vel vandada og umbúna, eins og þú sjerd, ad þú gjætir átt hana alltaf, eins og annann dýrgrip og lærimeistara, sem uppfrædt gétur þig til sálu-

hjálpar; farðu nú vel með hana, barnið mitt! en þú launar mér aptur bezt með því, að lesa opt í henni og kynna þér hana, þú skalt hafa meiri ánægju og skémtun af því, heldur enn þó þú í frístundum þínum feingir að leika þér með börnunum, og af því muntú líka hafa gott til leingdar. En eg vil nú seigja þér meira um þessa Bók: öll þau rit, sem eg gat um, eru samantekin áður enn Kristur fæddist, og heita með einu nafni: það Gamla Testament, eða bækur hins Gamla Sáttmála.

Krists Lærisveinar, sem líka kallast Postular, rituðu og eptir hans dauða nokkrar bækur; þeir sem skíra frá lífssögu Frelsarans, kallast Guðspjallamenn, hvaraf tveir voru Jesú handgeingnir Lærisveinar, nefnil: Mattheus og Jóhannes, en hinir tveir (því að þeir eru 4 í allt) voru Lærisveinar Postulanna, nefnil: Markús og Lúkas. Lúkas skírir og frá í bók þeirri, sem næst á eptir kémur, hvörnig Postularnir, einkum Pétur og Páll, útbreiddu kristna trú á medal Gydínga og Heidíngja, þessvegna er þessi bók nefnd Postulanna Gjörníngabók; en hinar, sem eg áður gat um, þau 4 Guðspjöll. Postularnir Páll, Pétur, Jakob, Jóhannes og Júdas kénndu og áminntu þá fyrstu kristnu með Sendibréfum, sem við þá eru kénnd, og söfnuðina, sem þau eru rituð til; seinasta bókin í þessum sídari hluta

Biblíunnar er Jóhannesar Opinberíngar-bók. Þessi rit øll til samans tekin, sem eptir Krists fæðíngu eru áf þessum heiløgu mønnum skrifuð, heita það Nýa Testament.

Bækur þess Gamla og Nýa Testamentis, innibinda til samans það skrifaða Guðs orð, því Guð hefir uppá sérdeilislegann hátt látið þessa heiløgu menn rita þessar bækur, undir hans stjórnun og með hans aðstoð, (einsog stendur í kverinu þínu) og þessvegna stendur: „að øll heiløg Ritníng sé innblásin af Guði." B. Hvørnin á það að skiljast? F. Þegar Krists Lærisveinar tøluðu og skrifuðu eptir Guðs eða heilags Anda innblæstri, þá lét Guð þeim koma það í hug og stjórnaði þeim svo, að þeir tøluðu og skrifuðu, einsog hann með sínum anda gaf þeim inn. Þessvegna kallast hún og Guðs orð, að hún inniheldur Guðs vilja, og það orð, sem í henni er að finna, er einmidt að álíta einsog frá Guði sjálfum komið, þar það eptir hans sérdeilislegri tilhlutan er skrifað. B. Eru þá ekki aðrar bækur líka Guðs orð? F. Sumar aðrar bækur innihalda að sønnu Guðs orð, og kallast Guðs orða bækur, en þær eru ekki með sama hætti, einsog Ritníngarinnar bækur, skráðar, eptir Guðs sérdeilislegri tilhlutan, eða með heilags Anda meðverkandi yfirnáttúrlegri aðstoð. B. Af hvørju vita menn að þeim heiløgu skrifurum hafi verið stjórn-

ad af heiløgum Anda, heldur enn ødrum sem rit-
ad hafa Guds orda bækur? F. Fullkomin røk
høfum vér til ad trúa því, og bækur rithøfundanna
bera þad med sér. Ef einhvørr heilagur madur
segdi þér fyrirfram allt, hvad fram vid þig mundi
koma, þessa viku eda á þessu ári, eda jafnvel alla
æfi þína og allt rættist, einsog hann hafdi fyrirsagt
þér, mundir þú þá ekki trúa honum, ef hann segdi
þér, ad Gud hefdi blásid sér því í brjóst? B.
Jú, því þad gétur einginn madur vitad af sjálf-
um sér. F. En ef einhvør vitur og gudhræddur
madur, ekki einúngis gjæti fyrirsagt slíka ókomna
hluti, sem rættust, heldur til merkis um, ad hann
væri leiddur af Guds Anda, læknadi med einu
ordi, án allra læknismedala, þá verstu sjúkdóma,
gjæfi blindum sjón, heyrnarlausum heyrn, eda jafn-
vel gjæti gjørt dauda lifandi, mundir þú þá ekki
trúa þvílíkum manni? B. Víst mundi eg ekki géta
annad enn trúad honum. F. Nú hafa Spámenn
Gamla Testamentisins ekki einúngis sagt fyr-
ir þá hluti, sem ad fárra ára fresti komid hafa
framm, heldur og þá, sem eptir mørg hundrud ár,
í ýtrasta máta uppfylltust; gátu þeir vitad þad
af sjálfum sér? B. Nei. F. Gud hefir þá opin-
berad þeim þad, og þeir hafa af hans Anda leidd-
ir verid. En Jesús og hans Postular hafa líka
gjørt mørg og mikil kraptaverk, sem eru þau verk,
sem útheimta guddómlegann krapt, en einginn gét-

ur gjørt með sínum eða náttúrunnar krøptum, og það orðið sem þeir, í umboði Guðs og eptir hans vilja, hafa talað og ritað, hefir sýnt lífandi krapt á hjørtum svo margra þúsund manna, það hefir fyrst kénnt mønnum rétt að þekkja, hvað Guð er, hvørnig menn géti frelsast frá syndarinnar spillíngu og orðið ráðvandir, dygðugir, ánægðir og sannfarsælir; hefir þú ekki þegar af þessu sama orði feingið margar góðar áminníngar og upphvatníngar? B. Jú. F. Þegar þú neytir góðrar og hagkvæmrar fæðu og heldst af henni við heilsu og krapta, hugar þú þá ekki með þér: maturinn styrkir mig og er mér hollur, hann er frá Guði? B. Jú, mér dettur það í hug. F. Guðs orð er nú þvílík fæða fyrir sálir vorar, það endurnærir vorn anda, og eflir að øllu góðu, það huggar oss í hørmúngunum og fyllir oss von og føgnuði; þennann góða krapt hefir Guðs orð, og hefir látið ásannast á þér og mér og mørgum þúsundum manna, frá hvørjum mun það vera? B. Vissulega frá Guði. F. Þarum muntu ennfremur sannfærður verða, þegar þú enn betur og nákvæmar lærir að þekkja þetta orð, og hefur það ýduglega um hønd og lest það með kostgjæfni og alúð, íhugar það með eptirtekt og fylgir þeim góðu áminníngum, upphvatníngum og leiðarvísir, sem það géfur þér til dygða og guðhræðslu.

Jóh, 17, 17. Heilagi Fadir! helga þú þá í þínum sannleika, þitt ord er sannleikur.

2 Pét. 1, 19. Vér høfum betur stadfest spádómsordid, og gjørid þér vel ad géfa gaum ad því, svo sem því ljósi, er skín í myrkvum stad, þartil dagur ljómar og morgunstjarnan upprennur i ydar hjørtum.

2 Tím. 3, 15—16. Med því þér er kunnug heiløg Ritning frá úngdómi, gétur hún uppfrædt þig til sáluhjálpar í trúarlærdóminum um Jesúm Krist, því øll heiløg Ritning er innblásin af Gudi, og er nytsamleg til lærdóms, til sannfæringar, til leidréttíngar, til uppfrædingar í réttlætinu, svo ad Guds madur (sem kénnir og lifir henni samkvæmt) sé algjørr og til alls góds hæfilegur.

52.

F. Hefir Gud ekki leingi leitast vid ad betra þig? B. Jú. F. Med hvørju hefir hann gjørt þad? B. Med sínu guddómlega ordi. F. Ertu þá ordin allskostar gódur? er þá ekkért íllt í þér framar? B. Eg er hræddur um, ad hjá mér finnist enn þá íllt. F. Þú seigist vera hræddur um, ad hjá þér finnist enn þá íllt, en eg vil seigja þér þad uppá víst, hvørnin þínu hjartalagi er varid: þú ert nú ad sønnu alrádinn í því, ad elska þinn Gud og óttast hann og ástunda ad verda gódur og dygdugur madur, en ádur enn þessi dagur er lidinn, muntú

samt verda búinn ad gjøra eitthvad, sem strídir á móti þessum góda ásetníngi; þegar vid ávítum þig og setjum þér fyrir sjónir ávyrdíng þína, ángrast þú af því, ad hafa gjørt þad sem illt var, og munt þá lofa bót og betrun, en á morgun verdur þér máské þad sama á, eda eitthvad annad illt, ertir eda áreitir adra, hefur ósæmandi æsli og óra, gégnir ekki, þegar þér er bannad, eda gjørir med ógédi og leida, þad sem þér er skipad og þú veitst ad þú átt ad gjøra, ert latur ad læra, og sýnir á þér annadhvørt ólund eda íllsku; manstu ekki, ad þú hefir lofad því opt, ad þú viljir varast þetta? B. Jú. F. En þó verdur þér þad á hvad eptir annad, sem þú lofadir ad varast! B. Þad er satt, fadir minn gódur! en eg ángrast af því á eptir, og vildi feginn ekki hafa gjørt þad; F. Vel er þad, barnid mitt! ad þú vilt ofgjørt hafa, og ángrast á eptir, en fyrir þad verdur samt ekki þad sem íllt er, gott, og ekki þad illa apturtekid eda ógjørt látid; þegar þú hefir styggt mig í einhvørju, ertu þá ekki vanur ad gángast vid því, sem þér hefir ordid á, bidja fyrirgéfníngar á því, og lofa mér ad bæta þig og láta þad ekki henda þig optar? B. Já, þad ætti eg ad gjøra. F. Med sérhvørri synd er þú drýgir, styggir þú þinn góda himneska Fødur, ættirdu þá ekki ad vidurkénna fyrir honum þín afbrot, og audmjúklega bidja hann í Jesú nafni fyrirgéfníngar, og þad í hvurt sinn, sem þú

hefir adhafst eitthvad sem ekki mátti vera? B. Jú, vissulega vil eg gjøra þad. F. Gleymdu þá ekki, barnid mitt! þeirri mikils árídandi skyldu þinni: daglega ad taka ydrun og yfirbót. Svo opt sem þér hefir ordid einhvør yfirsjón á, sem þú hefdir átt og kunnad ad varast, þá hugsadu med sjálfum þér og bid: Æ, minn gódi Gud! fyrirgéf mér þessa yfirsjón, fyrir míns Frelsara skuld, sem lidid hefur fyrir mínar syndir, aldrei vil eg láta mér optar verda á þessa synd, heldur framvegis ástunda ad vera þér hlýdinn. Á sérhvørju dagskvøldi áttú ad hugleida, hvad þú hefir gjørt rángt umlidinn dag, fardu ekki ad sofa, fyrr enn þú hefir ydrast þess og sætt þig vid þinn himneska Fødur; veitstu á hvørjum degi, eda á hvørri nóttu þú átt ad deya? B. Nei. F. Ef þú ættir nú ad deya í nótt, þyrdir þú þá med djørfúng og glødu gédi ad byrtast fyrir þeim réttláta Gudi, þegar þú hefir brotid hans bod? Hvørnin ertú innan brjósts þegar þú hefir módgad mig og stiggt? ertú þá ekki sneiptur og hræddur vid mig? B. Ojú. F. Med enn meiri ángist og ótta mundir þú deya, ef þú mættir ekki vona, ad Gud á himnum væri þinn fridþægdur Fadir. Viltú þá ekki, barnid mitt! ætíd hafa þann góda og einlæga ásetníng, ad bera þig ad verda ad gódum og gudhræddum manni? B. Þann ásetníng hefi eg og vil ætíd hafa. F. En ætli þú

munir láta af ávyrdíngum þínum og afbrotum, ef þú aldrei vyrdir þau fyrir þér, með alvarlegum vidbjód og hatri, eda endurnýar ekki opt þann ásetníng, ad drýgja aldrei vísvitandi neina synd? því sjerd þá, hvørsu naudsynlegt þad sé, ad þú hafir ætíd gát á hjarta þínu, sem af náttúrunni er hneigt til hins ílla, og láta af hvørjum brest og vondum vana; sem í fari þínu finnst, því þó þú hefdir ekki ánægju nema af einni einustu synd og legdir í vana þinn ad fremja hana vísvitandi og viljandi, gjætir þú ekki verid viss um, hvørt þú yrdir sáluhólpinn. B. Eg má þá aungva synd drýgja, ef eg á ad verda sáluhólpinn. F. Ætíd er syndin þér vidlodandi, sem af þinni medfæddu spiltu náttúru flotid hefir og altaf verdur þú var vid vondar gyrndir, sem í þér búa, og af breiskleika mun þér opt verda á ad drýgja synd. En ef þú af hjarta ydrast þessara breiskleikans synda, hefir andstygd á þeim og bidur Gud fyrir Krists sakir ad fyrirgéfa þér þær, þá þarftú ekki ad vera hræddur um, ad þú fyrir þeirra skuld munir útskúfadur verda, en syndgir þú af ásettu rádi og vísvitandi, er audvitad, ad þú ekki elskar Gud af hjarta, og ert þá ekki heldur hans barn, eda gétur haft von um sáluhjálp, þú hlítur ad hafa andstygd á øllu því sem íllt er og í aungri synd liggja vísvitandi og þá ertú sannkristinn, því hvørja Guds andi leidir (til góds), þeir eru Guds børn. Róm. 8, 14.

Lúk. 3, 8. Berid ávøxt er sambjódi betrudu hugarfari.

2 Kor. 7, 10. Sú hrigd, sem er eptir Guds vilja, verkar apturhvarf til sáluhjálpar, hvørs aungann ydrar.

Róm. 12, 9. Hafid andstygd á því, sem vondt er, en haldid fast vid þad góda.

1 Kor. 7, 1. Látum oss hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, og hølldum áfram í helguninni med gudhrædslu.

Amos. 5, 15. Hatid þad vonda, en elskid þad góda.

## 55.

F. Þegar þú veitst ekki, barnid mitt! hvad leingi þú munir lifa, ættir þú þá ekki ad verja vel þínum stutta og óvissa lífs aldri? B. Jú, eg vil leitast vid ad verja honum vel; F. Og hvørnin þá? B. Med því ad bidja Gud og læra gott. F. Rétt svarad, barnid mitt! nú er þad þín helsta ydja, en þegar þú verdur eldri? B. Þá vil eg líka vinna og vera ydinn. F. Og þad er þó samt ekki nóg; géta Gudi þóknast allir þánkar? B. Ekki nema þeir sem eru gódir. F. Ættir þú þá ekki ad leggja allan hug á, ad geyma og vid halda gódum þaunkum í sálu þinni? B. Jú, en hvørnig gét eg haft eda feingid góda þánka? F. Er þad ekki gott ad hura um Gud? B. Jú. F. Huradu þá opt og ydduglega um Gud, minnstú á hans velgjørdir, á þad

þakklæti, elsku og hlýðni, sem þú ert honum um skyldugur. Er það ekki gott að hura um Guðs orð? B. Jú. F. Þegar þú ert því í einrúmi, og þér detta í hug allskyns heimskulegar og hégómlegar huranir, minstu þess þá, sem þú hefir lært af Guðs orði, hugsaðu um, hvörnin þú fáir breitt eptir Guðs boðum og vilja, gagnað sem flestum, og gjört sem mest gott; ef þú venur þig á að hura um þetta, muntu géta komið í veg fyrir, að vondar gyrndir, sem í þér búa, brjótist út, og orðið fær um, að tala það við aðra, sem gott er og nytsamt, því sá sem venur sig á að hura um það sem gott er, talar gjarnan vel, af gnægð hjartans mælir munnurinn, en svo þú vitir hve áríðandi það sé að hafa gát á orðum sínum, vil eg seigja þér það, „að menn eiga að standa reikníng á dómsdeigi, af sérhvörju því ónytju orði, sem þeir hafa talað," en ef þú átt ætíð að hura og tala það sem gott er, muntu þá ekki eiga að gjöra það líka? B. Jú, það er sjálfsögð skylda mín. F. Heldurðu ekki, að Guð elski þá menn meir, sem gjöra það góða, enn hina, sem aðhafast íllt eitt? B. Víst elskar Guð þá góðu meir, hina gétur hann ekki elskað. F. Hvört tréð er meira verdt, það sem ber marga góða ávexti, eða hitt, sem ber aungva eða illa eina? B. Það er auðvitað að það tréð er betra, sem ber góða ávexti, hitt er til einskis nýtt, nema til að höggvast upp og brennast. F.

Það er þá sannur heidur í því innifalinn, að gjøra margt og mikid gott, annara manna vyrðíng og elska á oss, eikst þá og ver, og launin verða ekki lítil; margføld og mikil er sú blessun, sem Guð veitir þeim, er heidra hann með góðum verkum, hann veitir þeim heilbrygði, ánægju, heidur og hagsæld, og þó þeir ekki ødlist gnægð af þessum tímanlegu gjæðum, gledur hann samt þeirra hjarta, með samvitskunnar rósemi og fridi, verndar þá frá møргu íllu og endurgéldur þeim allt ríkuglega á himnum. Eingin góð athøfn, nytsamt ord, guðrækilegt áform og hugrun verdur ólaunud af Gudi, einsog hann ekki heldur lætur neitt íllt óstráffað. „Vér hljótum allir að opinberast fyrir Krists dómstóli, svo að hvørr og einn úr bítum beri, eptir því sem hann hefir aðhafst í líkamans lífi, hvørt það var heldur íllt eda gott"; ættum vid þá ekki að brúka hvørt augnablik til að gjøra eitthvað gott og nytsamlegt? hvørsu skammvinnt er lífið, barnið mitt! hvørsu mikið af tímanum geingur svo og eidist, að vid gjørum ekki neitt og margopt það sem íllt er, og mikid af honum sofum vid burt, hvørsu dýrmæt ætti ekki okkur þá að vera hvør stundin, á hvørri vid gjætum talad eitthvað, hugsað eda giørt, sem gott er og nytsamlegt, svo að okkar eilífi føgnudur á himnum verdi mikill, því þeir réttlátu munu þar skína sem sól og þeir sem gott hafa gjørt einsog stjørnur ætíð

og æsinlega; ó, hvad eg mun þá fagna, barnid mitt! þegar eg á síðan fæ ad líta þig, medal þeirra sáluhólpnu manna og í samfélagi med Einglunum, hvørsu mun eg þá, ásamt þér, þakka Gudi, ad þú hefir fyrir hans nád yfirunnid freistíngar þessa heims, ad þú, fyrir Krists verdskuldun, kominn ert í eilífa dýrd, og færd ad njóta eilífrar umbunar fyrir þau gódverk, sem þú audsýnt hefir; og þú munt þá líka fagna medur mér, og vid munum þá; lausir vid allar þrautir og þjáníngar þessa lífs, lifa í óforgeingilegum føgnudi og vegsemd.

O, minn gódi Gud, minn Skapari og Fadir! minn elskuríki Endurlausnari, medtak nú okkar audmjúkasta hjartans þakklæti, sem þú átt skilid, fyrir þá heilsusamlegu þékkíngu, sem vid af þínu ordi feingid høfum, vid offrum þér líkama og sál, sem þú skapad hefir til þinnar dýrdar, og fyrir Jesúm Krist, þér til vegsemdar endurleist, þér viljum vid helga allt okkar líf, med því ad þjóna þér og hlýda og gjøra allt gott, sem þú géfur okkur krapta, tækifæri og hæfilegleika til, og ad lyktum, þegar þú unnir okkur ad komast í eilífa sælu, viljum vid óaflátanlega lofsýngja þínu nafni, Amen.

## 54.

F. Þú hefir heyrt svo opt „Fadir vor" skilurdu þad þá líka? B. Já, eg kann þad

utanad, eg hefi lært þad fyrir laungu. F. En hvørt þú skilur þad, þad er annad mál; þess ætti madur ekki ad bidja, sem hann ekki skilur; væri þad ekki heimskulegt, ef þú taladir vid mig, þad sem þú ekkért skilur í sjálfur, edá veitst hvad ætti ad þýda. B. Jú. F. En hvørsu fjarstædara væri þad, ad bidja og ákalla Gud um eitthvad, sem madur sjálfur vissi ekki hvad væri eda hvør meiníng væri í; þegar madur vill bidja Gud, á madur ad gjøra þad af alvøru, af hjartanlegri eptirlaungun, og tilknúdur af eigin þørf og naudsyn. B. Utleggid þá fyrir mér Fadir vor. F. Þad vil eg gjarnan gjøra, barnid mitt! þetta var sú bæn, sem vor Drottinn Jesús Kristur kénndi Lærisveinum sínum.

Hvørsvegna kallast Gud í upphafinu: Fadir vor? B. Af því hann er Skapari vor allra og velgjørari og þessvegna mannanna sannkalladur Fadir. F. En hvørsvegna bætir þú vid: „Þú sem ert á himnum"? B. Af því Gud er á himnum. F. En er þá ekki Gud líka á jørdunni? B. Jú, því hann er allstadar nálægur. F. Rétt er þad, en á himnum auglýsir hann med sérdeilislegum hætti dýrd sína, þángad munum vid á sídan fá ad koma til hans og eilíflega tilbidja hann, þessvegna hefjum vid augu vor til þeirra átthaganna, undireins og vid viljum bidja Gud og géfum til kynna med þessum ordum: ad

hann sé sá voldugi og almáttugi Drottinn og Skapari, sem elskar børn sín heitara, enn bestu feður á jørdunni géti elskað børn sín.

Hvað vitum við nú um Guð? B. Að hann er heilagur, réttlátur, vís og góður; F. Þettað eru hans nøfn eða eiginlegleikar; þegar vér lærum rétt að þekkja þá, tilbiðjum hann og hlýðum honum, einsog þeim vísa, góða og réttláta Guði og Herra allra skapaðra hluta, þá verður nafn hans af oss helgað, en ætli þeir helgi Guðs nafn, sem ekki géfa um, að þekkja hans dýrðarfullu eiginlegleika, þeir eð sí og æ vanbrúka hans nafn með gálausu munnflapri og svardøgum, og vitna til Guðs eða Krists í daglegu tali, til að staðfesta þar með orð sín, og hafa það á vørunum við hvørn hégómann, munu þessir bera lotníngu fyrir Guðs nafni, hans háleitu og dýrðarfullu eiginlegleikum? B. Nei. F. Þú veitst þá hvað þýðir: helgist þitt nafn; að við biðjum Guð með þessari bæn, að kénna oss að þekkja og viðurkénna hans dýrðarfullu eiginlegleika og allrahæstu fullkomlegleika — hans almætti, speki, gjæsku og réttlæti — og auðsýna í verkunum að vér óttumst hann og elskum og heiðrum og tilbiðjum.

Veitstu ekki hvað er Kóngur? B. Það er voldugur herra, sem á yfir løndum og ríkjum að ráða og yfir mørgu fólki að bjóða. F. Hvørr má til að vera sá voldugasti Kóngur og yfir øll-

um Kóngum? B. Gud sem allt á og øllu ræd-ur, hvørs bodi og banni allt þad skapada verdur ad hlýda. F. Hvad er þá hans ríki? B. Øll verøldin má til ad heita hans ríki. F. Eru þá ekki allir menn í heiminum undirsátar í hans ríki? B. Jú, því hann rædur yfir þeim øllum. F. Hlýda honum þá allir menn? B. Nei, margir eru vondir og hlýda honum ekki. F. Mætti þá ekki hvør gódur madur sem elskar Gud, óska, ad allir menn væru gudhræddir og Gudi undirgéfnir? B. Jú. F. Þá ósk inniheldur sú bæn „Tilkomi þitt ríki"; æ, géf þú, gódi Gud! ad tala þinna gódu þegna, mætti ætíd aukast og vaxa, lát kristindóminn ætíd eflast og útbreidast, géf mér einnig nád til, ad eg mætti vera trúr þegn í þínu ríki, ad eg af hjarta elski, heidri og óttist þig, einsog minn Gud, Drottinn og Konúng, og hlýdi þínum bodum, og meigi svo hluttakandi verda í gjædum þíns ríkis, í þínum fridi, vernd og velþókknun; hugsadu nú á þessa leid, í hvørt skipti, sem þú les þessa bæn.

Þú veitst hvad Guds vilji er? B. Ad vid óttumst hann og elskum, og gjørum allt gott sem vid gétum. F. Munu ekki Einglarnir og þeir útvøldu á himnum gjøra þetta? B. Víst munu þeir gjøra Guds vilja. F. Ættum vér þá ekki ad óska, ad allir menn væru eins og Einglarnir og þeir sælu andar, í því ad gjøra Guds vilja.

B. Jú. F. Þetta gjørum vér í þridju Bæninni í Faðir vor. Veit ó Guð þína náð, til þess, að allir menn mættu ætíð lifa eptir þínum heilaga og góða vilja, og vera eins fúsir og reiðubúnir að uppfylla hann, og hlýða þér í øllum hlutum, eins og þínir þénarar, Einglarnir á himnum; styrktu mig einnin til að géta réttilega skilið þitt orð og haldið þín boð, svo eg verða mætti æ ráðvandari, þér hlýðnari og betri.

Hvørnin hljóðar fjórða bænin? B. Géf oss í dag vort daglegt brauð. F. Hvað skilst fyrir daglegt brauð? B. „Allt sem nauðsynlegt er til þessa lífs bjargar" stendur í fræðunum. F. Rétt er það, því fyrir orðið Brauð skiljum vér allar þessa lífs nauðsynjar. Með þessari bæn biðjum vér þá Guð, að géfa oss føt og fæði, hagsæld, heiður, heilbrigði og ánægju, vini og velgjørðamenn, góða foreldra og góð børn, rósemi og frið, og í stuttu máli, allt það sem lífið gjørir inndælt og farsælt; á meiri allsnægtum er ekki þørf, barnið mitt! þegar við høfum daglegt brauð, føt og fæði, eins og við þurfum, þá meigum við láta okkur nægja, því ekkért høfum við með okkur flutt inní heiminn, munum ekki heldur flytja neitt með okkur héðan. Auðlegð og allsnægt gétur líka orðið opt manni til skaða. Þar vér nú ekki vitum, hvað margt eða mikið af tímanlegum hlutum sé oss nauðsynlegt og hollt, er það

einkar ráðlegt, þegar vér biðjum með þessari bæn, að vér hugsum svo jafnan með sjálfum oss. „Gef oss, góði Guð! svo mikið af tímanlegum hlutum, sem þú sérð oss gagnlegt, til lífsins nauðþurftar, dag hvörn". Eg hefi sagt þér hvörnin Agúr bað: „gef mér hvörki fátækt né auðæfi, en láttu mig hafa mitt afskamtað uppheldi" þ. e. daglegt brauð. En eigum við það skilið, að Guð auðsýni oss svo margar velgjörðir, sem vér biðjum hann um, og hann veitir oss af náð sinni og miskun? B. Nei, því við höfum drýgt svo margar syndir á móti honum. F. Ættum við þá ekki að biðja Guð fyrirgéfníngar á þeim? B. Jú. F. Hvörnin biður þú í fimtu Bæninni? B. Fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum. F. Hvörr hefir borgað þína syndaskuld? B. Drottinn minn Jesús hefur borgað hana; vissulega bar hann vor kránkdæmi, og vorum syndum hlóð hann uppá sig. F. Og hvörr fyrirgéfur þér þessar syndir? B. Guð, fyrir Krists sakir, vill fyrirgéfa mér þær. F. En ef þú vilt nú ekki fyrirgéfa öðrum mönnum þeirra afbrot, sem þeir hafa móðgað þig með, þá mun Guð ekki heldur fyrirgéfa þér þínar syndir; því Kristur segir: Mark. 11, 25. 26. „Nær þér standið og biðjist fyrir, þá fyrirgéfið ef þér hafið sök móti nokkrum, svo að yðar Faðir, sem er á

himnum, fyrirgéfi ydur líka ydar brot; en ef þér fyrirgéfid ekki, þá mun ydar Fadir, sem er á himnum, ekki heldur fyrirgéfa ydar afbrot"; og á ødrum stad: „Svo mun og minn himneski Fadir vid ydur gjøra, ef ekki hvørr ydar sem einn fyrirgéfur af hjarta bródur sínum hans misgjørdir". Taktu vel eptir, barnid mitt! bæn hins ófyrlíkunarsama og hefndargjarna er andstygd fyrir Gudi. Æ gódi Gud! vid viljum gjarnsamlega fyrirgéfa þeim øllum af hjarta, sem oss á móti brjóta, géf oss upp fyrir Krists sakir vora miklu skuld; fyrirgéf oss vorar syndir!

Ef þú sær eitthvad gyrnilegt, sem þú med hægu móti gjætir náð, og einginn madur væri hjá þér, en þú huxadir med þér: einginn þarf ad vita þad, þó eg taki þad, einginn sjer til mín, væri ekki slík huxun áfýsíng eda freistíng til syndar? B. Jú, eg gét ekki huxad til þess, ad mér kynni ad detta slíkt í hug. F. En ef einhvørr hefdi gjørt nokkud á hluta þinn, sýnt þér ójøfnud og íllt, og þú feingir nú færi á ad hefna þín, svo þú huxadir med sjálfum þér, nú skal eg gjalda honum þad ílla, sem hann gjørdi mér og safna á honum; væri þad ekki freistíng til ílls? B. Jú. F. Ef ad vid, foreldrar þínir, høfum sagt þér ad læra, en einhvørr gárúnginn segdi vid þig: hættu ad læra, komdu! vid skulum fara ad leika okkur, væri þad ekki ad eggja þig til leti, og freistíng til ílls?

B. Jú. F. Þetta og þvíumlíkt kallast freistni til ills og þessvegna biðjum vér Gud í. sjøttu Bæninni: „Eigi leid þú oss í freistni" það er: lát oss ekki yfirbugast af þeim freistíngum, sem að oss koma, heldur hjálpa oss til að stríða móti þeim, vér biðjum og hér með að láta oss ekki rata í margar eda miklar freistíngar, því vér meigum vita, hvað veikir vér erum að yfirvinna þær. En freistíngarnar eru margslags, bædi útvortis og innvortis, bædi koma þær frá heiminum, og voru egin holdi, þ. e. vorri syndum spilltu náttúru. Gud reynir oss med margskyns hætti, en aungvanveiginn freistar hann nokkurs. Abraham, sem var gudhræddur madur, hafdi átt med konu sinni Søru, einn einka son, Gud vildi reyna hann, eda láta sjást, hvørt hann mundi vilja hlýda sér í øllum hlutum, og sagdi því vid hann: „slátradu syni þínum og brenndu hann í eldi á altarinu (til fórnfæríngar og slátrunar = offurs). Þegar Abraham hlýdnadist þessu Guds bodi, og ætladi að gjøra það sem Gud hafdi skipað honum, kalladi Gud til hans og sagdi: legdu ekki hønd þína á sveininn, því nú sje ég, að þú óttast mig. Var ekki þetta hørd reynsla, sem Abraham mátti verda fyrir af Gudi? B. Æ, hún var þúng. F. En þetta var reynsla frá Gudi; þegar vér biðjum: eigi leid þú oss í freistni, biðjum vér undireins Gud, að láta oss ekki rata

í þær raunir eda reynslu, sem hann sjái oss ekki menn fyrir ad standast eda géta yfirunnid; enn — má seigja — ad Gud reyni opt rádvanda menn, þó ekki med sama hætti og Abraham, til þess þeirra stødduglyndi sjáist og dygd þeirra, undirgéfni og hlýdni verdi augljós. Marga reynir Gud med því, ad géfa þeim mikinn aud, til þess sjáist hvørt þeir verdi drambsamir og fyrirlíti adra, eda gleymi þeim fórnum ad gjøra gott og útbíta. Adra reynir hann med fátækt, til þess sjáist, hvørt þeirra hjarta víki frá Drottni. Marga reynir Gud líka med heilsuleysi og þúngum sjúkdómum, svo ad sjáist, hvørt þeir hagi sér med hlýdni og spekt undir Guds vilja, læri ad leita trausts og hælis hjá Gudi í bágindunum, og í daudans neyd setja alla sína von til hans, og þared øll þessi reynsla er þúngbær, þá bidjum vér Gud ad leggja ei á oss meiri reynslu, enn vér gétum borid, svo vér ekki freistumst til syndar, heldur ad vér fyrir reynsluna verda mættum betri og þóknanlegri honum. En fleyri eymdir, barnid mitt gott! eru vanar ad koma yfir mann á þessari jørdu; alltaf, á medan vér lifum, býr syndin í oss, erum vér í þeim háska, ad verda afvegaleiddir, áreittir og hneixladir af vondum mønnum, og røtum einatt í fátækt og fyrirlitníng. Ættum vér þá ekki ad bidja Gud, ad frelsa oss frá þessum og þvílíkum þjáníngum og þrautum, og í einu ordi: frá øllu illu? B.

Þjú, vér bidjum svo í þeirri sjöundu Bæn: „Heldur frelsa oss frá illu." F. Hvad kallast hér illt? B. Allt sem gétur komid oss til skada á sálu edur líkama. F. Rétt svarad, barnid mitt! Gud frelsar oss opt og einatt, þegar vér af alúd og alvøru bidjum hann þarum. Gudhrædda menn vardveitir hann opt frá þrengingum þjáníngum og þrautum, géfur þeim huggun og léttir í hørmúngum þeirra, og stjórnar þeim med sínum heilaga Anda, svo þeir hreinsist og frelsist frá syndum, en fullkomni sína helgun í Guds ótta. Og ad sídustu leidir hann þá frá daudanum til lífsins, frá allri eymd og armædu þessa lífs, til eilífrar sælu. Einginn nema Gud gétur géfid og úthlutad þeim gudhræddu allt þetta. Hann, sem er himins og jardar Konúngur og Drottinn, gétur gjørt allt hvad hann vill, og á þessvegna af øllum sínum skøpudu, skynjandi sképnum, ad dýrkast og tilbedinn ad verda; þessvegna endum vér Fadir vor med þessum ordum: „Þvíad Þitt er ríkid og mátturinn og dýrdin, ad eilífu, Amen." Þegar þessi Bæn hefir nú svo mikid inni ad halda, og í henni gétid um allar vorar naudsynjar, andlegar og líkamlegar, sem vér þurfum um ad bidja, rídur oss þá ekki á ad lesa hana med eptirtekt og andakt? B. Jú, eg skal aldrei fara med hana athugalaust, eda fleipra hana.

Matth. 6, 9—14. Faðir vor! þú, sem ert á himnum; helgist þitt nafn; tilkomi þitt ríki; verði þinn vilji, svo á jörðu, sem á himni; gef oss í dag vort daglegt brauð; og fyrirgef oss vorar skuldir, svosem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum; eigi leið þú oss í freistni; heldur frelsa oss frá íllu. Því að þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin að eilífu. Amen!

55.

B. Hvörsvegna farið þér svo opt til kirkju? faðir minn! F. Af því Guð hefur það boðið. Drottinn vor Jesús Kristur vitjaði og opt Musterisins og hann hefir látið í lög leiða og tilskipa meðal kristinna manna, að þeir skyldu koma opt til samans og opinberlega tilbiðja Guð. B. Við getum líka dýrkað og tilbeðið Guð heima. F. Það segir þú satt, að við eigum að gjöra það, en hefirðu ekki tekið eptir, að þú ert aldrei eins latur að læra, einsog þegar þú ert ekki nema einn að því, en lángtum viljugri með öðrum börnum, sem upphvetja þig, undir eins og þau eru að læra sjálf? B. Svo finnst mér það vera, og munu þeir fullorðnu vera eins. F. Í stórum söfnuði, hvar margir góðir menn eru komnir saman, heyrum vér Guðs orð með meiri athygli, verðum af gleðisaungvum margra radda uppvaktir, og af prestunum upphörfaðir og áminntir til bænar og guðhræðslu; hafa menn þá ekki

mikid gagn af því ad fara til kirkju? ættu menn ekki ad koma þángad opt og gjarnan? B. Mig lángar til ad fara alltaf til kirkjunnar med ydur. F. Þú skalt líka fá þad, barnid mitt! en þú átt ad koma þángad svo, ad þú hafir gagn af kirkjuferd þinni; ó, hvad eg gledst med sjálfum mér, þegar eg fæ ad heyra góda prédikun, sem vekur mig til ad hugsa um mitt sálar ástand, og med þakklæti ad minnast á Guds velgjørnínga og handleidslu á mér og minum. Opt hugsa eg þar til þín, barnid mitt! í bænum mínum, og bid Gud, ad gjøra þig ad gódum og dygdugum manni, kénna þér sinn vilja ad óttast sig og elska; þá finn eg til þess í sálu minni sem Gudsmadurinn sagdi fordum: „ó, hvørsu yndislegir eru þínir bústadir Drottinn! (þar sem þinn heilagi søfnudur bír og gudsþjónusta er haldin) þar sem menn heyra þakklætis- og lofgjørdar-saungva"! Sálm. 84. og Gud hefir lofad þeim heilaga søfnudi kristinna manna, sinni sérdeilislegri blessun og nádar nálægd; hvarsem 2 eda 3 eru samankomnir í mínu nafni, segir Kristur, vil eg vera midt á medal þeirra. Matth. 18, 20. Þó ad Gud sé allstadar nálægur, er hann med meiri velþókknun á einum stad enn ødrum, og hans nádar nálægd hefir líka meiri verkun á þá, sem tilbidja hann í anda og sannleika, sem lofa, bidja og þakka hon-

um med audmíkt og lotníngu og djúpri tilfinníngu síns óverdugleika og álíggjandi hjartans þarfa.

Guds ord í kirkjunni hefir margann vakid, sem svaf í syndum sínum, margann lastafullann á-minnt, ad láta af sínum vonda veigi, margann hrelld-ann og harmandi huggad, margar og mikilvægar skyldur brínt fyrir mønnum, marga og mest áríd-andi lærdóma gjørt lifandi og ljósa. En med Guds ordi er heilagur Andi ætíd verkandi og reidu-búinn til ad efla vora betrun og láta oss framfara í øllu gódu, og hvørsu miklu fremur skyldi hann ekki í kirkjunni krøptuglega vera verkandi á hjørtu-manna, þarsem svo margt gott er hugsad, áform-ad og talad..

Í kirkjunni eru úngbørnin skírd, innvígd og inntekin í tølu kristinna manna, hér neytum vér þeirrar heiløgu kvøldmáltídar í minníngu Jesú, til endurminningar hans fridþægjandi dauda og verd-skuldunar, og til vorrar trúar- og dygda-eflingar. Um þetta huggunarríka og mikilvæga efni skal þér meira kénnt verda seinna. En sýnist þér þá ekki, ad þad ætti ad vera vor kjærasta skylda, bædi í tilliti til Guds og sjálfra vor, ad vitja opt þeirra heiløgu stada, hvar Guds ord er opinberlega um hønd haft, hvar hans andi er sérdeilislega verkandi á trúadra hjørtu, til þess ad minna oss sjálfa á vorar skyldur, og opinberlega láta Gudi vort þakklæti í té. Hann sem er vor skapari og Drott-

inn, gjæðskuríkasti velgjörari, Frelsari og verndari, egum vér að heiðra og tilbiðja fyrir allra manna augum, með hjarta og munni. O, hvílíkur fögnuður má það vera fyrir gott og þakklátt hjarta, þegar það fær tækifæri til opinberlega að vegsama þvílíkann náðugann Guð og Föður, það er yðja Ejnglanna, óaflátanlega að lofa og vegsama hann og sú yðja mun á síðan verða vort eptirlæti og yndi. B. Eg vil meiga fara alltaf til kirkju. F. En þú átt þá að kunna að haga þér þar vel. B. Hvörnin þá? eg hefi aldrei verið óskikkanlegur í kirkju. F. Hjarta þitt á að vera fullt af lotníngu fyrir Guði, hugarfarið hreint og guðrækilegt, þú átt að síngja með andakt, og gjöra bæn þína í auðmíkt, með athygli heyra prédikunina, en ekki á meðan að véra að hugsa um annað, eða skima híngað og þángað, sem glepur fyrir þér, svo þú gétur ekki tekið eptir Guðs orði, þú mátt ekki fara svo frá kirkjunni að þú munir ekkért af því, sem þér hefir verið þar kénnt, heldur áttu að rótfesta það hjá þér betur og betur; og ef þú gjætir nú alls þessa, mun kirkjuferð þín þóknast Guði, og verða þér til æðstu sálarheilla. Mundu eptir því, sem Salómon segir: Vakta þinn fót þegar þú geingur í Guðs hús og kom þángað til þess, að heyra og nema, þú manst hvörnig vort ágjæta sálmaskáld kémst að orði hérum: Þá þú geingur í Guðs hús inn, gjæt þess

vel, sál mín fróma! hæd þú þar ekki Herra þinn, med hegdun líkamans tóma, beigdu holdsins og hjartans kné, heit bæn þín ástar kvedja sé, hræsnin mun síst þér sóma. En þared þú á Sunnudøgum átt líka ad þjóna Gudi þínum heima, gétur þú þér til uppbyggíngar og gudræknis eflíngar lesid med sjálfum þér, í einhvørri gódri gudsorda bók, eda prédikunina í postillunni okkar. Þess væri óskandi, ad fólk á helgum vildi hafa þá venju, ad lesa annadhvørt í Ritníngunni eda ødrum gódum bókum, í stad þess med glensi, spilum og drykkjuskapar látum ad vanhelga hvíldardaginn Drottins Guds síns.

2 Mós. b. 20, 8. Drottinn sagdi: minnstu ad helga hvíldardaginn Drottins Guds þíns.

Kól. 3, 16. Látid Krists ord búa ríkuglega medal ydar, svo ad þér kénnid og áminnid ydur sjálfa innbyrdis, med allskonar vísdómi. og sýngid fagra Sálma og lofsaungva, fyrir Drottni í ydrum hjørtum.



# Nokkrar barna Bænir
## og Sálmvers.

### Morgun-Bæn.

Í þínu blessada nafni, ó Jesú! byrja eg nú þenna dag; minn fyrsti þánki og mín fyrsta ydja sé, ad lofa þig og þakka þér, minn Gud! er svo dásamlega hefir verndad mig í nótt frá øllu fári; þín nálægd umkríngdi mig, og þín forsjón vakti yfir mér á medan eg svaf og vissi ekkért af mér, og nú hefir þú géfid mér lifandi og heilbrygdum ad sjá aptur dags-ljósid. Gódgjarni Fadir! þín miskun og trúfesti er og hefir verid ný og fersk yfir mér á hvørjum morgni. Þín gjædska gaf mér í fyrstu lífid, þín nád hefir híngad til vidhaldid því, gladt þad og endurnært med svo mørgum gjædum; ó! hvørnin kann eg verduglega ad þakka þér allt þad góda, sem þú óaflátanlega audsýnir mér, óverdugri sképnu þinni! æ! eg vil ástunda ad vera í dag og ætíd þitt gott og hlýdid barn; eg vil vanda mig og vera trúr í því, sem gott er og eg á ad gjøra; eg vil hafa þinn vilja og þín bodord mér fyrir lifnadar-reglu; vidhaldtú hjá mér þessum góda ásetníngi! vaki hann í minni sálu vid hvørt þad verk, er eg tek mér fyrir hendur í dag; stýri hann mínum ordum og athøfnum í allri minni umgengni, þá mun eg, fyrir þinn krapt, gódi Gud! fá stadist syndarinnar freistíngar, sem vond dæmi og mínar girndir kynnu ad búa mér í dag og eg ekki fyrirsjé.

Verndadu míg ennþá í dag, og hald þú mér stöd-ugt vid þad eina, ad óttast þig og elska, þá er eg viss um þína velþóknun, þína vernd og adstod; þá megna eg alla hluti fyrir þann, sem mig máttugann gjørir, Jesúm Krist minn Endurlausnara. Amen!

## Kvøld-Bæn.

Lofadur veri gódur Gud! sem hefir géfid mér lífs og heilum ad útenda þenna dag, undir sinni gjædsku-ríku vernd og varatekt! Hvørsu margt og mikid gott hefir þú nú audsýnt mér í dag, minn gjædsku-ríki himneski Fadir! þú hefir ekki einúngis haldid mér vid lífid, heldur og þar á ofan svo fødurlega sjed mér fyrir lífsins naudþurftum, géfid mér føt og fædi, heilsu og heilbrigdi, verndad mig frá ótel-jandi meinsemdum og slisum, sem mig annars hefdu kunnad ad henda, og géfid mér marga ánægju-stund og mørg tækifæri til ad læra ad þekkja þinn vilja og breyta eptir honum mér til farsældar; þetta og óteljandi margt annad gott, er eg ekki þekki, hefir þú veitt mér í dag; en — hefi eg þá lifad þenna dag, sem þitt hlýdid barn, og látid ríkdóm þinnar gjædsku vinna mig til ad verda því betri, sem eg lifi lengur, og eg þygg þína velgjørnínga fleyri? æ! eg finn stórann brest hjá mér í þessu; mig ángrar nú, ad eg er svo mjøg undir syndina seldur; æ! fyrirgéfdu mér þad samt, fyrir míns Lausnara Jesú forþénustu sakir, og virdstú enn þá í nótt ad taka mig undir þína vernd og gjætslu; þér einum trúi eg fyrir mér á medan eg sef og veit ekkért af mér; í þinni vernd hvíli eg øruggur; og ef þessi nótt skyldi verda mín sídasta,

þá verdi þinn vilji, í þínar hendur fel eg minn anda. Amen!

## Bæn um gódann Afgáng.

Miskunsami Gud og Fadir! þú einn ert Herra lífsins og daudans; mínir tímar standa í þinni hendi, þú hefir ákvardad minna daga tal, eptir vísdómi og gjædsku hefir þú þad ákvardad; þar vid hughreystir sig minn andi, er eg þenki fram á mína óvissu endalykt; æ! þú einn veitst hvad marga eda fáa daga eg á nú eptir ólifada; géf mér því vareygdarsamar ad brúka og telja mína daga, því óvissari sem eg er um þeirra tølu og þeirra endalykt; þetta veit eg, ad mér, eins og øllum mønnum er eitt sinn ásett ad deya, og þar eptir kémur dómurinn; æ! géf mér vîslega ad búa mig þar undir nú strax í mínum heilbrigdu døgum, svo eg lært sái ad deya, ádur enn eg dey; géf mér opt og alvarlega ad þenkja um mína burtfør, grøfina, dóminn og eilífdina, svo mun daudans umþenkíng aptra mér frá mørgum syndum, en gjøra mig ástundunarsamann í því, sem gott er, og efla má mína sønnu farsæld; daudans sífelda endurminníng mun gjøra mig athugasamari um sjálfann mig, vareygdarsamann í medlæti, og vongódann í mótlæti. Og þá mín daudastund loks ad kémur, svo géf mér, ó Jesú! í krapti þíns dauda, ad yfirvinna allar daudans ógnanir, svo eg mætti vel tilreiddur med gladri von og óskélfdri samvitsku, skilja vid heim þenna med øllu því, er mér vænt um þykir í honum og innleidast í þá sælu vist, sem þú, minn blessadi Lausnari

og bródir! hefir mér og øllum þínum trúudum afrekad fyrir þinn dauda. Amen!

# Nýorktir Sálmar
## af B. B.
### útaf þessum Bænum.

## Morgun = Sálmur.

Lag: Lít eg enn daginn létta húmi.

1. Í þínu nafni, Kristur kjæri! kominn daginn eg byrja nú, vardveitslan þín mitt hjarta hræri, ad heidra þig af ást og trú; fødur umhyggan heiløg þín, á himni bædi og jørdu skín.

2. Gud minn! verndarinn gjædskuríki! gott er ad sofna þér vid hønd, í blundsins fadmi líkur líki, líkaminn svaf, þó vekti ønd, en hvørutveggju høndin þín, hjúkradi vel og gjætti mín.

3. Lífs og hraustur eg bregd nú blundi, blessada fyrir þína nád, sólin uppljómar lopt og grundir, líknsami Gud! þitt hjálparrád, umkríngir mig og øll þín børn, æfidaganna morgun hvørn.

4. Þú gafst mér fyrst þad góda lífid, gjættir mín framm á þessa stund, og vid margføldum háska hlífir, hjálpadir mér í vøku og blund, hvørnin kann eg ad þakka þér, þína miskun sem verdugt er.

5. Eg vil sem barn í ordi og verki, elska þig, hátign guddómleg! heiløg sýna þér hlýdnis=merki, hér á medan eg anda dreg; ávaxti hjá mér andi þinn, ásetníng þenna, Fadir minn!

6. Vyrdstu í dag med hjálpar hendi, ad halda

mér á bygda slóð, þángað til kémur æfi endi, eg vil stunda þín boðin góð, aðstoð þín, Jesú! efli mig, allt svo eg megni fyrir þig.

## Kvøld = Sálmur.

Lag: Gudi lof skal ønd min inna.

1. Gudi sé lof! sem géfur, gjæðin miskunar ótalføld, er lífs og heilann hefur, handleiðt mig framm á þettað kvøld; æ, hvørsu margt og mikið, mér létstú gott í té, í dag hvørt augnablikið, ó Fadir himneski! mitt líf og lífsins þarfir, líknin annaðist þín, hún var mitt skjól, athvarfið, hjástoð og vonin mín.

2. Þegar mig voðinn vildi, veikann þjaka og niðurslá, himneskum hlífðar skyldi, héldstú yfir mér Drottinn þá; hættur huldar og sjenar, hvurfu við tillit þitt, mér veittir það sem þénar, þá gladdist hjartað mitt; með þeirri føður mildi, mér á bygdanna stig, benda sem barni vildir, til besta fyrir mig.

3. Þetta og ótal annað, umsjónin þín mér veitti gott, hef' eg þá hlýðni sanna, Herra! þér sýnt og elsku vott? var eg sem barni bæri, blíðlyndann føður við? ónei! þinn andi hræri, til ydrunar mitt géð, lát þú ást þína laða, til leiðréttíngar mig, græð andar grand og skaða, géf að eg elski þig!

4. Viðleitni veikann brestur, væg þú, faðir! og líkna mér. æ! hvað minn fótur festur, í freistínganna snørum er, fyrirgéf misgjørð mína, míns Jesú nafni í, minnstu á miskun þína, meðan eg aptur sný, sekur um sættir biður, sofna ei fyrri má, voludum tak nú viður, vertu í nótt mér hjá!

5. Eg vil um æfistundir, uppá þig vona, hjálpin

mín! bædi í vøku og blundi, breidist yfir mig elskan þín, svo undir umsjón þinni, ókvídinn vaki og sef; já, þó mitt lífid linni, lífs ædra von eg hef; ef í nótt æfin dvínar, á mér sé vilji þinn! í fødur-hønd Fadir! þína, fel eg þá anda minn.

## Sálmur um gódann Afgáng.

Med Líksaungs lagi.

1. Líknsami Gud! eg leita þín, lít þú, Fadir! í nád til mín, lífsins og daudans Herra hár! í hendi þinni líf mitt stár.

2. Alvitskan þín og eilíf nád, ásettann mældi lífsins þrád, ákvardadi mitt ára tal, og þad hvønær ég deyá skal.

3. Sál mín fyllist því yndis il, nær endadagsins huxar til, hann er, minn gódi Gud! hjá þér, geimdur en hulinn fyrir mér.

4. Þó veit eg eflaust, æfin mín, og allra manna vegferd dvín; hér eptir kémur, Herra minn! hædsta réttarins dómur þinn.

5. Medan eg heill og hraustur er, hjálpa þú, Fadir! breiskum mér, undir svo háleit umskiptin, andann sem best ad helga minn.

6. Lát mig í tíma læra nú, ad lifa þér í sannri trú; umhuxun daudans alvarleg, ørfi mig fram á dygda veg.

7. Daudi, grøfin og dómur minn, Drottins réttlæti og eilífdin, mitt umþeinkíngar efni sé, aptri þad mér frá syndinni.

8. Fyrst lífsins dagar eru í, óvissunni og felast því, varhygdin þad mér verki hjá, vel ad brúka og telja þá.

9. En þegar daudans hulin hønd, holdsins og

anda leisir bønd, herbergid sálar hrynur á, haudrið, sem þad var komid frá.

10. Vegna þíns dauda, Kriste kiær! kom þá og vertu aumum nær, ad minni sálu, ó Jesú! auglitis blídu þinni snú.

11. Med gódri von og gladri lund, géf ad eg fagni daudastund; þinn helgur Andi hvísli ad mér: himininn stendur opinn þér!

12. Ljómi þín gjæzkan mild um mig, myrkur daudans þá felur sig; leid svo vid þína hægri hønd, í himin = bygdir leysta ønd.

13. Géf henni svo ad gledjast vid, Guds dýrdarljós og þína hlid, í sanntrúadra sælustad, sem þú héfir oss útvegad.

## Ungmenna Morgun = bæn,

### í Samstædum.

Í þínu nafni uppvaknadur, er eg, Jesú Gud og madur! lof sé þér fyrir líf og gjædi, líkamans heilsu føt og fædi, og allt þad þín óþreytt mildi, aumum mér til-leggja vildi; bid eg þig, minn blídi Herra! blessun þína ei lát þverra, hegdun minni á hvørjum degi, haldtú' á sønnum dygda vegi, lát mig njóta úngdóms ára, er þú barst í manndóm klára; géf uppfrædi æsku mína, Andi þinn fyrir verkun sína, svo í ótta og elsku þinni, ávørt gódann færa kynni. Hlýdni, trygd og trúna bjarta, tendra og nær í mínu hjarta, ad mér svo med aldri hrønnum, aukist nád hjá Gudi og mønnum. Heims og Satans hrekkja snørum, hrind frá mér, svo ei ødørum, mig ógjætinn í sér festi, edur dragi' í synd og lesti. Vernda mig frá voda øllum, vondum dauda og

ſliſa = follum; Englar þínir að mér gjæti, engum ſvo eg meiðſlum mæti. Mitt verklag og miſkun þína, mér lát vera unun mína; auk mér ſkilníng orða þinna, eru þau lampi fóta minna. Géf mér jafnan gott að læra, góðlyndum við alla vera, varfærum í velgeingninni, vongóðum þó raunir finni. Ljúfi Jeſú! með líſi og öndu, legg eg mig í þínar höndur; þar vil eg fús að lyktum lenda, lofaður ſértú utan enda!

## Ungmenna Kvöld = bæn.

Samſlags.

Nú vil eg enn í nafni þínu, náðugi Guð! ſem léttir pínu, mér að minni hvílu halla, og heiðra þig fyrir gjæðſku alla, þáða' af þér á þeſsum degi, því er ſkyldt eg gleymi eigi; en það má eg aumur játa: ángri vafinn ſýta og gráta: móðgað hef' eg margfaldlega, mildi þína guðdómlega. Útſlétt mínar ſyndir ſvartar, ſundurkramið lækna hjarta, afþvegið í æðſta flóði, Endurlauſnarans Jeſú blóði, ſvo eg kvittur ſofi í friði, ſál og líf af Engla liði, umkríngð, Satans íllſku hrekki, ógn og ſlægðir finni ekki. Bleſsa hús og hvílu mína, hjáſtoð lát mig merkja þína, þá mun aðſókn íllra anda, ei hið minnſta kunna' að granda. Lát mig þeinkja á þeſsu kvöldi, það: eg lifi' í veiku holdi; brothætt gler og bólan þunna, brotna ſnart og hjaðna kunna. Þú, einn Guð! ſkalt þar um ráða, þínar kný eg á dyr náðar, af míns hjartans innſta grunni, andvarpa og bið með munni: þegar eg ſkal ſeinaſt ſofna, ſál viðſkilur, fjör mitt dofnar, hjartans Faðir! í hendur þínar, hverfa lát þá öndu mína; hold í jörðu hægt lát blunda, helgra

þar svo bíði funda, og upprisinn að eg víki, inn með þér í himnaríki. Þar mun eg þúsund þakkir færa. Þér sé lofgjørð, prís og æra!

## Morgun-Sálmur.

Lag: Einn Guð Skapari allra sá.

1. Á morgna þegar árla upp stá, eins á kvøldin þá hvílast á, géf eg mitt líf og líka ønd, ljúfi Jesú! í þína hønd.

2. Sálin hvílist og huggast mín, Herra Jesú! í benjum þín; bið eg: saklausa blóðið þitt, blessi og helgi lífið mitt.

3. Kristi! sem þoldir kvøl og pín, keyptir mér frið með blóði þín, í vøku' og svefni vert mér hjá, vernda mig øllum háska frá.

4. Hvørt heldur lifi hér eða dey, hjartað mitt við því kvíðir ei; glaður því mína géf eg ønd, Guð sannleiksins! í þína hønd.

## Kvøld-Sálmur.

Lag: Svo elskaði Guð aumann heim.

1. O Jesú! þér sé þøkk og lof, fyrir þína ást og náðargjøf, vel hefur þú minn veikann hag, verndað og geymt um þennann dag.

2. Eg vil fyrir það, Jesú kjær! játa þér vegsemd fjær og nær, af hjartans munni hug' og raust; haldist þín vyrðing endalaust.

3. Eilífann bið eg almátt þinn, ástkjæri Jesú, Herra minn! fyrirgéf øll mín afbrot ljót, í dag, sem framdi' eg þér á mót.

4. Dagsvinnan mín, sem drýgða eg hér, Drottinn minn góður! þóknist þér, ebli þín blessan allt mitt ráð, auk mér von, trú og kjærleiks dáð.

5. Geymdu mig, Drottinn Gud! í nótt, frá grimmum voda, kvøl og sótt, svo óvin gjøri mér eingin grønd, yfir mér sé þín hjálpar-hønd.

6. Lukkuna, heilsu, lán og féd, líf og sálina einnin med, umsjón þinni eg allt þad géf, óhrædd ur sídan ligg og sef.

7. Í Drottins nafni eg hvílist hér, hafdu, ó Jesú! gát á mér, eg fel mig þinni elsku enn, og alla þína kristna menn.

8. Lof sé Födurnum lesid og tjád, lof sé vors Herra Jesú nád, lof helgum Anda alla tíd, Amen, lof sé þér þrenning blíd!

## Bænarvers

um gudlega hjálp ad læra og skilja þann kristilega lærdóm, og breita eptir honum.

Lag: Leid þú mig, Gud! þann vissa veg.

Gud og Frelsari, gódi minn! géf mér heilagann Anda þinn! sem leidi mig í ljósi þinna orda, svo þekki eg, þeirra beina og sanna veg, mín breitni hrein því hrósi, sál mín, sé þín; veikur bidur: vernd og lid mér vyrdstu senda, trúr svo eg finnist allt til enda.

## Vers fyrir Máltíd.

Lag: Heidrum vér Gud af hug' og sál.

Allt sem nærist og andad fær, upp til þín mænir, Fadir kjær! daglegu braudi bítir þú; blessa oss vora fædu nú! þigg nú, Drottinn! vort þakklæti, þér, Jesú! hneigi gjørvøll kné, heiløgum Anda heidur sé!

## Vers eptir Máltíd.

Lofum og prísum gódann Gud, sem gjædin veitir marg-

føldud, menn og sképnur er metta kann; minni nauðþurft ei gleymir hann; fyrir vorn Jesúm, Faðir! þér, færist vegsemdin einsog ber, og allar þínar ástgjafir.

## Gømul dagleg barna bæn.

Almáttugi Guð og eilífi Faðir! þú sem býður børnunum til þín að koma, eg bið þig auðmjúklega, að þú viljir þína náð senda í mitt hjarta, og mína æsku með þínum heilaga Anda uppfræða. Géf mér góðann skilníng og næmi, svo eg dag frá deigi, mætti aukast og eblast í þinni kynníngu, og øllu góðu kristilegu framferði, svo eg bæði úngur og gamall, mætti verða þínu heilaga nafni til lofs og dýrðar. Amen.

## Bænar-Sálmur.

Lag: Þér himnar hefjið dýrð.

1. Jesú minn ástargjarn, álít mig fávíst barn, sem gyrnist gott að læra, og góðann ávøxt færa, án þín gét eg það ekki, æsku-gáleysið hnekkir.

2. O minn, Immanúel! eg þér mitt hjarta fel, hrærðu það hug' og túngu, sem hefir af børnum úngu, lofgjørð þér viljað vanda, veittu mér styrk þíns Anda.

3. Næmi géfðu mér gott, geymdu mín dag sem nótt, á braut boðorða þinna, blessun láttu mig finna, skilníng og vitsku væna, vínkvist gjør mig þinn græna.

4. Send þú mér ljúfa lund, lífið gott alla stund, hylli Guðs géf mér sanna, góðra einneiginn manna, Amen! þín elskan heita, eflaust mun mér það veita.

## Enn ein barnabæn.

Jesú Kristi, Guðs eilífi Son! þú sem varst eitt úngbarn og hefir með orðum og eptirdæmum aug-

lýst ad þú hefdir velþóknun á børnunum, er til þín verda borin. Eg þakka þér fyrir rétta skøpun, skírn og kristni, vit og skyn, mál og minni, og allt annad gott mér veitt og géfid, eg bid þig framvegis, minn blessadi Jesú! fyrir þinn heilaga manndóm og aldur, ad blessa minn úngdóm og aldur, og láta mig þróast, aukast og eblast í þinni nád, ást og kynníngu og øllum gódum dygdum; lát mig stunda gott ad læra, en íllt ad hata, svo eg hljóti þína hylli, minn Gud! og allra gódra manna; fyrirgéf mér syndir míns úngdóms, blómgva mína æsku, med blómstrum gódra dygda, og frómleikans liljum; vardveit mig fyrir slísum og allri ólukku, og øllum íllum selskap, géf mér þig einn ad óttast, hlýdni og æru, foreldrum mínum og yfirbodurum ad sýna, svo þitt blessadafyrirheit á mér uppfyllist, svo eg bædi úngur og gamall, mætti verda þínu nafni til lofs og dýrdar, æ og eilíflega, Amen!

## Sálmurinn.

Lagid: Svo elskadi Gud aumann heim.

1. O Jesú! þú sem úngbarn varst, og þau á nádarhøndum barst, med ordi og dæmum auglýstir, ad børnin væru gédfeld þér.

2. Fadir! eg þakka forsjón þín, frída skøpun og kristni mín, vit og skyn, rænu, minni og mál, margt annad gott fyrir líf og sál.

3. Bid eg nú, Jesú þýdi! þig, þín nád framvegis leidi mig, fyrir manndóm og þroskann þinn, þroskann blessadu' og úngdóm minn.

4. Lát mig eflast í ást og dád, æru, kynníng og þinni nád, gott læra jafnan og gédjast þér, gjørvallt hata sem midur fer.

5. Hylli stadfasta hljóta þín, hylli mér eins af mønnum sýn, allann fyrirgéf úngdómsbrest, æsku með dygða blómstrum fest.

6. Frómleikans liljum frjófga mig, forsvari náð þín ástúðleg, ólukku og slísum øllum frá, ei gyrnist vondann selskap á.

7. Æru nafni' auðsýna þín, ást og hlýðni foreldrum mín, og yfirvaldsins allri stétt, unn mér eg þetta stundi rétt.

8. Ungum og gømlum eins það veit, uppfyllist mér þín fyrirheit, til æru og lofs í øllu þér, en til velferðar sjálfum mér. Amen.

## Vers.

Lagið: Alteins og blómstrið eina; eða: Einn Herra eg best ætti.

Dygðanna blómstrum blíðum, blessa mitt æskuskeið, frómleikans liljum fríðum, friðarins veg mig leið, í Jesú náðar nafni, nú bið eg, Drottinn minn! géf þú eg glæpum hafni, en gjøri viljann þinn.

## Morgun Andvarpan.

Lagið: Lofið Guð! Lofi hann hvørr sem kann.

Augun mín, uppvekur morgun skjær, í nafni þín, náðugi Jesú kjær! rís eg sképna syndum særð, af sænginni minni, Kristur sem oss keipti værð, með krossþínu sinni, stjórni hann hér, í stundlegum sessi, til alls góðs mér, ønd í trú hressi, athafnir ásettar blessi, enn í dag sem alla stund, og géfi eg meður gleði um síð, úr grøfinni uppríst, géfi eg meður gleði um síð, úr grøfinni uppríst.

Eg vil glaður uppvaknaður aldrei tína, lofinu

Guds, né láta dvína, ad leggja þad uppá túngu mína.

Nú er eg klæddur og kominn á ról, Kristur Jesús veri mitt skjól, í Guds óttanum géfdu mér, ad gánga í dag, svo liki þér.

Gud minn gódur géfdu mér, gott ad læra og skilja, svo eg meigi þóknast þér, og þínum dýrd-ar vilja.

Í nádar nafni þínu, nú vil eg klædast Jesús! vík eg ad verki mínu, vertu hjá mér Jesús! hjarta hug' og sinni, hefi eg til þín Jesús! svali sálu minni, sæta nafn þitt Jesús! eg svo yfirvinni, alla mædu Jesús! bædi úti og inni, umfadma mig Jesús!

Í nádar nafni þínu, nú vil eg sofna Jesús! bid eg í brjósti mínu, blessadur hvíl þú Jesús! sveip mig svo í klædum, þíns réttlætis Jesús! ad á himna hædum, hjá þér lendi' eg Jesús! mér í mót-gángs mædum, miskuna gódi Jesús! dreira úr dírstu ædum, dreif þú á mig Jesús!

## Nokkur útvalin Sálmvers.

Vertu Gud Fadir! fadir minn! í Frelsarans Jesú nafni, hønd þín leidi mig út og inn, svo allri synd eg hafni.

Hveiti korn þekktu þitt, þá uppris holdid mitt, í bindini barna þinna, blessun láttu mig finna.

Fyrst þú, minn Jesú! fullkominn, Fødursins gjørd-ir vilja, aldrei lát holdi inngróinn, íllviljann minn, okkar á millum skilja.

3 Vers.

Hefur þú, Jesú! barnið blíðt, barnæsku þannig mína, með blessuðum dygða-blóma prídt, bið eg nú gjæðsku þína, úngdóms verðugleik allan þinn, auðmýkt, hlýðni og blóðskraptinn, ætíð lát á mér hrína.

Fyrir þín úngdóms árin blíð, úngdóms brestunum mínum, gleymdu nú hjartans gjæðskan þíð, góðvilja eptir þínum, sú nýa fæðíng, nýa hér, náð og styrkleika veiti mér, af klárum krapti sínum.

Þókknist Guði að gjøra mig, gráann af elli hárum, til þín elskan mín ástúðleg, andvarpa eg heitt með tárum, Drottinn aldraði daganna, sem dálítill komst á jørðina, styrk mig á alders árum.

---

Minn úngdómsbrest og afbrot leið, álít ei, Herra kjæri! þeinktu heldur á þinn eið, og óbrigðanlegt særi; ó, herra Guð! af hjarta eg bið, harmþrúngnum þú mér veitir lið, svosem eg saklaus væri.

Lát Drottinn úngdóms árin mín, ávøxt manndygða sýna, forða mér allskyns fári og pín, fyrir gæðgjæðsku þína, ást þín og náð. mitt anníst ráð, um tíð lífsstunda minna, hér við þá skil, heimleið mig til, himneskrar dýrðar þinnar.

Ráð þú, minn Jesús, ráð þú mér, ráð þá æsinni minni, ráð þín eru óraskanleg, ráð mér af gjæðsku þinni, ráði mér blessað ráðið þitt, ráð þú mér hjartans hjartað mitt, svo ráð þín eg rækja kynni.

## Heilræda-Sálmur

Síra H. P.

1. Ungum er þad allra best, ad óttast Gud sinn herra, þeim mun vitskan veitast mest, og vyrding ekki þverra.

2. Hafdu hvørki hád né spott, hugsa um rædu mína, elska Gud og gjørdu gott, geym vel æru þína.

3. Foreldrum þínum þéna' af dygd, þad má gjæfu veita, varast þeim ad veita styggd, viljir þú gott barn heita.

4. Hugsa um þad helst og fremst, sem heidurinn má næra, aldrei sá til æru kémst, sem ekkért gott vill læra.

5. Lærdur er í lyndi gladur, lof ber hann hjá þjódum, hinn er ei nema hálfur madur, sem hafnar sidum gódum.

6. Opt er sá í ordum nýtur, sem ydkar mentun kjæra, en þussinn heimskur þeigja hlýtur, sem þrjótskast vid ad læra.

7. Vertu dyggur, trúr og triggur, túngu geimdú þína, vid engann styggur, né í ordum hriggur; athuga rædu mína.

8. Lítillátur, ljúfur, kátur, leik þér ei úr máta; varastu spjátur, hædni, hlátur, heimskir menn svo láta.

9. Víst ávalt þeim vana haldt, vinna, lesa, ydja; um fram allt þú ætíd skalt, elska Gud og bidja.

Lærdu gott á meðan mátt, máttur þinn kann dvína brádt, brádt afláta íllu átt, átt Guð biðja dag sem nátt.

Hafðu Guð í huga og minni, hafðu Guð fyrir augnm þér, hugsaðu' um Guð í hverju sinni, heyrir Guð og til þín sjer; vyrðtu Guð í velgeingninni, vittu' að hann þinn herra er.

## Bænarvers fyrir börnum.

Börnin, Jesú! þá láttu lyst, læra af dæmi þínu, að helgum dygðum veru og vist, veiti í hjarta sínu, skynsemd og ráð, Skaparans náð, skjæra svo hreppa meigi, í hvörjum stað, þér hallist að, en heiminum sæti eigi.

Haf þú, Jesú! mig í minni, mæðu og dauðans hrelling stytt; börn mín hjá þér forsjón finni, frá þeim öllum vanda hritt, láttu standa á lífsbók þinni, líka þeirra nöfn, sem mitt!



